aut Bloot-Hædir og Stoolpa; enn hreinsade Mustered og hiellt Paaska. Hann treyste uppa DRottiñ og veik ei af hañs Vegum. Gud var þessvegna med honum; Hañ breitte skinsamlega og frelsadest fra þeim Assyriska Konge Senacherib, hvers Her var ad Velli lagdur af einum Engle. (2. Kong. B. 18. 2. Chron. B. 30.)

124. Fiell hañ ei i þwngañ Siwkdoom?

Hañ vard daudsiwkur, eñ þegar hañ bad um Boot a sijnum Siwkleik, lagde DRotteñ 15. Ar til hañs Alldurs, og til frekare Vissu þar uppa, geck Skugginn tiju Lijnur til baka a Sigurverkenu. Gud, sem er Herra Natturuñar og heñar Skapare, kañ uñbreita heñar veniulega Hlaupe, þegar hañs Alvitsku sijnist þad gagnlegt.

(2. Kong. B. 20. Cap.)

125. Hvad getur þu tekid hier til Lærdooms af þessum Konge?

Eg vil læra af hañs Dæme Guds Otta, Bæn og Akallan, hvar æ epter mün filgia Myskun, Hialp og Frelse; Eg vil eiñig taka mier til Vidvørunar, i Tijma ad bwa mig til Daudans, ad eg, nær hañ kiemur, meige i Trwñe gledlast þess, ad fa ad lijta Gud eilijflega i Himne Gledeñar og Vegsemdareñar. (Es. 37. 38.)

126. Hverier Spameñ lifdu um þessa Tijma?

Hoseas, Joel, Amos og Micha, hverier med sijnum Rædum ættu Mootstødu veita Ogudlegri Framferde hiña Bondu. Þesser, asamt odrum Atta, kallast þeir Mærri Spameñ, þvi þeir ha-

sa eftir sig lætid stuttar Bækur. (Hos. 14.)

127. Var Manasses, Sonur Ezechiæ, Goodur Madur?

Pad ser fiærre: Hñ leidde Foolkid Afvega til Skurgoda-Bloots, eftir Sid heideña Maña, joos wt miklu saklausu Bloode og Ovirdte Guds Advaranir, er skedu fyrir Spaameñina. Hønum til Straffs leifde Gud, ad hañ fangiñ fluttist til Babylon. (2. Chron. B. 33.)

128. Hvernig hegdade hañ sier i þeim Stad?

Þar audmykte hann sig fyrer Gude, sem let hañ þa fara heim aftur. Eptir þad dyrkade hann DRotteñ af allri Alvøru, og burt took allar þær Sviivirdingar, er hann ædur hafdi tilsett.

Hañ rijkte alls 55. Ár, og þar fyrer leingur, enn nockur af þessum Kongum. (2. Chron. 33.)

129. Hvern nytsamlegañ Lærdoom getur þu tekid þier af þessu?

Tilgangur Tiptana Guds er sa, ad Meñ snwe sier fra sijnum Syndum og leite Naadar, til Lijfernesens Endurbootar, hvar af sialfer þeir ødlast mikid Gagn, jafnvel oftlega i þessu Lijfe. (Hos. 6. Cap.)

130. Hvlijkt var Safnadar Guds Asigkomulag um þessar Mundet?

Stundum var Sofnudur hinna Trwudu Allgloos, stundum (ad wtvortis Hættum) Ollin, eptir þvi sem Kongarnir hegdudu sier. Þeir goodu urdu tijdum so under þrickter, ad þeir mørgum siñum

þordu

þordu ei kañast vid Trw sijna edur Guds Ord. (1. Kong. B. 18 og 19. Cap.)

131. Skijr mier eitt hvad fra Josia?

Þegar hañ liet hreinsa Musterid, fundu Menn Mosis Logmáls Book, sem upplesin var opinberlega fyrir Gydingum; Þar eptir braut hañ øll Skwr-God, brende Bwka og Bein þeirra er þau blootudu, og med miklum Sooma til sette Hátijdlegt Paskahalld. Uñ þessa Endurboot i Guds Pionustu var ádur fyrri spad i Tijd Jeroboams hiñs fyrra, og Josias a Nafn nefndur þrem Hundrud Árum ádur eñ hañ fæddest (2. Kong. B. 22. 23. Cap.)

132. Liet hañ þa adspyria Mottéñ, uñ Logmaalsins Hootanir?

Jat, hañ liet adspyria DRottiñ fyrir þa Spakonu Hulda, og feck þad Svar, ad an Efa skylde Olucka koma yfir Landsins Jñ-biagendur, vegna þess, ad þeir hefdu afrækt DRottiñ, þo skylldi Fridur halldast medan Josias var a Dogum, þvi hañ hafde auduinykt sig. Þaññ uppvekur Gud optlega þa, er vidriette sijna sallna Kyrkiu, ad hverra Al-vorugiefne honum vel gediast, so hañ bliifer Landinu uñ þeirra Daga. (2. Chron. 34.)

133. Hverir voru Josiæ Synir.

Joachas, Joiakim og Zedechias, aller Ogudleger. Hiñ fyrste var fangeñ eftir þriggia Manada Stioorn og fluttur til Egypta-Lands af Kongenum Necho. Hiñ añar eftir ellefu Ara, og Sonur

haũs

hañs Jechonias var efter þriggia Mannada Rijkis-Stioorn rekeñ til Babylon: Somu Hrakfarir hitte sa þridie Brooder fyrir, efter þad hañ hafde rijkt i ellefu Ar. Hier af ma rada, hverju Fiandmeñ numturna ollum Hlutum i einu Rijke, þa þeir goodu eru under Lok lidner, og þeir, sem epter lifa, ottast ecke DRottin. (2. Chron. 36.)

134. Lifde nockur Spamadur um þessar Munder?

Ja, Jeremias, sem avijtade Foolksins Synder, Ligar, Yfirdrepskap og Afguda Dyrkan, Drambseme, Idrunarleyse, Hooraner og Mañdrap, eñ vard þess vegna settur i Fangelse. Nær um somu Munder spadu þeir

Nahum, Habakuk og Zephania. ( Jer. 5. til 7. Cap. )

135. Hvad sier þu af þessu?

Guds Yfirvættes Goodgyrnd og Efterlaungun til ad umvenda og frelsa oss, þar hañ midt i vorre Fordiorfun sender sijna Sañleiks Votta og Idrunar Predikara. Sa sem aungu ad sijdur helldur afram i siñe Vondsku, hefur þad ei, hvar med hañ sig afsaka kuñe, þa hönum refsad verdur. [ 2. Chron. 36. )

136. Var eingiñ añar Spaamadur uppe?

Medal Israels Foolks, er fyrst var Her-numid, spaade Ezechiel um Juda Rijkes vissa Eydelegging og Guds Safnadar Afigkomulag: Hañ varade þa eiñig vid þeirra Afbrotum, eñ hönum var ei

ei hlijdt. Honum veittust ymislegar Siooner og Opinberaner, sem skiedu af Guds Halfu. [ Ezech. 12. 33. 40. Cap. ]

137. Hvad lesum vier einkar illt um Konung Jojakim ?

Hañ liet lesa fyrir sier Spadooma Jeremiæ, ottadist þo ei Gudlegar Hootanir, helldur þegar fra ein Blod voru utlesen, skar hañ þau wr Bookeñe og uppbrende. DRotteñ liet segia honum fyrir, ad hañ skylldi drepiñ verda, og, alykt sem eiñ Asne, ecke nær ad greftrast. Guds Ord og Aminñingar eiga þess vegna halldast i Virdingu og ei fyrirlijtast. ( Jer. 22. 36. Cap.

138. Hver urdu Afdrif hins sijdarsta Juda Kongs ?

Zedechias var sigradur af Nebucadnesar, og æsamt Þegnum sijnum fluttur til Babel i Fangelse, þad Ar 3416. Jorsala Borg æsamt Musterinu, uppa hrad Gydingar reiddu sig, vard uppbrend, til Vitnis þar um, ad utvortis Hræsnis Pioonusta er Gude Vidurstigd. (2. Kong. 25.)

139. Hlaut einig sæ fængne Jeremias missa Lijfid?

Nei, Konungurenn af Babylon leifde hønum ad vera hvar hønum vel lijkade. Þar eftir, þegar Foolked, sem eftir vard i Landinu, foor til Egyptalands, tock þad hann med sier þangad, hvar hann einig spaade. Þannin gietur Gud hratt upp Heidingiana til þess, ad straffa þa, sem Ovirda hans Myskun, og þar a moot mijkia

þeirra Hiørtu þeim til Hagsælda, er han ottast. ( Jer. 40. 41.)

140. Hvert Efne var til þess, ad Juda Rijke skyllde eydeleggiast?

Ad Konungarnir og Furstarner, Prestar og Jnbiggendur hielldu fastlega asram i Afguda Dyrkan og ødrum Syndum, einig hefdu ad Hæde DRottens Sendeboda, er fyrr og sijdar komu til þeirra. Latum oss þar fyrir ecke draga Gis ad Gude! þvi hveriu einn sair, þad mun han og uppskiera. (2. Chron. B. 36.)

# Attundi Capituli,

## Um Gydingana Frelse, og þeirra Stiornendur til þess JEsus fæddest.

141. Hverſu lenge varade ſiv Babyloniſka Herleiding?

Hun varade i 70. Ar, fra þvi Gydingarnir voru fyrſt herleidder, eins og Gud hafde talad fyrir Jeremiam. A þeſſum Tijma hoofſt Spamadurinn Daniel til ſtorra Virdinga i Babel, hvar hañ ſagde fyrir þau fiogur Heimſins Einvallds Rijke, og JEſu Hijngadkomu og Pijnu. Um ſama leite hallda Meñ Obadias Spamadur hafe lifad. ( Jer. 29. Dan. 9. og 10. Cap. )

142. Frelſade ei Gud þria Gydinga um þeſſar Munder?

Jw, þar þeir ei villdu Tilbeidſlu veita Gull-Lijkneſki Nebucadneſars, og þeim þeſs vegna var varpad i glooande Ofn, þa bægde eiñ Engell Loganum fra

þeim

þeim, so þeir hlutu þar af eingañ Skada. Þar eftir skipadi Konguriñ opinberlega ad sierhver skylldе ottast Gud þessarra Manna. [ Dan. 3. ]

143. I hvern Haaska ratade sialfur Daniel hier eftir ?

Af Hatre til hañs komu Lands-Hofdingiar Darii af Meden til leidar-þeirre Skipan, ad eingum leifdest i heilañ Mañud añañ ad tilbidia eñ sialfañ Kongeñ. Nu sem Daniel bad til sijns Guds æ Dege hverium, eins og ædur, var hónum kastad i eina Grøf, hvar Lioon voru iñe fyrir ; Eñ DRottiñ frelsade hañ þadan Omeiddañ. ( Dan. 6. )

144. Hvad lærer þu af þessu ?

Ad Heidingiarnir hofdu gott Tækefære til þess ad þeckia Gud

og ad Drotteñ frelsar þá, sem lijda einungis þess vegna, ad þeir óttast hañ. Eg ætte sijfelldlega bidia Gud þess, hañ vilie vardveita miñ Konung og Yfirbodara fyrir vondū Rædanéyte og Tillockunum. (Dan. 4.)

145. Hver gaf Gydingum Leise til þess, ad þeir mættu reisa til siñar Ætt-Jardar?

Sá Persiske Einvallds Kongur Cyrus, hvern Gud laungu ádur hafde á Nafn nefnt fyrir Spamañinn Esaias. Musteriſins Ker liet hañ i Hendur sellia Zorobabel, sem var af Konga Ættum komeñ, hver ásamt þeim ypparsta Preste Josua flutte allann Þorra Foolksins heim til Gydingalands.

146.

146. Uppbigdu þeir þaa Musterid af Ny?

Þeir byrjudu med þad, eñ Ovinir þeirra, hinir Samverſku, hindrudu þaa leinge, uns Spaameñernir Haggai og Sacharias aſiſtu þaa til Verkſins Framkvæmdar. Darius Kongur, ad Auknefne Nothus eda Baſtardur, veitte þeim eiñig nockurn Abla til þeſs. (Eſr. 4. 6. Cap.)

147. Hvad ſijnir þetta oſs?

Guds Erende hefur tijdaſt ſijna Mootſtodu Meñ; Eñ þaa vier i riettre Diorfung, eftir hañs Orde og i hañs Nafne, med fullkomnu Trauſte til hanns Fulltijnges, laatum þaa ſoñu Guds Pioonuſtu vera vora hellſtu Vidburde, ſo gietur øll Helvijtes Makt ei hindrad oſs. [Eſr. 5.)

148. Komst ecke ein Kona, sem var Gydinga Kyns, til storrra Met-Orda?

Ad vijsu: Sw fatæka Esther vard Drottning Ahasveri, eda Xerris, i hvers Tijd sa ypparste Hof-Pienari Haman (vegna þess ad Gydinguren Mardochæus vilde ei lwta hønum) utvegade Leife til þess, ad aller Gydingar a til-teknum Deige mætti aflijfast. Eñ Esther kom þvi til Leidar, ad þess Ætlan sneriſt aňañ Veg, so Haman vard heingdur, eñ Gydingarnir feingu Leife til ad hefna sijn a þeirra Ovinum, a þeim sama Tijma, sem fyrr var akvedeñ. (Esthers B. 2. 3. 7. Cap.)

149. Hitter ei Tijdum hid Jlla þañ, er þvi hefur til Leidar komid?

An Efa: Sa fellur opt i somu Grof, er hañ odrum groof. Eñ þa Neydin geingur hærst yfir gooda Meñ, þa er Hiælpin nærst; Enda hefur Gud laungu adur tilreidt Medolen, þeim til Frelsunar. ( Esth. 4.)

150. Ferdudust eñ fleyre Gydingar til Jerusalem?

A þeim Tijmum, sem Artaxerxes hiñ MJñuge rijkte, foor Esdras Prestur þangad, asamt morgum odrum, sette i riett Lag wtvortis Guds Pioonustu, safnade saman Bookum hins gamla Testamentis, og wtskyrde fyrir þeim, hver Guds Vilie være. Pessu nærst foor upp til Jorsala Nehemias, sem bigdi upp Mwra Borgariñar, sette hana i gott Stand, og med ægiætre Framsyne

hafde

hafde heñar Umſioon um̃ langa Tijma. Pañig ſendir Gud ſij-nu Foolke hvad eftir añad Frelſe og Fulltijnge. [ Eſr. 7. Neh. 2, 13. Cap.]

151. Lifde um̃ þeſsar Mundir nockur Spámadur?

Malachias, ſem avijtade Gyd-inga fyrir þeirra Hræſne og fleiri Syndir; Spáde eiñig um̃ JEſu Hijngadkomu. Par eftir høfdu þeir eingañ Spámañ i 400. Ar, ſo þeirra Laungun yrde þvi ſterk-ari, med Gyrnd og Glede Moot-toku ad veita þeim ſtoora Spá-mañe og alls Heimſens Lærefød-ur JEſu Chriſto. (5. Moſ. B. 18, Malchiæ 1. og 3. Cap.)

152. Hverier ſtioornudu Gydingum um̃ þeſſar Munder

Peir

Þeir ypparstu Kiennemenn veittu Lijdnum Forstødu yfer halfttañad Hundrad Ar. Um þetta Skeyd snerúGydingarnir i Egyptalande Bookum hins gamla Testaments a Griska Tungu, sem þa geck alla vega: Hvad ed var mikillt Hiælpar Medal Heidingiunum, ad under bwa þa til Jesu Hingadkomu. (Syrachs 50. Cap.)

153. Hversu geck loksins þessum Kiennemønnum?

Brædur Onias hins Þridia, med þvi Nafne, keypltust hver vid annan ad fa sier til Handa keypt hid ypparsta Kiennimanns Embætti af Antiocho hinum Gøfga, Syrlands Kongi, hver, þa hann kom i Gydingaland, bringadi marga ad falla fra Guds Logmale til Skwrgoda Blooks, og

saurg=

ſaurgadi þar ad auki Helgidoomiñ. (1. Maccab. 1. og 4. Cap.)

154. Sette eingiñ ſig i giegn honum ?

Jw, einna hellſt Mathathias Maccabæus, hvers Son Judas, fyrir Adſtood Drottens, fieck Sigur og hreinſade Muſterid ad nyu. Hañs Brædur og Eftirkomendur ſtioornudu þar eftir bædi ſem yppurſtu Kiennemenn og Konungar nær þvi i Hundrad Ar, eñ lokſins ſetti ſia eine þañ añañ af Embættenu.

155. Hverir voru þeir, er tooku Rijkis Vondiñ (edur þau ædſtu Stioornar-Raad) fraa Juda ?

Þeir Romverſku, vid hveria Gydingar hofdu Sattmaal bundid, komu og ſkylldu þar ad, nædu til ſijn Rijkis Stioorniñi og ſettu til Kongs Herodem, þañ Idumæ-

ara.

ara. Um̃ þessar Mundir hoosst til Rijkes sat Romverske Keisare Octavianus Augustus. (Matth. 2. Cap.)

156 Hvad lærer þu af øllu þessu?
Ad Gud sender sin̄ Hirtingar-Vønd, þegar rett Trwar-brøgd vanvirdast eda rannglega um̃ Hønd hafast, en̄ han̄ brijtur þan̄ sama Vønd, eftir þad han̄ hefur tiptad. Eg sie ein̄ig hier af, hversu Samheldesleyse er Ordsøk til Eydeleggingar Landa og Lijda. [Es. 87. 4. Cap.]

157. Uppkomu ei nockrer Villu Lærdooms Flockar a þessum Tiima?
Jw, einkum Sadducæi, sim̃ ei trwdu ad til væru Englar, Upprisa edur efste Doomur; Pharisæi, sem meintu ad son̄ Guds Pioonusta

være iñesaliñ i utvortis Verkum og Maña Setningum. Þessir voru optlega til baka rekner af vorum Endurlausnara. ) Marc. 12. Cap.)

158. Hverſu hegdade ſier þeſſe nije Gydingaña Konungur ?

Þeſſe Herodes, ſem kallaſt hiñ MIkle, bigde upp Muſterid nær þvi ad niju, ſo hañ kinne þocknaſt Gydingunum. Samt var hañ griñur i Skapi, og drap margg þa hønum ſkilder voru og vendſl adir, hañ let myrda Smaa Børneñ i Bethlehem, þar hann hugde, hañ munde miſſa Rijki ſitt vegna JEſu Fædingar. Af hanns Sonum var Herodes Antipas, ſem ſtiornade i Galilæa; Philippus i Ituræa, og Archelaus i Judæa, eñ þeſſe var ſijdar rekinn

frá Rijke, og einn Romverskur Jarl (edur Lands-Stioornare) settur í hanns Stad. (Matth. 2. Luc. 3. Cap.)

159. Hvad uppfylltest med þessu?

Spaadoomur Forfødursens Jacobs, ad vor Fridar-Høfdinge skillde i Heiminn koma, þegar Gydingarner høfdu ei lengur Konunga yfir sier af sijne eiginn Piood. So uppfylltust og allar aǹarra Guds Spaamanna Fyrirsagnir, sem i allann Máta eiga heima hiá JEsu af Nazareth eǹ eingum ødrum, so vier med Fognude og Fullvissu vitum, ad haǹ er þad fyrerheitna Kvinnǹar Sæde og Heimsens Endurlausnare. (1. Mos. 49.)

160. Hver var JEsu Fyrir-reǹari?

Johannes Skijrare, sem kende og skijrde, enn var sijdann Halshöggin, eptir Skipan Herodis Antipæ, þvi han hafde fundid ad hans Gifting, er han batt Lag sitt vid Philippi, sijns Brooðurs, Konu. (Luc. 3. Marc. 6. Cap.)



# FIOORDE PARTURINN,

Hondlar um þan fyrstu Hundrad Ara Öld eptir Christi Fædïng.

161. Hvad sijnist hier helst til Hugleidingar takande, af þvi sem til hefur bored a þessare Hundrad Ara Öld?

Pad er first mijns Herra JEsu Lijferne, Pijna og Himnafør; þar næst Athafnir þeirra Heilogu Post.

Postula.

# Nijunde Capitule,

## Um JEsu Christi Framferdi, og Himnafør.

162. Medhveriu Mooti var JEsus getiñ?

An allrar Syndar, þvi sat Heilage Ande kom yfer Jomfrw Mariu og Kraftur hins Hæsta yferskyggde hana; Þar epter var JEsus fæddur i Bethlehem, hvar hañ var Reifum vafeñ og lagdur i eina Jotu, hvad Menn hallda skied vera at þvi 4000, jafnvel þo adrer hallde at þvi 4002. Enn nockrer at 3967. Are epter Sköpun Heimsens. Þessu til Endurmiñingar holldum vier Joola,

Dagiñ helgañ. (Lucæ. 1. 2. Cap. Mich. 5.)

163 Vitse nockur af þvi, hvijlijkur hañ var?

Jaa, Englarner bodudu þad nockrum Fiaar-Hirdurum, þaa sem u Joola Noott, sem hañ fæddist. Þvi nærst prijsede og þackade Gude i Musterinu sa gamle Simeon fyrer hañs Hijngadkomu i Helldid. Vitringunum ur Austur-Veige birtest eiñig Stiarna, sem æfyste þaa til ad leita hañs og veita honum Lotning, oss ellum til Eftirdæmis. (Luc. 2. Cap.)

164. Hvar Olst hañ upp i siñe Æsku?

J Nazareth hiaa Feostra sijnum Joseph, er var Tre-Smidur, og þaa hañ var 12. Vetra keñde hañ i Musterenu medal þeirra Skriftlærdu.

færdu. Þegar hañ var þrijtugur let hañ Johannem Skijra sig, og kom þa ÿfer hañ Heilage Ande yfir hañ i Dwfu Lijking, og Fadereñ kallade hñ siñ Son; Þessu nærst var hañ freistadur af Dioflinum; þar epter wtvallde hañ sier toolf Læresveina, og keñde openberlega i þriu Ar. [ Matth. 3. 4. ]

165. Seig mier Jñtak hañs Kieñinga!

SMiwed YÐdur OG TRiwid EVangelio. Hañ kennde Foolkenu, ad hañ være Guds eingetenn Sonur, komiñ ad lijda Pijnu vor vegna, ad hver a hañ tryde, skule ecke fyrirfarast helldur eignast þad eilijfa Lijf, Eiñig ad DRottenn lijte eptir Hiartans Hreinleika og Einlægne, til Trwariñar og þess Traustz, Menn eiga a hönum hafa. ( Matt. 6. . . 8. Cap. Marci

1. Cap. Joh. 6. til 8. Cap.)

166. Hver Rok færde hañ til þess, ad þad være Sañleikur, er hañ kende?

Til Stirktar sijnum Lærdoome giørde hañ stoor Jardteikn i marg-ra Nærveru: hañ læknade hallta, blinda og likþraa, mettade mørg Þusund Manns med sauum Brauðum, stillte Stormvedur, uppvakte dauda og utrak Diofla, alleinasta med einu Orde. Alijkañ Hatt sagde hañ fraa þvi, sem adrer þenktu, sagde fyrer siñ Dauda og Gydingaña Eydilegging. (Marc. 4. 6. Cap. Matth. 23. Cap.)

167. Hveria Vegsemd ødladest hañ?

Hann forklaradest a nockru Fialli, so hanns Andlyt skein sem Sool. Þar eftir, þegar hañ reid iñ i Jerusalem, filgde Foolkid hønum med Palma-Vidum og Glad-

værdar Hroope, eñ JEsus gret þa yfer þeirre Olucku, sem þeim var bweñ, þar þeir ei villdu uñ venda sier (Matth. 17. Luc. 19.)

168. Seig mier, hvad hañ giørde hina sijdurstu Noott, adur hañ iñgeck sijna Pijnu?

Hañ iñsette Sacramentum Altarisins til siñar Endurmiñingar. Þar eptir geck hañ ut i Grasgardeñ Gethsemane, hvar hañ leid helvitska Saalar Angist, sem vier lijda attum vegna vorra Synda; Hañ stridde vid Daudañ, so hann sveittest Bloodenu. (Luc. 22.)

169. Hverier tooku JEsum til Fanga, i þessum Grasgarde?

Phariseaña Þienarar, eftir Tilvijsan hanns eigeñ Lærisveins, Judasar Jschariot, eñ hinir hañs Læresveinar flijdu þa fra hønum.


um-

num. Þar eftir dæmdu Prestarnir og Rædid hañ til Dauda, vegna þess hann vidurkende þad hañ Guds Sonur være. Þessa somu Noott slogu og dærudu Þienararnir hañ miøg skamarlega. Simon Petur stadfeste med Eide, ad hañ ei þeckti JEsum, og Judas heingde sialfañ sig af Orvænting. (Marc. 14. Joh. 18. Cap.)

170. Til hvers færdu þeir hañ um Morguniñ efter?

Til þess Romverska Landstiovrnara, sem var Pontius Pilatus, fyrir hveriunn þeir gatu þo ei fañad uppa hann nockra Dauda-Sök. Doomartñ vitnade sialfur, ad JEsus være sijkn Saka; samt, so eckert Upphlaup skilde verda, vilde hañ þæga þeim i þvi, ad vor Frelsare være af Lijfe tekiñ, eñ sw

Sok

Sok skilde at þiñ bitna. (Luc. 23.)

171. Hvorsu var hañ þaa medfariñ?

Strijds-Mennernir hwdstrijktu hañ hørmulega, þreingdu Þyrni Koronu ofann at hañs Høfud, hræktu i hanns Asioonu og spottudu hañ, þvi nærst var hañ utfærdr til Fiallsins Golgatha, og at Høndum og Footum negldur fastur vid eiñ Kross millum tveggia Ræningia (Joh. 19.)

172. Giørdest JEsus ei þaa Oþoliñmoodur?

Aungvanveigiñ! Hverke affsakade hañ sig nie møglade, helldur bad hañ fyrir þeim, hañ Lijflietu, og huggade sijna Moodur: Med hveriu hañ audsynde sig ad vera hid ædsta Þolinmædiñar Eptirdæme fyrir oss, i þeim hørdustu

Pijningum. Eg veit eiñig ad hañ elskar þær, sem giøra saña Jdran, þvi hañ hiet Paradijsar Fagnade þeim ydrande Ræningia. (1. Pet. 2.)

173. Hvad giørdu þeir vid hann a Kroſsenum ?

Þeir lugu uppa hañ og ſpottudu, þeir gafu hønum Edik ad drecka, og eiñ Striidsmaññaña ſtack Spioote i hañs Siijdu. Pilatus ſette þeſſa Yfirſkrift a Kroſsenn: JEſus Af NAzareth GYdinganna KOnungur: Sem þañig hlioodar i Latinu-Maale: Iesus Nazarenus Rex Iudæorum. Hvad Meñ eru vanir þañig ad ſkamſtafa, med þvi ad rita einungis Ordaña Upphafs-Stafe: J. N. R. J. [ Luc. 23.]

174. Skede nockur Wijſn um̃ þetta

Leite?

Jæ, Soolin miste sitt Skyn um̃ þriær Stunder, og i sama Mund fañ hañ ei til Huggunar eda Letters i siñe bitru Pijnu. Þegar hañ andadest, skiede stoor Jardskialfte, so Biörgiñ i sundur klofnudu, og vid þesse Undur sineruft nockrer. ( Matth. 27. )

175. Hvers vegna leid Jesus so Ofegianlegar Pijsler?

Vegna miña og alls Heimsins Synda, hvert Straff hañ leid goodviluglega, þvi hañ elskade oss. Med þessum Hætte kom hañ mier i Sætt vid Gud, er eg hafde egnt til Reide, og afrekade mier eilijfa Sæluhiælp; Þvi vegna Hætignar hañs Guddoomlegu Persoonu hafde hañs bloodugе Daude Oendanlegañ Kraft og

 Dijr-

Þiirmæte. ( 2. Cor. 5.)

176. Um̃ hvad ertu hönum̃ a most skylldugur?

Ad trwa og reida mig uppa hañs Forþienustu, elska hañ af ollu Hiarta, vera hönum hlijden̄ i sierhverin, strijda gegn Synden̄e, og viliuglega um̃bera allt Mootlæte epter hañs Vilia. Þar til virdest hañ ad veita mier sijna Naad og Anda! ( Ebr. 4. 10.)

177. Hverning var hañ Greftradur?

Riett heidarlega i Grøf þess Raad-Herra Josephs, sem var wthøggin i Steine, og var þar eftir velt stoorum̃ Steine ad Grafar Muñanum̃, hvern Stein Prestarner iñsigludu, og settu Vaktu Meñ yfir, er hañs skylldu giæta. Ur þessare Grøf reis hañ lifande a þridia Dege næst efter: Og i

Miñing hañs Upprisu helldum vier heilaga Paaska Hatiðena. (Matth. 27. Cap.)

178. Feingu LærESveinarnir ad sia hañ aftur?

J Fiøretyge Daga openberadest hañ tijdum fyrir þeim, og med þvi moote giorde þar vissa um sijna Upprisu. Hañ gaf þeim Makt til, ad fyrirgiefa Syndirnar þeim ydrande, baud þeim ad predika og skijra allar Pioodir i Nafne þess Pri-eina Guds. (Joh. 20, Matth. 28.)

179. Foor JEsus sijdañ fraa þeim?

Hañ blessade þar og foor til Himins, hvar hañ bidur fyrir oss, stioornar og hialpar sijnum Søfnude. Eñ ad Lokum þessa Heims kemur hañ syneléga aptur til ad

dæma

dæma alla Meñ, epter þvi sem hver eiñ hefur hágad sier i þessum Heime. (Post. G. B. 1. og 10.)

180. Til hvers skal allt þetta afsiisa þig.
Til þess, ad tigna og tilbidia Jesum asamt Fodurnum og þeim heilaga Anda; i Trwñe ad fœra mier i Nyt hañs Ord og Sacrament; hugga mig i mijnum Breiskleika vid hañs Dauda og Fyrirboon; einskis virda Heimsins Eptirlæte, helldur lanta mig langa efter hañs Aptur-Komu, mier til ævarande Frelsunar. Sialfur hañ veite mier þar til sijna Nád! (1. Joh. 2. Cap.)

## Tijunde Capitule,
### Uñ Athafnir þeirra H. Postula.

181. Seig mier Nosn Postulañа!

Si-

Simon Petur, Andreas, Jacob Zebedæi Son, Johannes, Philippus, Bartholomæus, Thomas, Matthæus, Jacob Alphæi Son, Judas Thaddæus, Simon af Cana, Judas Ischarioth, enn i þessa stijdarsta Stad var Matthias sijdar meir utvaliñ fyrir Hlutkesti. (Post. G. B. 1.)

182. Hvad bar vid a Hvijta-Suñu Hatijdenne?

Hañ Heilage Ande kom yfir Postulana, i Lijking elldlegra Tungna, hvers vegna þeir strax gatu predikad fyrir hverre Piood i ymsum Tungumalum. Þar efter snerest til christelegrar Truar fyrir Peturs Rædu þriw Þusund Mañeskiur. (P. G. B. 2.)

183. Hver voru hellstu Verk og Athafner Postulaña?

Þeir

Þeir ritudu eiñ Tijma efter añ-
ann Bækur hins nya Testament-
is og predikndu i øllum Attum;
Drotteñ sialfur erfidade med þm̃,
og stadfeste Orded med Jarðteikn-
um, sem þeir giørdu i hans Naf-
ne. Gydingarnir offookktu þar
ad vijsu, settir þa i Fangelse og
Hwd-strijktu þa, eñ þeir helldu
fraũ Keñingũne ørugger, þvi
Gud frelsade þa, og gaf þeim
Diørfung ad tala Orded añ Otta.
(Post. G. B. 3. og 4. Cap.)

184. Skijr mier fra þvi, hvad Petur adhafdist?

Hañ læknade eiñ Mann, sem
halltur var fæddur; avijtade hañ
Ligara Ananias, sem i sama Vet-
fange fiell daudur nidur; Hann
vakte af Dauda Tabitham, og
fraũ filgde Lærdoome rettrar
Trwar skørugglega. Sagt er, ad
hañ

hañ lokſins hafe kroſsfeſtur vered i Room, eptir vors Endurlauſnara Spaadoome. Raadvander Meñ faa tijdum ei añad til Launa af Heiminum, eñ Hatur og Ofſookn, hvar til Satan upphvetur ſijna Ptoona. (Joh. 21. Poſt. G. B. 5. og 9. Cap.)

185. Hver urdu Æfelok Jacobs Zebedæi Sonar?

Herodes Agrippa liet Hals hoggva hann. Slijkar Hørningar ſagde JEſus ſijnum Lærefveinum fyrir, og þeir uñbæru þær viliugir, til Vitnis þar uñ, hverſu fullviſſer þeir voru þeſs, ad þad þeir kendu ødrum, være Obrigdanlegur Sañleike og fraa Gude komiñ. Þvi høfum vier einga rietta Ordſøk ad efa þeirra Kieñingar. (Poſt. G. B. 12. Cap.)

Matt.

Matth. 10. Cap.)

186. Hvad veitstu ad seigia mier um̃ Johannes?

Domitianus Keisare rak hañ til þerrar Eyar, er Pathmus hiet, hvar JEsus opinberade sig fyrir honum, og sijnde hversu til munde gänga i christelegre Kyrkiu, edur Guds Søfnude, til Dooms-Dags. Þesse Læresveiñ var mest eftir JEsu Siñe, og hañs Sende-Brief eru eintomes Upphvatningar til Trwar og Kiærleika. (Opinb. B. 1. Cap. 1. Joh. 4. Cap.)

187. Hvad fyrir eiñ var Jacob Alphæi Son?

Hañ veitte Forstødu Søfnudenum i Jerusalem og ritade eitt Sende-Bref til Gydinga, er snwist høfdu til christelegrar Trwar,

og hingad og þangad voru wt-
dreifder. Under hañs Tilsioon
var hallded eitt Allsheriar Moot
af Postulunum, hvar Kyrkiu
Logmaal Gydinga var af teked,
sem hverke gætu þeir nie þeirra
Fedur halded. Fyrir hvert chri-
stelegt Frelse ois byriar af Al-
huga ad þacka vorum Endurlau-
nara, og giæta þess, ad ei mis-
brwkum þad Syndenne til Yfir-
hylmingar. ( Post. G. B. 15.
Gal. 3. Cap. )

188. Seig mier nockud af Mattheo?
Adur enn hañ snereſt, var hañ
Tollheimtu Madur, þar efter
skrifade hann sitt Evangelium
uñ JEsu Æfe og Pijnu: A lijk-
añ Hatt skrifade Marcus, sem
var Filgiare Peturs, einig Lucas,
sem var samferda Pале, og Jo-
hannes

Hannes. ( Matth. 9. )

189. A hvern Haatt var sorgad fyrir heim fastæku?

Þeir rijku seldu Eigner sijnar og gaafu þær þeim til Uppheldes. Þeim Fatæku til Forstødu, voru vallder sio randvander og vitugr Menn, af hverium einkanlega eru greinande þeir Stephanus og Philippus. ( Post. G. B. 6. )

190. Hver urdu Æfe-lok Stephani?

Hann var fullur Trwar og Styrkleika; Þess vegna þrættudu Gydingaña Keñendur gegn hönum, og bäru hañ rangre Søk. Nu þar hañ i sinne Rædu lastade þeirra Þvermoodsku, hrepptu þeir hann wt af Borgenne og grijttu, hvad hann bad Gud ad fyrirgiefa þeim. Þannig aa Vandlæting gegn Syndenne, og Kiær-

leike,

leike, einig til Ovina, rijkia i Hiørtum christenna Manna. (P. G. B. 7.)

191. Hvad framkvæmde Philippus?

Hann snere til riettrar Trwar mørgum Samverskum og Hof-Piénara nockrum fra Morlande, predikade einnig a ymsum Stødum. Hans fioorar Dætur spaadu. Gud vere þess lofadur, ad hann hefur sinn Nadar Bodskap lated wtberast medal Heidingiana, þvi þess hættar voru mijnir Forfedur. [P. G. B. 8.]

192. Hafde Søfnudur Guds nockurn Nafnkiendan Ofsooknara?

Mørgum af þeim riett-trwudu kastade Saul i Fangelse, enn þa JEsus varade hann vid af Himne, snerest hann og predikade

Evangelium med goodum Framgange, giørde Krafta Verk og leid miked illt. Epter þad hañ umſneriſt kallaſt hann Paulus. Þannig kañ eiñ ſtoor Syndare Myſkun ødlaſt, þa hann an Afirdrepſkapar ſnyr ſier til Guds. [ Poſt. G. B. 9. og 1. Piſt. til Timoth. 1. Cap. )

193. Upptel mier nockur Krapta Verk Paals!

Hann læknade einn Mann, ſem halltur var fraa Moodur Lijfe; wtrak af einne Stulku Fytons-edur Sannſagnar-Anda, Sem hroopade, ad Poſtularnir være Þienarar hins ædſta Guds; vakte upp Evtychum, ſem ſofande fell nidur wr einu Vindauga: Gud ſnere einnig, fyrir hanns Þioonuſtu, mørgum Heidingum, eink-

um í Corintho og Epheso, hvar hann dvalde nockur Ár. Þau fyrstu Sende-Brief, er hañ ritade, voru til þeirra í Thessalonika. ( P. G. B. 14. til 20.)

194. Veittu Gydingar honum hardar Ofsookner?

Þeir komu þvi til Leidar, ad hann var wtrekiñ wr mørgum Stødum, og eggiudu Jnnbyggendurner i Lystra til þess, ad grijta hann; þo fyrir DRottens Fulltijnge upp stood hann Omeiddur. Hønum var i Jerusalem varpad i Fangelse og lá vid sialft, hann yrde þar af Døgum raiden, enn hann skaut sijnu Mælefne under Urskurd Keisarans, og hlaut þess vegna ferdast til Rooma-Borgar. Þangad komst hañ loksins, epter þad hañ hafde lided Skipbrot,

keñde hverium einum, sem sooktu a hanns Fund, og ritade þar flest-øll sijn Sende-Brief. (Post, G. B, 21, til 28, Cap.)

195. Hvada Doom lagde Keisareñ a Paal hanns?

Hañ dæmde Paal sijknan Saka; Enn Paall reiste þar eptir uñ kríng og styrkte Søfnudena, medal hverra hañ ædur fyrre hafde predikad Evangelium Guds Rijkes. Nu þegar hann ad nýju ferdadest til Room, er Paal Maña, hañ hafe Hals-hoggvīñ vered, og ritade hañ skømu ædur sitt sijdara Sende-Brief til Biskupsins Timotheus. Hann er Efterdæme uppa eiñ riett-trwadañ JEsu Christi Strijds-Mañ, (2. Tim. 4. Cap.)

196. Hverſu lyktade ad ſijdurſtu fyrir Jeruſalem?

Efter Spaadoome vors Endurlauſnara var hun eyde-løgd af Romverium, eñ Gydingar añad hvert ſættu Lijf-Tioone fyrir Sverds-Eggium, af Hungre og Dreyſoott, eda mættu rekaſt uñ øll Lønd, til Vitnesburdar uñ Guds Orda Sañleika og Drottens Vandlæting gegn þeim, er O-virda hañs Myſkun. (Luc. 21. Rom. 11. Cap.)

197. Hvad nefnaſt þær Bækur heilagrar Ritningar, ſem ſkrifadar voru ædur eñ Jeſus fæddeſt?

Þad GAmla TEſtament, og eru þær þeſſar: Fiñ Moſis Bækur, Joſuæ Book, Doomara Book, Ruths Book, Tvær Bækur Samuelis, Tvær Konga Bækur

ur, Tvær Chroniku Bækur; Esræ Book, Nehemiæ Book, Jobs Book, Davids Psalmar, Salomons Ordskvider; Predikare og Lofkvæde. Her til heyra og Spámennernir.

198 Hverier voru þessar Spámeñ?

Fioorir þeir STooru: Esaias, Jeremias, Ezechiel og Daniel; Toolf þeir MJñi: Hoseas, Joel Amos, Obadia, Jonas, Micheas, Nahum, Habakuk, Zephania, Haggai, Sacharias, Malachias. Allar þessar Bækur eru Guddoomlegar og kallast Canoniskar, eda Reglu-riettar.

199. Hvad heita hinar adrar gamla Testamentisins Bækur, sem leggiast til þessara?

Tobiæ Book, Judits Bock, Sti.

ckisem tilheyrir Esthers Book, Spekeñar Book, Syraks Book, af Baruk, Sticki sem tilheira Daniel, tvær Maccabæaña Bækur og Manassis Bæn. Þessar kallast yfir Hofud Apocryphiskar, edur hulldar, þvi þær voru ei opiñberlega fyrir Alþijduñe lesnar i Samkundu-Hwsunum.

200. Hvad heita þær Bækur Bibliuñar, er ritadar eru epter Christi Himnafor?

Gudspialla Bækur Matthei, Marci, Lucæ og Johañis, Postulaña Giorningia Book. Pauls SendeBref til Romveria, tvø til þeirra i Corinthu Borg, til þeirra i Galatia, Epheso, Phili pis, Colossis og til þeirra i Thessalonika tvø. Til Timotheum tvø, eitt til Titum, til Philemonem og

Ebreskra. Jacobs Pistill, tvo Bref Peturs, þriw Johannis og eitt Judæ. Johannis Opinberinga Book. Allar Þessar eru einig Guddomlegar og Canonisk-ar, sem þiena oss sem ein Regla, epter hverre laga eigum Trw vora og Framferde.

# Nockur Minis Vers,

Ordt af Sr. Þ. Þ. S.

Fialla Nøfn wr H. Ritningu.

HJer skal Fialla Heite Piood
herma, þau er Ritning tier.
Ararath bar eptir Flood
Orkena med sijnum Her.
Þaut af Sina Þrumu Hliood,
þadan gefed Løgmaal er.

Knaist

Knæst af Ebal kysdu Hniod
Kieñemaña Bølfaner.
Baudst af Grizim Blessan good
bædum, Amen sagde hver.
Uppæ Hor hañ Aaron trood,
afklæddañ þar lesunt vier.
Bioo æ Seir med Børn og Fliod,
Brooder Jacobs Hylle-þver,
Sto æ Pæor Zipors Jood,
Sioon Olturu bigde ver.
Tiold æ Sapher Reisu riood,
reistu Fylken Ersda-gier,
Baala nær med Benia Skood,
binggu Jüda Kyn-Pætter.
Ephraim ei bar Vidbiood,
besta Kyn þæ Fold yrker,
Salmon, Hebron, eñ i Od,
Ephron, Heres, Skriften lier,
Midt af Pisga, moot Azdod,
Moses Hvildar-Landed sier.
Hañ æ Nebo Heliar Slood,

 hitte

hitte señ og geck yfer.
Heit af Sion hrinda Mood,
Hæd þar Davids Slot gyller.
Flaut af Hermon hiñs ar Lood,
hlij Natt-Døgg og Friofsemder.
Mesta Borg ar Moria stood,
Mustered og heilog Kier.
Haar Libanus, Fregn er frood,
frægan Cedrus Vid geymer,
Hraut ar Carmel Himin Glood,
hreimde tveña fiimtijger.
Fiøll Gilboa Vijg uñ vood,
verste Daude Saul þar sker,
Flettte Thabor fogrum Siood,
Forklarunar Prijsen ber,
A Golgatha wtrañ Blood,
allañ Heim er fridþæger,
Oliveti Heidre blood,
Herrans P jn og Uppfarer.
Þegnum Fialla þuliñ Liood,
þañin falla skulu hier.

Tiju Plagur Egyptalands.

Egyptaña uppteiknast,
antta Reide-Sløg og tveñ,
Blaa Vøtn øll i Blood snwast,
beitsk-yldest hver Lækureñ,
Illar Pøddur anbreingiast
allañ Lijd og Konungeñ,
Moldar-Lwsum Mor-kveikiast,
Meñ og Dijr vld Aftøkeñ,
Svarter Ormar sampyrpast,
svelgia og vijda Matvæleñ,
Drepsott æder dailegast,
deyder Hiarda Frumburdeñ,
Eldingar med Hagle hast,
helslaa bæde Fe og Meñ.
Bruna Kaunen Holded hvast,
brijsa, nær sem Gloodauseñ,
Eingesprettur fanga fast,
flesta Landsins Avøxteñ,
Himna Lioosen heidmyrkvast,

Hverge sast um̃ Dægur hreñ,
Frumgietningar foreydast,
fañst ei nockur Ddrepeñ,
Loksins rauda Naan ad brast,
rauk þar allt i Hel-Kofeñ.





# Vidbætir,

Jnnehalldande hid styttsta Agrip peirra merkelegustu Hluta, sem til hafa bored i Guds Kyrkiu fra Postulanna Døgum fram til naalægra Tijma, hvar af Guds Safnada Asigkomulag kañ nockurn veigen skoast.

## 1. Capitule,

Um Tilstand christelegrar Kyrkiu fraa Postulaña Døgum, til þess Ars 319. epter Christi Fæding.

1. Hvilijkt var Lærdoomsins Asigkomulag i christelegre Kyrkiu aa þessum Tijma?

Epter þad vor DRottiñ JEsus Christur og hañs Postular hofdu ei einasta i

Sydingalande helldur og vijda añarstadar lagt Grundvoll til riettrar Trwar og Sida-Lærdooms, helldu Postulaña Læresveinar, og vel flester þeirra Tilheyrendur, vid þañ saña Lærdoom, hver, einkum at hiñe fyrstu Old, var einfaldlega og aan Fordildar kenndur af framar Gudhrædddum eñ, epter þessa Heims Alite, lærdum Moñum; Eñ a þeirre añare og hellst þridiu Hundrad Ara Old, viku marger af Kieñendunum fra þeirre soñu Trwarinnar Einfeldne, og þookte fagurt og Framsyne gegna, þa þeir i Utskijringu Trwarinnar Hofud-Greina brwkudu Ord og Tals Hætte til Laans tekna wr Ritum heidenna Spekinga edur og Sydinga; Likl-ga þess vegna, ad þessum þvi helldur skilioft kyñu christen Trwar-Brogd, og ed þau væru ei med ollu fraaleit Lærdoomum þeim, algeinger voru i Austur Alfu-e; hvar af þo spruttu a sijdare Tijmum flooknar Spurningar, ra-ngar Utleggingar og Miskilijder i Lærdoomenum;

Lo

Lokfins brwkudu þessa Adferd, nockeer til þess, ad hylma yfir rangann Lærdoom.

2. Hvilijkt var wtvortes Asigkomulag Christs Kyrkiu, og hverier Sider i Henne helst tijdkanleger?

Þad rettest snemma, ad Christi Rijke er ei af þessum Heime, þvi hanns Lærdoomur vard Gydingum tijdum ad Asteiting og Vitringum þessarar Veralldar ad Heimsku; So Christi Brwdur var svort og sorgleg ad ytre Asynd, og matte sæta þrwngum Offsoknum. Þeir rett-christnu vonduda miog sitt Frammferde, og leifdu ei þverbrotnum Glæpa Monnum ad vera i sijnu Samkvæme, fyrr enn þeir giordu alvarlega Yfirboot. Þeir komu samann a vissum Tijmum, einkanlega Sunnu-Døgum og a Þvott-Døgum (*) til



(*) Ad Laugar- eda Þvott-Dagurenn hafe leinge framm epter brwkadur vered til Gudlegrar Pionustu, hellst medal annars af þvi sem alyktad var a þvi Ø.dunga Moote er halded var i Laodicea her um 370. hvar skyppad

Æfingar sijns Christendooms, so sem ad lesa Guds Ord, syngia og bidia, styrkia þaa breysku og safna Olmusum. Auk Suñudagsins helldu þeir helgañ þann fyrsta Paaska- og Hvijta-Suñu Dag, (*) og þeim sem skiyldust var slijkt Embætte veitt einna hellst aa þessum Hætijdum. Þaa Sacramentum Altaresins var handtierad, voru haldnar Kiærleiks Maaltijder. Þeir veiku voru stundum smurder Vid-Smiore, og fyrir þeim beded epter Postulans Jacobs Skipan i hañs Pist. Cap. 5. v. 14. Engvar vissar Fostur voru af Postulunum tilsettar, helldur var þad und-



er Meñ skylldu lesa Evangelium og adrar Bækur Heilagrar Ritningar aa Laugar-Døgum eñ ei hallda hañ jafn helgañ edur framar eñ Suñudageñ.

(*) Adrar Hætijder voru sijdar iñsettar; Þo eru þeir til, sem meina ad Uppstigningar Hætijd vors Frelsara hafe sijdan aa þeirre þ:idiu Old haldenn vered, þaa hafe og iñleidst saa Sidur ad krossa sig.

er hvers eins Kiorum komid, nær hann fasta villde ( 1. Cor. 7. v. 5. ) eñ sijdar meir leiddest þad i Veniu, ad visser Dagar voru til þess tekner. Vissar Stietter voru eing. medal þeirra, er Forstødu veittu Guds Søfnude a þeirre fyrstu Old, so sumer kolludust Fedur, Spaameñ og Evangelistar, adrer Biskupar, Oldungar, Diaknar; og var þesse Mismunur i Tillite til þess Starfs, þeir a Hondum hofdu, til Safnadaña Stærdar, er þeir voru yfir skipader, og nockurs konar Forgaangs Rettar, eñ ei Yfirdrottnunar þeirra a millum. Nu sem Safnaderner fiolgudu a añare og þridiu Old, Oc Mindugleike og Alit þeirra, sem setter voru yfir Søfnudena i þeim Foolkrijku Stødum; Hvad Grundvollur sijnest vered hafa til þeirra fiogra ellstu og yppurstu Byskupa-Stoola, er voru i Rom, Antiochia, Alexandria og Jerusalem, hverra Formenn sijdañ kolludust Patriarchar. (*) Um þetta Tijma-Skeid wt-

(*) Vegna þeirra þvingu Offookna toosku

breiddest Christeleg Trw, um þau hellstu Rijke i þremur Alfum Heimsins.

3. Hverier voru þeir Nafnkuñugustu Lære-Fedur, sem epter Postulaña Daga framfilgdu C. Hristnebodenu?

Af þeim morgum, hverra Rit flestoll eru under Lok liden, eda ofsei sierdeiles Nytsamleg, get eg einasta þessara: A hiñe FYRSTU Olld var 1. Clemens Biskup i Rom, hvers fyrra Bref til Chorintios Lærder Meñ halda honum eignande, enn hid sijdara ecke. 2. Ignatius, Biskup i Antiochia, Postulaña Lærisveiñ, hverium, epter Keisarans Trajani Skipun, var Ar ℞ 107. eda þarum Bil, varpad fyrer Villu-

Diir,

Meñ fyrir sig Einsetur og ad flacka um i Eydemorkum, og var slijkra Forijnge eiña fyrst Paall fra Thebe. Antonius hiet sa, er fyrstur sette Munklijfe, og var Roin sro fyrsta Borg, hvar Klausur var sett. Melania, ein Gøfug Kona i Ro u og miøg rijk, var sw er sette fyrst Nuñu Klaustur i Jorselum; og skiede þetta øndverdlegä a þrirre Fiordu Old.

dijr, og hañ af þeim i hel rifeñ. 3. Polycarpus, Foringe Safnadarens i Smyrna, nierum i 70. Ar, og var af Lijfe tekeñ vegna Vidurkeñingar Christelegs Lærdoms Arid 167. A hiñe ANNARi Olld, auk ædur nefndra, lifdu þeir Irenæus, Biskup i Lugdunum, Clemens frá Alexandria og Tertullianus, sem er hinn ellste, er ritad hefur á Latinska Tungu Heilög Fræde. A hiñe ÞRIDIU Old: 1. Origenes, sem saman skrifade Utlegging yfer Heilaga Ritning, er allvijda hefur viked frá Ordañá eigenlegre Meiningu. 2. Cyprianus, Biskup i Carthago, eirn hiñ merkelegaste Biskup á þessare Olld, sem Hals-hoggveñ var þañ 14. Sept. 258. og 3. Gregorius Biskup i Nyu-Cæsarea, hver ed vegna Krapta Verka, er hönum til-leggäst, almennelega nefnist Thaumaturgus.

4. Hvad var þad, sem eiñamest hindrade Utbreidslu Christelegrar Truar?

Fyrst kuña Meñ ad nockru leite nefna her

til þær Þungu Orsökur, Christnir urdu fyrir, þar mikell Fiolde af þeim mistu Lijfid, Frid og Frelse; eñ allmargir þar a moot mottu eigid Gagn og Jardneska Fullsælu framar eñ þann Lærdom, sem Mañe holdlega siñudum rijs Hugur vid. Þo synist eñ meire Hindrun hafe Christnibodinu gjört þær Alygar, Hatur og Ofrægdar Untal, Christner urdu fyrir, af sijnum Ovinum, sem sau, ad ef Christeñ Trw fengi Yferhönd, mundi under lok lijda Atrwnadr, sem spiltu Natturufari var margra Hluta vegna giedfelldur, og þessa Lijfs Hegom Hætte og Hagsældum þiena syndist. (*) Eñ mestu Hindran Guds Kirku Efling-

(*) Þetta synest ei hin minsta Orsök til þess, hvar fyrir Romveriar stoodu so moot Christne bodenu, þar þeir þo lidu annarleg Trwar brögd Grisk, Egyptska og aħara Pioda; Christner vissu ei ad seigia nema af einum Veige, og þo þrauggum, til Sæluhialpar: eñ Heidingar þar a moot blootudu margar Vætter, og þær Götur, er leida skilldu til Farsældar, voru

ingar kinnu aalijtast orsakad hafa þær skadlegu og mørgu Villur, er þeir utbreiddu, sem hofnudu opinberum Blootum, enn ad Orde kvednu til betre Trwar sneruſt, og helldu vid ein og önur Hindurvitni og rangar Meingar, þeir i ondverdu numid høfdu aaadhvert af Gydingum, þeim Offoknur um Krossens Christi, eda Heidingium. Þessar Villur voru, sem strax var sagt, skadlegar, þvi þær stefndu til þess ad kollkasta Grundvelle vorrar Trwar og Saaluhiaalpar; þær voru og margar, þvi þared Meiningar þeirra, er vier hier kollum Villumeñ, eñ sig kolludu Gnosticos (*) voru

so margar og margbreittar i þeirra Augum, sem hvarslande Hugbod, vidtekeñ Hattur, og Sierþootti þeim aavijsad hafde.

Ad Gnostici hafe vered viss Flockur Villumaña, sem sumir segia uppkomid hafe aa þeirre AñareOld, er ei viist; Sax Halærde Mosheim er heldur aa þeirre Meiningu, ad þessu Viisenda Nafne hafe sig kallad allir þeir, sem aa þeim sirstu Oldum hafa viliad laga og ut-

voru si'n i mille Oliikar, einkum hvad snerter þaa Ædstu Veru, þær ymislegar Verur, sem af here skilldu h fa framflotsed, Um Englaña Naatturu, Yfferraad og Verkaner i Heiminum, uñ Saalu Mañaña, uñ lijkamlegra Hluta Eiginlegleika, Uppruna hins illa, og fleira þessleyns; þaa er audraded, ad epter þvi sem iñgroonar Meiningar og Otamid Hugbod var margslags og Ostodugt, so muni þeim Trwarsbrogdum aliika hafa farid, og þeim fanyta og Oliika Grundvelle, þau voru ysferbygd.

5. Hverier voru þeir, sem hellstar Villur utbreiddu aa þessum Tijma?

Eckeeinasta þeir, hverra geted verdur af Postulum DRottens og motstoodu þeirra Keñingum (*) helldur þesser, auk margra aññara

stira Christeñ Lærdom epter þeirra heidnu Heims Spekinga Meiningum.

(*) Slijker voru Nicolaitæ. (Opiñb. B. 2.) Simon, hiñ Samverske, Galdra Madur.

n̄arra sem helst eru Nafnkender: A hiñe FIRSTU OLD lisde Menander, Læresvein̄ og Landsmadur Simonar Galdra Manns; Cerinthus, sem neitade Christi Guddoome, og mote hverium Meñ halda Johañes hafe skrifad sitt Gudspiall; og Ebion, sem ætlikade, ad Kyrkiu Sider þess gamla Testamentes ætti vid haldast. A hiñe ANNARI OLD, Saturninus, Basilides og Carpocrates, er sijnar Villur utbreiddu hvad helst um̄ Egyptaland og Syrland; hveria ad Hugvite og Skarpleika sijnest yfer hafa geingid Valentinus, er smijdade sier eitt nijtt Lærdoms Form, veliande vissar Meiningar wr Frædum Platonis, Pythagoræ og añara Heidingia og Villumaña, so hann þvi, sem honum hendta þookti, gæte med

eitt-

(P. G. B. 2.) Hermogenes og Phygellus (2. Tim. 1.) Hymenæus og Philetus (2 Tim. 2.) Alexander (1. Tim. 1.) og Diotrephes (3. Joh. v. 9. 10.)

einhveriu moote saman komid vid Lærdom christina Maña; Af hveriu hanns Samfalle spuñust margar Villur og Flock-Drætter. A þeirre ÞRIDIU ÖLD voru Sabelliani og Samosateniani, so-keides nefndir epter siinum Foringium, er neitudu Christi Guddome; Manichæi, er sögdu tvø Upphof allra Hluta, gott og illt, med ødrum þar af fliotande Villum. Medal þeirra skadleguſtu Christneñar Ovina maa reiknaſt ſaa heidni Spekingur Ammonius Saccas, sem halldeñ er Foringe eda jafnvel Hofundur þeirrar nijare Platoniſku Heims-Speke; Hañ ſkarpur af Natturu og miøg kindugur hagade ſo ſiinum Lærdomum, ad morgum, sem gruñhyggnir voru, ſynduſt þeir ei langt viika fra þvi christner kenndu, enda gaf hañ bæde þeſſum og ødrum Flockum nockud epter, ſo hann kyñe þann Medal Veg hitta i Lærdoominum, er fæſtum være miøg mootfalleñ. Christner þeſs vegna, og þeir voru ei faaer, giørdu ſtoorann Skada Guds

Kyrkiu

Kyrkiu, sem filgdu Lærdooms Hætte Ammonii; Margar Trwarinnar Greiner, i sialfum sier lioosar og Kilianlegar, urdu, epter þad þær voru Jklæddar Lorfum Ordsnilldar mannlegrar Vitsku, sialfum sier nærsta Olijkar, hvar af spruttu rangar Meiningar, hiegoomleg Vidhofn i Guds Pioonustu og all margra Frafall fra þeim Einfalldleika sem er i Christo, til þvilijks Trwarbragda Samblands, sem er af þessa Heims Anda, enn ecke Guds. (1. Pist. Cor. 2. 12.)

6. Hverium bloodugum Offooknum mætte einkanlega Christi Sofnudur um þessar Munder?

Auk þeirra hann mætte af Gydingum (hvar um talad verdur i Postulanna Giordninga Book) sætte hann þyngstu Offooknum af heidnum Mounum, einkum Roomverium, sem þa voru og viidlendaster; teliast almennelega Tiju (*) Hofud Offookner, er nockrer af þeim Roomverstu

(*) Eg helld ad sönu vid þa vidteknu Tolu

verſku Keisurum lietu yfir þá christnu ganga, nálega optast um alt sitt Velde, auk margra añara, þeir lijda mættu i vissum Hierodum og Storstodum. Su fyrsta Ofsokn skede under Nerone, á 63.

Are

Hofud-Ofsooknanna, enn ad þær allar sieu Keisurunum eignande efast eg um: þvi Tertullianus (sem lifde á 2. og 3. Old) tekur á þañ Hatt til Orda i sinu Forsvars-Skrife Cap. 5. „ Nefnid mier einhvern (segir hañ) af Keisurunum fra þvi Domitianus var drepiñ (sem skede Ared 95.) til þess nu, sem Ofsokt hafe Christna Meñ ? "og nockru sidar seigir hañ: " Einginn Hadrianus, eingiñ Vespatianus, eingiñ Pius, eingiñ Verus hefur ofsokt christna Meñ." Po er ei hiermed neitad, ad christner hafe lidid margfaldar Ofsoknir af Lands-Hofdingum Romveria, þo á Skipunar Keisarañа sem lifdu á añari Old:- Og var med þessu Moote (auk margra añara) Simon Cleophas Son, Ættinge Christi, sem i heil 40. Ar hafde Biskup verid i Jerusalem, epter Jacob Postula, Lujs-latiñ, þa hañ var 20. Ara gamall, fyrir Tilstille Attici, Landstioornara á Sirlande.

Are epter Christi Fæding, eñ h'n siidarsta og þyngsta under Keisurunum Diocletiano og Maximiano, sem byrade um̃ Ared 303. og varade h:r um̃ 9. Ar.

Sw Adferd almennelega brwkud var, til ad kwga hina christnu, ad nijdast a Trw siñe, var hvert=tvegga hin kyndugasta og grimasta. J fyrstu var a christna leitad mz Blydmælum og fogrum Lofunum margs=konar Ægætis og Fullsælu, ef þeir villdu ka=sta Trw siñe: Þar slijkt hreck ei, var þeim kastad i Fiötr og Fangelse; Eñ dugde þvi=lijkt eñ ecke, mattu þeir christnu sæta mestu Pijslum: Þeir voru Halshoggner, Brennimerktir, sundurtogadir og steglder, steiktir yfir Elldi, sundursagadir og limad=ir, heingdir, Beinbrotnir, Krossfestir, grijttir og til Dauda Hwdstrijktir; Þeim var kastad i Vatn, i Elld, i sjoodandi O=lui, fyrir Villudijr og Fiska, er þar kvika skilldu sundurrijfa; Og eckert var nælega þeim þad Pijslarfæri og Kvala=Kyn spar=ad, er Grimdarfullt Hyggiu-Vit, og af

Helviiti upptendrad Aedi gat uppa fundid og ifrañi hast. Ut af slijkum Kvalanna Ofni utgeck eingu ad siidur Lof-Sogn og Gledinnar Saungur; Og Gud, eptir sijnu Fyrirheiti, fiolgadi sijna Dyrkendur, enn minkadi ecki, hann giordij þar heidarlegri enn ei minni, hann frelsadi þeirra Saalir wt af Svikrædinu og Ofrijkinu, og þeirra Blood var dijrmætt halldid fyrir honum, Jer. 30. Ps. 72. O, hversu undarlegir eru Vegir DRottinns! og hañs Handleidsla, sem frelsar, addaanleg!

7. Nu þar Ofsookner og Villu Meñ stoodu so fast moote Christnebodenu, og Utbreidslu Christi Safnadar; hver var þa hellsta Ordsok til þess, ad Guds Rijke wtbreiddest nalega uñ mestañ Part Heimsins a ecke leingre Tijma?

1.) Guds Almætte og addaanlega Raadstofun, er hann sijnde þar i, ad hann, fyrir Embætte audvirdelegra Manna, nidurbraut, fyrir Ordsins Kraft, allar þær Hyndraner, Diofulleñ og hanns Utsendarar, Villu-Menn og Tyrannar, settu

gegn

gegn Guds Rijkes Utbreidslu. 2) Þeirra Christnu, einkum ai þeim fyrstu Tijmum, stok Gudrækne og Raadvendne, Afneitan sialfs sijns og veralldlegs Munadar, einnig þeirra velflestra yfirnatturleg Stadfeste i Trwarinnar Vidurkienningu midt i grimmustu Ofsooknum og sialfum Daudanum, er þeir Guds vegna glader lidu; Hvad ei kunne annars, enn sijna þann Yfervættes Guds Kraft, sem i Breiskum er mattugur, og under eins uppvekia Forundran hia hinum, er vissu til slijks. 3.) Kraftaverk þau, er giordust fyrir Hendur Postulanna, og yfirnatturlegar Gaafur (so sem ad tala framande Tungumaal ann mannlegrar Undervijsunar, vekia upp fraa daudum, lækna med Ordum, v. s. fr.); sem þeim af heilogum Anda voru veittar, hveriar og þeir, fyrir Handanna Uppaalegging, kunnu aftur odrum meddeila.

8. Hvad kunnum vier af ǫdru teldu draga oss til Hugleidingar?

1.) Ad Guds Myskun er Owtseigianlega stoor, sem Heidingiana, er ann Guds voru i Heiminum, kallad hefur til sinnar Nadar og eilijfrar Saaluhiaalpar.

2) Ad Guds Kyrkiu, i Til-lite til heñar Vidgangs og Aukningar, maa samlijkia vid þvilijkt i fyrstu lijted Sæde, er: odrum Alldinum verdr stærra (Matt. 13.)

3) Ad Evangelium er Kraftur Guds, sem hiaalplega giorir alla þaa, sem þar aa trwa, af þvi ad þar Openberast iñe það Riettlæte, sem fyrir Gude duger, hvert ed kiemur wt af Trwnne, til Trwariñar Eblingar og Auglijsingar. Rom. 1. 16. 17

4.) Ad Guds Almættes- og Vijsdooms-fulla Stioorn liet sig hvad hellst i lioose i þeim bloodugu Offsooknum, sinne Kyrkiu til Vardveitslu, til Fulltijnges og Aukningar. 5.) Hvad af Gude er fædt, yfirvinnur Heimenn, og það er hin sanna Trw, sem Heimenn sigrar (1. Joh. 5.) hvad, medal annars, af Pijslarvottaña Lijfs Framgange og Endalykt nooglega hefur aasannast.

# Annar Capituli.

## Um̃ Tilstand christelegrar Kyrkiu, fra̅ þer um̃ Byriun þeirrar fiordu Aldar til þinnar sioundu.

9. Skiede nockur merkeleg Umbreiting a vtvortis Asigkomulage Guds Safnadar ondverdlega a þeirre fiordu Old?

Ja, þegar Keisarinn Constantin hinn Mikle, var setstur ad Rykium (efter þad hann i Herfør sinne moot Mootstødumanne sijnum Maxentio hafde sied a Himnum Krossmark, med Yfirskrift þeirrar Meiningar, ad fyrir þess Fulltijnge, er þad þyddi, munde hann faa Sigur) sneriſt hann algiørlega til christelegrar Truar; Sijdann hindrade hann ei einasta Offoofnernar og kallade til baka i sitt Rijke þa christnu Utlaga, helldur gaf vt margar Rettarbætur, Christendoomenum til Eflingar, nidurbraut Hof og Hørga, enn biggde upp Kyrkiur og Skoola og lagde miked

Fe til, so fyrir hanns Framkvæmd wtrymdest heidenn Atrwnadur allvijda i hanns Rijkium, enn Christi Sofnudur naut almennelegs Fridar og Forsvars, eldest einnig og wtbreiddest under hanns Rijkes Stiorn og hanns Efterkomara, sem vid hreinann Lærdoom helldu. Sat hann fyrst i Rooma-Borg, enn þar heñar Innbyggendur voru miøg fäster fyrir, ad hafna Blootum og heidinglegre Villu, þaa flutte hann sig fraa Room til Bizantium, hvern Stad hann eldde sijdann og kallade efter sijnu Nafne Constantinopolis, er vier kollum Miklagard, og var sw Borg innvijgd Areð 330. til Keisaralegs Adsetuis Stadar. Hañ skipte Rijkium sijnum i wiss Herradæme, Filke og Sijslur, og efter þvi ad nockru leite þar logud sw andlega Stioorn, so sijdann, efter ymsre Stærd Safnadanna, h'etu þeirra Forstioorar annadhvert Patriarchar, Erkebiskupar, Lijd-Biskupar og Oldungar, under hverra Yfirraadum og

Tilsioon voru hinar lægre Stietter, so sem Erke-Diaknar, Diaknar, Sub-Diaknar, Barna Frædarar, Dyra-Verder Acoluti, etc.

10. Hvijlikt var Tilstand Lærdomsens og Sidaña i Christelegre Kyrkiu a þessum 300. Arum?

Etiid fundust þeir, sem vidur kendu þañ saña Evangelii Lærdoom, jafnvel þoo honum mootstaded eda bríalad være af ymsum Villu Mönnum: Enn epter þad christnir hofdu fengid almeñañ Frid, og voru komnir til Metorda og Velstands, foor hia allmorgum hnignande hin gamla Einfeldne i Lærdoomsins Framburde, sannur Guds Otte og gooder Sider; Metorda Gyrnd þar a mote medal Safnadaña Forstioora, Yfer læte og margskonar Nijungar iñsmeigdu sier hvad epter annad i opinbera Guds Pioonustugiord, og þetta Illgrese spillte þess framar Guds Akre og utbreidde sig, þvi leingra sem leid fra þeim Tijma, Ovinurenn hafde sad þvi. J þeirre

utvortes Vidhøfn, sem brukud var í opin-berre Guds Pionustugiörd var samt nock-ur Mismunur medal Safnadanna, ept-er þvi sem þeirra Forstødu Menn voru lynder til, einnig efter þvi, sem Tijmaña og Stadanna Asigkomulag wtheimte. A þeirre fiordu Old voru visser Føstu-Tijmar tilsetter, enn a fimtu Old var fluttur til baka Joola-Dagureñ fra 6. Jan. til 25. Decembris, þaa voru af-teknar þær gömlu Kiærleiks Maaltijder, og þaa veitte Leo Paafe, sem kallast hinn Mikle, stoor-Syndurum Leife heimuglega ad skriftast fyrir sijnum Preste, hvad aadur skiede opinberlega fyrir Sofnuden-um. Þeim sem skijrder voru, var laated Salt i Munniñ, og voru þeir sijdann 7. Daga i Hvijta-Vodum. Ei einasta Joola Nootten, Bodunar og Hreinsunar Haa-tijder Mariu og Jons Messa, helldur og aa 5. og 6. Old, Ar-Tijder helgra Manna voru haldnar heilagar. Nu var Munk-lijfum fiolgad, og Lærdoom-

urinn,

urenn, sem stood i Blooma; medann Constantin Mikle og Syner hanns lifdu, sneriſt efter þeirra Daga i Hiaatrw og optsinnis hneixlanlegar Prꝏttanir; hvar til sꝏ mikle Fiolde Olꝏrdra Klaustra Manna ei lijtid hiaalpade. (*) Þad er og eingen Soome þessum Tijmum, ad þeim til



(*) Hardlijfe, og ad yfirgiefa alla veralldlega Umsijslan, meintu Menn a þessum Tijmum vissasta Veg til Paradijsar, og hier af hafa sinn Uppruna þær morgu og, a sijdare Tijmum, margfoldudu Munka-Stietter. Slijka Stiett sette fyrstur Antonius, Ared 305. sem wtbreiddest fyrst umm Egyptaland, sijdann Syr-Land, Gydinga-Land og vijdar annarstadar; Enn særdeꝫ i þꝏ vestlægu Kyrkiu fyrir Tilstille Marteins Biskups Turonensis. Þar epter a hinne 5. Old fyrir-settu vissar Lijfs Reglur Munkunum Augustinus, Basilius og fleyre, epter hveriun Formꝏnnum þessar Stietter nefndu sig. A þeirre 6. Old jooku þenann Klaustra Foolks Grwa Congallus Enske, Columbas Irski og hinn helge Benedict, hvers Reglum filgde nær Ollulegur Skare Reglu-bundenna Manna i þierre Romversku

til einkast so kalladar piæ fraudes, (*) edur Svik, er styrkia skylldu Trwarbrogden, og voru tiidkanleg leinge framm efter Oldunum; Enn siidur er sæmande far Akafe, med Sverde, Elde, Fangelse eda Utlegd ad Offækia þaa, er ranngar Meiningar siinduft hafa um Gud og Gudlega Hlute; Þar hid fyrra var Naudsynialaust og getur ei saman att vid Gudhrædslunnar Sannleika; og hid siidara er vid Evangelii Hoogværdar Anda.

II.

Kyrkiu.

(*) Hyngad lyta ymisleg Rit og Bækur, sem a fyrre og siidare Tiimum uppdigtadar, ranglega eignast nu vissum Spaakonum i fornum Sid, sem nefnast Sybillæ, nu Lærefveinum DRottens, edur þeirra Tilheyrendum, so sem eru Postulanna Canones og Statutur, sem Clemens Romaborgar Biskup skyllde hafa samannteked, etc. Hijngad heyrer og Slægd og Veide Brellur þeirra, hverium til Abata og Frama horfde ad kveykia og næra ymsa Hiaatrw medal Alþijdunnar; Sem færdu med sier (fraa þeim Stadum, er eitt hvad Heilagleikans Agiæte

11. Hverier voru hellstu Yfirbodarar þeirrar synelegu Kyrkiu um þessar Munder?

Sw ypparsta Makt var hiaa Keisurunum, ad þvi leite sem þeir voru Kyrkiunnar Foostur-Fedur, enn aa sijdare Tijmum vildu þaa andlegu Stiorn under sig draga Patriarcharner i Rom, i Miklagarde, i Antiochia aa Syrlande, i Alexandria aa Egyptalande og sva i Jerusalem; So Guds Sofnudur, i Tillite til þessara Hofud Fedra, kalladez af sumum Qvinivertex, edur Fimm-Hofdadur. Þo deilldu hellst um þau ædstu Metord Roma-Borgar og Miklagards Biskupar, og hefur ei ad fullu, eda til leingdar, um heillt groo:d þeirra aa mille.



ødrum framar meinkust hafa), so kallada Helga Dooma; Sem bookstuft med Særinganna hamlad geta Asookuum illra Anda; Sem smidudu ymsar Fraasagner um margskonar Wissn og Undur, er styrkia skyllde þær Hiegvliur, þess haattar Monnum var um gefed ad utbreida.

12. Upptel mier nockra af þeim helistu Lære-Fedrum!

A þeirre FIORDU Old listu 1.) Athanasius Biskup i Alexandria, er vaskelega strijdde fyrer þann hreina Lærdoom, og mætte þess vegna þola Utlegd og þwngar Ofsookner, af þeim, er helldu med Arii Lærdoome. 2. Evsebius, Biskup i Cæsarea, nafnkiendur Sagna Skrifare. 3. Hieronymus, Haalærdur Madur, wtlagde a Latinu Bækur H. Ritningar. 4. Aurelius Augustinus, Biskup i Hypponeso i Africa, er deyde 305. Johannes, vegna sinnar Ordgnoottar og Mælsnylle kalladur Chryfoftomus (Gull-Munnur) var Biskup i Mikiagarde; Hann mætte stoorum Ofsooknum og deyde 407. 6. Basilius Magnus, Biskup i Cæsarea og hanns Brooder Gregorius, Biskup i Nyssa, Item: Ambrosius Biskup i Maylande. A þeirre FIMTU OLD, 1. Cyrillus Biskup i Alexandria, 2. Arnobius hinn yngre, 3. Severus

Sulpitius. A hinne JESU AO, Gregorius hinn I. þess Nafns Biskup i Rom, kalladr hinn Mikle: þa var og uppe, sa fræge Rijm-Meistare Dionysius, hinn Litle, Aboote i Rom, ættadur wr Sölkiood hinne koldu, er leidde Ars-Tal christenna Manna fra Christi Fæding, og deyde 540.

13. Skede eñ framar nockur merkeleg Umbreiting i þvi Romverska Einvaldsdæme, sem ællitast kañ nockurskonar Underroot til þeirra Biltinga og Offokna, sijdar uppkomu i christelegre Korkiu?

Ad visu: þeir Bræðr Gratianus og Valentinianus Keisarar toku sier til Medhialpar i Rijkes Stioorneñe, Theodosium, sm vegna sins Mañdoms og ægætrar Framkvæmdar kallast hiñ Mikle; Ad þeim Bræðrum daudum vard hañ Allsheriar Keisare þess Roomverska Velldes, og epter 16. Ara Rikes Stioorn deyde hañ Arid 365. Hañ ætte sier tvo Sonu, het hiñ elldri Arcadius, eñ hiñ yngre Honorius. Milli hverra skipt var Keisaradæmenu.

feck Honorius þau Rijke, er lau til Vesturs fra Miklagarde, nefnelega: Italiam, Hispaniam, Galliam, einig Brettland, Þydskaland, Ungaren, og þau Rijke Sudurælfunnar, sem liggia næst Midjardar Sioonum: En Arcadius feck þad Austlæga Keisaradæme, hveriu ad tilheirde: (1) J Austuralfunne, su litla Asia, sem nu um Stunder kallast Natolia, Turcomannia, sem firrum het Armenia Major, Diarbeker, Arabia, Syrland og Gydingaland. (2) J Sudur Alfunë, Egyptaland og Lybia, sem nu kallast Barcan (3). J Nordur Alfunë þau Land-Plats, sem liggia vid Fliooted Donau allt til Belgrad, og heila Grickland. Þad Austlæga Keisaradæme varade til 1453. þa Mahomet annar intook Miklagard. Enn þad Vestlæga Keisaradæme varade miklu skiemur, nefnelega: Til Arsens 486. þegar Romulus Momyllus, sem vegna þess hañ var lijtill Verte kallast augustulus, var gior Landflootta af Odoacer, Konge þeir-

ra Herulorum, er hafde sitt Aðsetr i Ravena. Þesser Heruli meinast Þiodsk Foolk er i ondverdu biuggu i Grend vid Eystra Salt. Brutu undir sig um þesser Mundert yms Rijke þess Vestlæga Keisaradæmis Herkongar þeir, sem komu ur þeim Nordlægu Londum, af hverium flester, ef ei aller, filgdu Arir Villu. Gautar, edur Gothi, intooku Spania Land og Part af Gallia, enn hinn Parten brutu under sig Frænkis Menn, ur Þijska Lande komnir, hvar af Landed kallast sidan Frackland edr Franka-Rijki. Genserik Vinda Kongur upprette nijtt Rijke i Africa Arid 455. og rijktu þar hans Efterkomendur til Arsins 533. þegar Belisarius, Keisarans Iustiniani Hers Hofdinge, vann þad og lagde under Keisaradæmed. Vestur-Gautar intooku Part af Gallia og Hispania Arid 411. Austur Gautar ráku Herulos burtu ur Italia Arid 493. og var þeirra firste Kongur Þidrek [Theodoricus] er hafde sitt Adsetur i Verona. Þe-

lrra sidaste Kongur Tejus miste Lijfed i Peirre Orustu, er hann atte vid Narses, einn Persiskan Gelding; sem var Hers-Hofdinge þess Griska Keisara Iustiniani ens I. Arid 553. Eñ þared Narses þooktist ei fa makleg Maalagiold fyrer so frægañ Sigur, er hann hafde unnid Keisaranum, giørde hañ Uppreist moot honum, og kallade iñ i Italiam ur Peim Nordlægu Rikum þa so kallada Langbarda [Longobardos]* sem iñtoku Nyrdra Hlut Tallands, sem nu kallast Lombardie, og rijktu þar leinge sidañ. Yfer Rom og Sudur Parten af Italia settu Peir Grisku Keisarar Jarla, er skilldu halda Rijkenu under þa, hvad ed vidheldst i 184. Ar,

uns

(*) Pessir Langbardar voru um flackande Foolk komed fraa Jotlande, Holsetylande og vijdar añarstadar, foru fyrst til Gautlands, sijdañ til Re, hvar þeir skilldu Skip sijn epter; þar epter foru þeir Land-Veg og lendtu loksens Italia; hvar þeir, eiñig ut a Pul, sezu Kr. ot. v. Annal. Visby. min. ad ann. 686

unns Aistolfur Langbarda Kongur, Ared 752. inntook Stadenn Ravēna, og tok i burt þañ sijdarsta Jarl edur Landstioornara Evtychum. Þeirra sijdaste Kongr het Desiderius, sem var yfer uñeñ af Karli Mikla (sem annars kallast Karle-Magnus) Fracka Konge, og færdur til Fracklands, epter þad, ad þad Longobardiska Rijke hafde staded i 206. Ar. Eignadest þa Paafenn (*) i Room þad Riike er þeir Grisku Jarlar voru yfer setter, ad Giof Pipins Kongs og Sonar hanns Carls; hvar i moot Paafenn gaf Keisara Nafnboot Carle Kongi.

14. Hveriar Villur hindrudu hvad helst um þetta Tijma Skeid Utbreidslu Christelegrar Trwar?

A

(*) Pafa-edur Fødur-Nafnid var i øndverdu almeñelega til-lagt Safnadaña Forstødu Møñum, eñ þeim Romverska Biskupe Gregorio þeim Siøunda var þad, sem sierlegt Wirdingar Nafn, i fyrstu gefed, hvad og filgt hefur sijdañ hañs Epterkomendum.

AFJODRDU OLD, Villu-Lærdoomur Arii, er neitade þvi Sonurinn være samrar Veru og Faderenn. Þesse Villa utbreiddest miog vida bæde i þeirre Griksu og Romversku Kyrkiu; og kom af Stad stærstu Offoknum, er gengu yfer þá retta Trw hofdu, einkum yfer hennar hellstu Forsvarsmeñ, sem var Athanasius og Osius Biskup i Corduba. 2. Photini, er neitade Christi Guddoome, og ad hann være Guddonmleg Persona.

AFIMTU OLD, 1. Pelagii (sem var Enskur ad Ætt og het Morgan rettu Nafne, sem þyder; Sioomann), er neitade Uppruna-Syndenne, og sagde Menn kiñu uppfylla Logmaalid af eigern Kroptum. 2. Nestorii, sem var Biskup i Miklagarde, enn sijdann af settur: hañ afliktade ad tvær Personur være i Christo, i stadiñ fyrer tvær Natturur, og ad hñs Mooder Maria mætte ei Guds Mooder kallast (*) 3. Lucidi, er meinte Gud Fortakslauz utvelde

(*) Marger meina, ad Nestorius munde ei ha-

de suma til Eilijfs Lijfs, og æ sama Hætt adra til Eilijfra Kvala. A SJÖTTU ÖLD Villa Evtychis, er Biskup var i Stadnum Sirmio i Illyria Landi, hann vilde til baka reka Nestorium, enn fiell i adra Villu, neitande Adgreining Náttúrañá i Christo.

15. Hvadvar hid tijdkavlegasta Medali Christniñe, ad koma i Veg fyrer þessar Villur?

Um þessa Tijma settu Keisararner Allsheriar Biskupa Þijng og viss Öldunga Moot, æ hveriuum skera skillde ur þeim Þrætum, sem uppkomu Lærdoome Kyrkiu Sidum og heñar Stiooru vid vijkiande. Hid fyrsta þess hættar, epter Postulaña Daga, var þad, Constantin hinn Mikli

sette

sa talin ordet med Villumönum; ef han hefde betur adgiætt hvad Náttura og Persoona sieu, og med meire Lenipne hefde proofad ved hans Mælesne; Eñ hvad uñ þad, hañ veik hañ fra Ordaña vidtekiñi Þijding, og med Samlijkingum, dregnum af Mañsins Náttúrufare, vilde útskijra þañ Leyndardoom, sem

sette Áred 325. i Borgeñe Nicea Bithyniæ sem liggur i litlu Asia, hvar Arii Villa var fordæmd. Þar af kom þad, ad Osius Biskup, sem var Formadur þessarar Samkomu, og Athanasius, saman tooku Trwarjatningunna, sem sijdar var stadfest aa þvi Oldunga Moote, sem under Theodosio Mikla halded var i Miklagarde 381. sem reiknaz almeñelega hid Añad Allsheriar Þijng. Alijkañ Haatt sette hid þridia Biskupa Þijng Theodosius Yngre, Miklagards Keisare, þad Ar 431. i Borgenne Epheso, til ad fordæma Villu Nestorii: Hid fiorda slijkt sette Marcianus Keisare, arred 451. i Calcedone moote Villu Evtychis. Þad sem ælykt-

ad

Ogrlpañlegur er Mañlegre Skinseme. Enginn af hañs Lærersveinum hefur framar utbreitt hañs Keñingar enn Barsumas fraa Nisbe, er utvegade hiaa Pherosi Persa Kongi, ad ugt Hæle heim er Nestorii Lærdoom filgdu, so þeir jafnvel til þessa Dags eru i Seleucia og Ctesiphonte, og hafa þar siñ Patriarcha.

ad hefur vered a þessum fioorum ædur tied um Biskupa Þijngum, Lærdoome Trwarinnar vidviskiande, er, sem vijs Regla og heilagre Ritningu samhlioda, vid teked almennelega i Christneñe, eirnin af þeim, sem brotez hafa undan Páfans Oke. (*) A efterkomande Oldum vard þad sijdan all tijdt ad hallda slijkar Samkomur, sem skialdan giordu minne Skada enn Boot i Christnenne.

16. Hverier voru um̃ þetta Skeid helstu Ofsooknarar Guds Safnada ?

A þeirre FIORDU OLD Iulianus er ætte Elemi, Doottur Constantins Keisara, hins Mikla. Hann var ad sonnu uppfræddur i þeirre christelegu Trw, enn þar hann lagde sig mi og epter veralldlegum Vijsdoome, þa er Meining Manna, ad þeir heidnu Spekingar, er kendu og numu Booklegar Menter i Athenu Borg, med hverium

(*) Um̃ þetta Skeid telduft þeir almeñelega i Flocke þeirra Riett-trwuðu, sem medtooku (so kallada) Postulaña og Athanasii Trwar. Jatning.

ſum hann um̃geckſt, hafe lockad hann fra riettre Trw: Þvi þa hann vard Keiſare, kaſtade hann ei einaſta Trw-ſiñe, helldur ma allijtaſt hinn Þyngſte og ſkadlegaſte Ovinur heñar. Elldre-Dæme ſijndu honum, hverſu þrongt þad veitte þeim hinum fyrre heidnu Keiſurum med Piiſlum og Mann-Drapum, ad uppræta Chriſteñdoomenn, og þvi brwkade hann adra Medferd: Hañ kallade til baka þa i Utlegd reknu Biſkupa, til ad kveikia innbyrdes Oeining medal þeirra chriſtnu: Hann ſvipte þa Virdingum, Embættum og Eignum, ſo þeir yrdu audvyrdeleger i Augum Heidingaña, er hann ſette til ædſtu Vallda og hafde ſier handgengna; Sialfur blootade hann Skwr-God og offrade, eñ þa Chriſtner kvortudu yfir þvi Ofrijke og Femiſſu, þeir lijda mattu, ſvarade hann þeim med þeſſum Chriſti Ordum: Sæler eru fatæker. Hann var Gydingunum miog hlidhollur, og til ad hneckia Ritningarinnar Sannleika, leifde hann þeim ei einaſta, helldur

og veitte þeim mikenn Abla til ad uppbiggia Jerusalems Mustere, i sama Stad þad ædur hafde staded: Enn fyrir Guds Tilstille, sem ei lætur ad sier hæda, hindradest þetta Asform, med þvi þar kom upp wr Grundvellenum Elldur, er fortærde Byggingunne sialfre, og morgum þeim, er ad þvi Verke stoodu; hvad medkenna hlioota Viner Juliani, og Christninnar Oviner, sa heidne Sagna Skrifari Ammianus Marcellinus og Gydingurinn Rabbi Gedalia. Til Lucku fyrir Guds Christne geck þesse Sky-Flooke Vonum braadara yfir, þvi Iulianus deyde aa 31. Alldurs Are, þaa hann hafde rijkt 1. Ar og 8. Maanude, enn Arenu, epter Christi Fæding, 363.

A þeirre FJMtu OLD og SJOTTU OLD Offokte Riettrwada Attila Huna Kongur, Gensericus og nockrer adrer Her-Kongar, er komu wr þeim Landsplatzum er liggia vid Austur-Siooeñ (*) og hverra

(*) Þo er vel merkiande, ad framar eru Of-

hverra adur er lijted geted, þar þeir velflest-
er filgdu Arii Lærdoome; og þad var hor-
mulegt til þess ad vita, hver su saa eine Flock-
ur Christeña Maña Ofsokte hiñ añañ, þoo
hañ være i vissum Meiningum eda Tals-
hættum hinum Olijkur. Auk þessa sættu
Christner Ofsooknum af Persa Kongum,
einkum Sapore, Isdigerde og Cosroe.

17. Hveriar Þiooder sneruſt til christelegrar Trwar aa þessum Tijma?

Constantinus hinn Mikle (hvers ædur
er geted,) lagde alla Stund aa, ad snwa sem
flestum fraa heidinglegre Villu til christe-
legrar Trwar, sem voru i hanns Velde,

og

sooknir þessar eignande Miklagards Keisur-
um og Vandala Kongum, eñ hinum Her-
Kongum, er keñdu sig vid Austur- og Vestur-
Gauta; og ei hefe eg fundid, ad Þidrik Kong-
ur hafe Ofsookt þaa, er vidurkeñdu Christe-
lega Trw: Eñ ad Christnir hafe mætt sæta
þwngum Bwsifum af Yfer ferd og Agaange
þessara Vikinga, þaa þeir intooku Rijkiñ, er
audrædeð.

og þad ann Kwgunar og Offsokna. Auk
þessa sneruſt aa hinne Fioordu Old adrar
Þiooder, er ei saau undir Keiſara Dæmid.
Georgius, ſem kallaſt Illuminator, ſneri
Armeniſkum og þeirra Konge Tiridati.
Iberi, eiñ Þiood, er liggur i Grend vid
Fiallid Caucaſum, ſnerez til chriſtelegrar
Trwar fyrir Fortolur einnar Konu, ſem
af þeim var hernumiñ. Enn hin merke-
legaſta Trwarbragdaña Umbreiting ſkede
i Morlande (Æthiopia) fyrir Fram-
kvæmd Frumentii, hvar Chriſtendoom-
urinn heſur vidhalldeſt til þeſſa. Þar
Morlendſker haſa liited Samblendne vid
adrar Þiooder, ſo meina lærder Menn
ad Kyrkiu-Sider þeirrar gømlu Kyrkiu,
hvilijker ſem þeir voru aa 3. og 4. Old,
ſieu hiaa þeim Obriaaladar; Þvi þeir hall-
da ſier fraa þvi ſem kiæſt er, og fraa Blo-
ode, hallda bæde Þvott-Daga og Sunnu-
Daga helga, og lijda ei Bilæte i ſijnum
Kyrkium og tillaata Preſtunum ad giftaſt.
Þar Frumentius þeirra fyrſte Poſtule

var sendur til þeirra frá Biskupenum i Alexandria, þá hafa þeir jafnan sijdañ leged under sama Biskups-Stool, og það sijdañ Kirkiar brutu under sig Egypta-Land. Constantius Keisare sende til Indianna einn Indverskann Mañ, er het Theophilus, er filgde Lærdoome Arii, og snere so kolludum Homeritum, sem meinast þeir gömlu Sabæi, og feck af þeirra Yfirmanne ad byggia Kyrkiur þar i Lande. A FIMTU ÖLD, snerust marger af Frænkis-Mönum til christelegrar Trwar, þegar Clodovæus Kongur þeirra kristnadest og skijrdest áred 496. fyrir Aeggian Drottningar sinnar Klothildar. Patrik og Palladius kristnudu á þessare Old mikenn Fiölda af Irskum.
A SIÖTTU ÖLD sende sá Romverske Páfe Gregorius hinn Mikle Arid 597. Augustinum Munk til Englands, sem þá var mestu heided, og adgreint i 7. smá Konga Rijke, af hveriu það stærsta var Kent. Þar rijkte þá Ethelbert,
er

er ætte sier christna Drottningu. Þesse Kongur liet sig christna og marger af hans Þegnum. Augustinus vard sijdan Erke-Biskup i Cantara Borg og deyde 607. Columbanus Irskur Munkur snere Skottum; þær sneruſt og margar Þiooder vid þad svarta Haf [Pontum Evxinum] liggiande, og Remigius kostade Kapps um ad wtbreida þa riettu Trw enn framar medal Frankis Manna. Simeon, sem kallast Stylites (*) snere og ei allfaa-



(*) Þesse Simeon var Einsetu Madur, til hvers Menn slyktust wr ymisum Stødum til, ad heyra hans Rædur: Ad hann være ei i Samblende med ødrum, stood hann i Sijsellu a einne Eikar Stittu (hvar af hann feck Vidurnefned) so Dægrum skypte, ymist med wtbreiddum Ørmum, ymist beigde hann sig hvad efter annad ad Taam nidur, og ritar Holberg (K. H. 1. P. 245. S.) ad hann tolf Hundrud fioorum og fiøretijge sinnum, hafe giørt slijkt hvad epter annad, so hans Gudrækne hafe hellst vered innefalinn i þessu Bugte. J fyrstu var hann æliten sem Vitfyrringur, so adrer Einsetumenn vildu eingen Møk vid hann

um i Arabia, lijka voru og Gydingar kwgader i sumum Stødum til Vidurkenningar christelegrar Trwar.

18. Hvad getum vier dreged oss til Lærdooms og Jhugunar af þessara Tijma Asigkomulage?

1. Af Ossooknunum siaum vier Guds Trwfeste og Myskunseme, sem ad vljsu tiptar sijn Born, enn setur þo Freistingum þeirra og Ossooknum vijst Takmark, ad þau under þryckest ei med ollu.

2. Ad naatturleg Spilling a baagt med ad þola gooda Daga; So þaa Christi Sofnudur hefur noted wtvortes Fridar

og

hafa, en lekking var han aliten af Alþijdu sem heilagur Madur, og bad ei lijtels haattar. Han deyde a sine Styttu Ared 461. Vegna slijkra og þvilijkra Ovyndes-Leata og Hiaatrwar fulls Hardlijfes hafa marger a ollum Oldum sidan vered anad hvert setter i Tolu Helgra Mana, eda miked Alit haft hiaa þeim, sem ei giora riettan Adgreining a þeirre Guds Pioonkan, sem skie a i Anda og Sanleika; fraa þeirre, sem bigd er a Bodordum Mana og wtvortes Leatæde.

og Fullsælu, hefur honum hættast vered ad falla i Andvaraleise, og þvilijkar Synder, sem Guds Hefnd hafa upp engdt, þeim til Straffs, enn ödrum til Vidvorunar.

3. Þegar Menn hafa ei Guds H. Ord fyrer þaa einustu Riettar Snuru sinnar Truar og Framferdes, þaa aka þeir Seglunum epter þess forblindada Skylnings Innblæstre, epter vidteknum Meiningum og jardneskum Hagnade: Hvad sierhvert fyrir sig er noog Tilefne til Christendoomsins Nidurdreps, og steita sig aa slijku marger, sem ei eru innann Vebanda Christelegrar Kyrkiu.

# Þridie Capitule,

## Um Tilstand christelegrar Kyrkiu fraa Byriun hinnar 7. Aldar til þess Þusund aar voru liden fraa Christi Fæding.

19. Hvijlijkt var yfir Hofud Asigkomulag Lærdoomsins aa þessum 400. Arum?

Saňre Guds Þecking foor hnignande æ meir og meir. Sijfelldar Misklijder helduſt vid medal chriſtenna. Eitt Biſkupa Þijng epter annad var halded, enn optaſt til þeſs ad forboda þann Lærdoom, er ſamþicktur var aa odru. Þau ædſtu Safnadanna Hofud offſoktu hvert annad og ſtundum bannfærdu: Lokſins viſſe Alþijda ei edur varla, hveriu og hverium trwa ſkyllde. Þeir Her-Kongar, ſem komu nordann og auſtann wr Þyſkalande og jafnvel fraa Jootlande, þegar þeir hofdu under ſig broted þau betſtu og ſtærſtu Rijke, er lægu ſunnarlega i nordur Alfunne, giordu ſier lijtel Affkypte af Booklegum Mentum, og þar marger, epter þad þeir hofdu ſett ſinn Foot i þeim ſudlægu Rijkium, tooku vid Arii Lærdoome, ſem aadur er ſagt, þaa ſættu þeir, er fylgdu þeim rettu Trwar brogdum, þwngum Bwſifium, einkum þeir ſem lifdu under Vinda Kongum. Serker [Saraceni] iñtooku Spania-Land, og fleyre Herod, og fluttu þaangad

ad med sier Mahomeds Willu, sem i þeim Löndum, er þeir hofdu under sig broted, magnadest æva og wtbreiddest. Þriu Patriarcha Sæte i þeirre austlægu Kyrkiu logdu Serker under sig. A þeirre Siöundu Old var Grundvollur lagdur til þess Romversta Biskups ædstu Yfirrada i Christnenne, hver i vissann Maata fengu þo Snecker af Framgange þeim, Serkia-Kongar hofdu. Ad filgia i Blindne Paafanna Setningum i wtvortes Guds Pionustugiord og trwa ollum þeim Hindur-Vitnum, Hiaatrwar fuller Munkar predikudu, var nu aliten af velflestum hin retta Guds Dyrkan. (*) Ad styrkia Paafans Magt, wtbreida Lær, doom þeirrar Romversku Kyrkiu, og Of-

 sækia

(*) J hveriu Alite Munkastietter hafe vered a þessum Tijmum, maa raada þar af, ad Karl Keisare, hinn Skollotte kalladur, stack Augun wt a Syne sijnum Karlomanno, þar hann vilde ecke verda Diakne. Sioa Rechenb. Hist. Eccl. in Sec. IX.

ækia þar er i moote mæltu, var, i þeirre veſtlægu Kyrkiu, haldin Þiood-Gata til Himins. Ei allfaar Nijungar innleiddꝛ uſt eirniñ um þeſſar Munder i chriſtelega Ky-kiu: Til Dæmes: A hinne SJOꝛ UNDU OLD var Meſſan i Latinu [ Officium Gregorii Magni ] ſungenn i Kyrkiunum, og þad jafnvel i þeim Stodꝛ um, hvar Menn ſkylldu ei þad Tungumaal, og var þetta Kyrkiu-Skick innleidt i Franka-Rijke a hinne nijundu Old.

Perſa Kongur Syroes gaf Heraclio, Miklagards Keiſara, Kroſs Tre, ſem vor Frelſare ſkyllde hafa a pijnſt, hvert Keiſarꝛ enn færde aptur til Jeruſalem, hvadañ þad hafde rænt vered af Perſum fyrir 14. aarꝛ um: Og var þeſs vegna aared 622. innꝛ ſett Kroſsmeſsa, ſem bar uppa 14. Septembris. A hinne ATTUNDU OLD kom a Gang Tilbeidſla Kroſsꝛ ens og Likneſkia helgra Manna, einkum Mariu Guds Moodur. A hiñe NJꝛ UNDU OLD, hoofſt ſa Sidur ad ſetꝛ

ia framlidna i Tolu helgra Manna til þess þeir opinberlega dyrdkast mættu, og seger Bellarminus, ad Leo III. Páfe hafe fyrstur flutt slijkt Embætte. A þessum Tijmum voru andlegrar Stiettar Menn hvad ákafaster ad leida i Lioos, so kallada, helga Dooma framlidenna Manna, og tilsetia vissa Daga, er skylldu helger hallda ast þeim til Dyrkunar og Aheita. (*) Þar var tilsett Michaelis-Messa, Jarnburdur, og fleyre þess slags Skijrslur, sem þo sijdar enn framar vidgenguſt. A þessar Old meina Menn sá Sidur hafe uppkomed ad taka vissa Messu-Texta wr Gud-

 spioll-

(*) A þeirre 9. Old þooktust Menn finna Helgann Doom Jacobs Postula, sem fluttur var fraa Jorsolum til Compostella i Spanien, Ared 816. og sæker þangad Fiolde Pilagrijma. Um þessar Munder er mælt, nockrer Italiensker Kaupmenn hafe nád wr Kyrkiunne i Alexandria Lijkama Gudspiallamannsins Marci, og flutt til Venedig, hvers Stadar Forsvar hann enn er sijdann álitenn.

spisllum og Pistlum. (*) A þeirre TIUNDU ÖLD var halden allrá Saalna Messa til Fulltijnges þeim, er meintust vera i Hreinsunar Eldenum; Tvær Hatijder innsettar i Minning Mariu Uppnumningar, (sem Foolk a þessum Öldum trwde) og heñar Fædingar. Hioonabanded bannad andlegrar Stiettar Moñum, ad hveriu miög filgde Dunstanus Erkebiskup i Cantara Borg a Englande. (*) Johann hiñ XIII. þess Nafns Pafe i Rom, geck undañ ødrum i þvi ad skijra Kluckur, og filgdu honum adrer i

þvi

(*) Paall Diakne Warnefrid, hvers sijdar verdur geted, meinast Hofundur til þessa, sem og skrifade Agrip af Kyrkiufedraña Predikunum Textunum svarande, og til Adgreiningar mille Textans og Utleggingaña ritade þesse Ord: Post illa, þad er; Her næst lesest Utleggingin. Og her af hallda Meñ komid Pöstillu Nafned.

(*) Þessu var þo ei allstadar strax framfilgt i Christendoomenum og vissulega laungu sijdar her i Lande, sem sijdar mun sagt verda.

þvi ſama. J ſtuttu Maale ; ad upptelia ſierhveriar Nijungar, ſem aa þeſſum Tijmum uppkomu, er of langt, og ſvarar ei mijnum Tilgaange i þeſſu Agripe.

20. Seig mier nockud af Mahomet og hans Lærdooms Framgange ?

Mahomet var fæddur, Arum epter Guds Burd 568. i þeim Stad Mecca, er liggur i þeim Parte Serklands, er kallaz hin luckulega Arabia. Hann miſte ſnemma Foreldra ſijna, og Olſt firz upp hiaa Fodur-Fodur ſijnum, þar epter hiaa Fodur Brodur ſijnum, og var brwkadur til Kaupferda, uns hann aa 25. Aldurs Are viſtadez hiaa rijkre Kaupmanns Eckiu, ſem hiet Kadiga, hverre hann ſijdar giptez. Hann var af Goſugum Ættum, enn vegna ſinnar Fatæktar komſt hann ei til þeirra Forraada, hans Lang-Fedgar hofdu haft i Mecca, hvar hann aatte heima. Af Naatturufare var hann Metordagiarn og ſlægvitur. Sumir of hanns Landsmönnum voru chriſtnir ad kalla, adrir voru

Heidnir og nockrir voru Gydingar, enn allir rænfudu i stærsta Þeckingarleisi a þeim Hlutum, er tilheyra riettskickadre Guds Kirkiu. Epter þad Mahomet, vegna sinnar Giptingar, vard Fiædur, giordest hann Rykis-giarn og vilde komaz ei til minne Metnadar, enn Fedur hanns høfdu haft i Mecca. Til ad underbwa þetta, veik hann i nockra Eydemörk, dvalde þar nockra Hrijd, og þoottest hafa Samrædur vid Engelenn Gabriel. Þa hann var fertugur ad Aldre let hann a sier heyra, hann være Postule GUDS, og a þeim fyrstu 4. Arum wtbreidde hann, þoo i Hylmingu, sinn Lærdoom, enn ad þeim lidnum, kvad hann þad upp fyrir Alþijdu, er hann geck þrongbuinn med; Samanskrifade Koran eda Alkoran (sem inneheldur Tyrkianna Lærdoom) og hiet saa Otmann er Bookina yferlas og lagfærde: þoo skrifa sumer Menn, ad Gydingur nockur Abdias ad Nafne, og Nestorianiskr Mr. ki: het Sergius, hafe genged Mahomet til handa,

i þvi

iþvi ad samantaka Alcoraniñ. Sialfur vilde hañ ei hafa Skuld fyrer, ad hañ stiptade nij Trwarbrogd, heldur ad hañ være af Gude sendur ad hreinsa þau; Enn so var stoort Þeckingarleyse hanns Lands Maña, ad særster rañsokudu hans Lærdoom; Stood þoo sumum Geigur af hañs Fyrerteketum, og risu i moot honum, hvers vegna hann vard ad slija þadañ, og settez ad i þeim Stad Yatrib, er sijdañ kallast Medina Talnabi (þad er, Spamañsens Adsetur). Flootte Mahomeds skiede Are ed 622. og fra þeim Tijma reikna Serkir sitt Artal. Þar ed i Alkoraninum fiñaz sumstadar slijker Hluter, sem eru Hiegylsiur einar, og sijñ imille gagnstæder, atte hennar Hofundur bægt med ad forsvara þad allt, og lœ vid sialft, ad hañ munde skioott missa þad Alyt, er hañ þooktest eiga skilid af sijnum Tilheyrendum; og þar honum syndest ei rædlegt ad gefa sig i Orda Kast til Forsvars sijnum Lærdoome, þa skipade hañ þeim, er tekid hofdu vid

hañs Villum', ad wtbreida þær med Her-Skilde. Hañ sosnade ad sier i firstu Sveit Her-Manna, inntook Stadenn Mecca og þar epter Arabiam (Rabita Land) og a Tijunda Are epter siñ Flotta deyde hañ 631. Hanns Epter-komare var Tengda-Fader hans Abubeker, sem, eins og Mahomet, var bæde Kongur a Serklande, og under eins ypparste Biskup eda Tilsioonar Madur þeirra Tyrkneſku Trwarbragda; og filgduſt þeſſe Embætte ad hiaa Serkia Kongum, er sig kolludu Calipha, lenge fraſñ epter, inn til þeſs þeirra Jarlar, eda Lands-Stioornarar, brutu sig til Konglegrar Tignar i þeim Londum, er þeir riedu fyrer, so Calipharnir mættu ad Lyktum nægaſt med þad ypparsta Preſts Embætte, og hosdu sitt Adsetur i Bagdad, uns Tartarar logdu under sig þau Rijke, sem voru i Austur-Alfunne. Sidan hafa þeir Tyrkneſku Keisarar og Persa Kongar fenged i Hond þad ypparſta Preſts Embætte einheerium Þeg-

na

na sinna, og kallaz sliikur Biskup medal Tyrkia Mufti, enn hinn hia Persum, Seder. Mahomets Filgiarar kölludust i fyrstu Saraceni, edur Serkir; eñ hier um 100. Arum epter Mahomets Dauda, took sig upp eitt Schytiskt Foolk, sem heitu Tyrkiar, og settu sina Bustade i Asia, i þeim Londum sem nu kallast Georgien, Turcomannia og Diarbeker, og attu Orustur vid Serke; Enn aared hierum 763. vard þad ad Saatt þeirra a millum, ad þesser Tyrkiar skildu taka vid Mahomets aatrunade og senda einn Madur fara Striid a Hendur þeim Christnu: Og þegar Stunder lidu, urdu þesser Flockar ei einasta ad einne Þiood, helldur kallast nu almennelga þeir aller Tyrkar, sem hallda vid Mahomets Villu-Lærdoom. Bæde Mahomed og hanns Epterkomarar voru miøg sigursælir: Caliph Omar lagde undir sig Syrland og Gydinga Land, og epter tvegga aara Umsaatur inntook Jerusalem aared 636. Þrem aarum siidar inn-

sooku Tyrkiar Mesopotamiam og mikinn Part af Persia, og Arid 640. Egyptaland.
Ondverdlega a beirre œttundu Old foru Serkir hingad i Nordur Alfu Heimsens, og brutu under sig Spania-Riki og yfirunnu bann sijdarsta Gauta Konung Roderik arid 713. og bañig er hvad epter annad bad Tirkneska Rijki i Austur-Sudur- og Nordur Alfunne, so bar af er uppkomid eitt hid Vüdlendasta Einvaldsdœme i Heimenum, sem i fullum Blooma stood briu Hundrud ar, enn skiptest si dann i fleyre Rijke, af hverium hin helstu eru bad Tyrkneska, bad Persiska og Rijke bess stoora Mogols.

21. Hvijlijk eru Tyrkiaña Trwabrøgd?
I faum Ordum, baa eru bau nockurskonar Samsull af Lærdoomum Gydinga og christenna Manna, uppfyllt heimskulegum Skroksögum, vidvijkande beim Opiñberunum Mahomet boktiz hafa feingid, er stirktu hanns Lærdoom og afsokudu hanns Framferde og Illsku (*) eñ ekldu

(*) So sem hañ var mieg lausleatur og hañ

hañs Rijkes og Trwar Utbreidslu. Tyrkiar trwa a einn Gud, og neita Guddoome Sonarins og Heilags Anda. Mahomed a ad vera sa Huggare, sem Christur talar um̃ i Evangelio (Joh. 14.) og sa hinn ypparste Spamadur, er hreinsa skillde Trwarbrogdenn, og asamt Gude dæma Heimiñ og endurgialda hverium epter siinum Verkum: Þeir medkeña, ad Abraham, Moses, David og Jesus hafe vered Guds Sendebodar, til ad fæ ra i Lag Trw og Sidferde Mañа, Jesus hafe giort mørg Kraftaverk, og þa Gydingar villdu Krossfesta hann, hafe Gud numid hann burt til siin wr Gydinga Hondum, sem krossfest hafe annann i hanns Stad Ovitande. (*) Alkoraninn seigia þeir sie samanskrifadur i ondverdu af

kuñe ei fordast Amæle Kveña siña, þa har hañ fyrir sig Guddoomlega Skipan eda Tilblutan, hvar fyrer hañ yrde æfa slikar og þvilijkar Odigder.

(*) Pad mætti synast Eptertekta vert, sem Mahomed talar um̃ siina Reisu i gegnum þær

af Gude, eñ Gabriel Engill, epter Guts Skipan, hafe gefed Mahomet smaamsaman Utskrift af honum, i hverre Book Tyrkium er skipad med Sverde ad wtbreida þaa Lærdooma, þar inne eru ritader. Himnarijke wtmaalaz, sem eiñ Stadur, hvar Menn kunne lifa i allra handa Bijlífe, og niota þessonar Sælgætis, Serker eru mest gefner fyrer. Umskurninni bijhalda þeir, og eru þeirra Børn almeñelega umskorinn aa fiounda edur attunda Alldurs aare. Fimta Dag Viku halda sumer heilagañ, adrer Føstudaginn; þvi þad er merkiande, ad medal Tyrkia eru margar Miskliider, Trwarbrogdum og Kirkiu-Skicke vidviikiande. Fiñ siñum aa Deige skulu Menn bidiast fyrer, og ætijd þvo sig aadur. Þeir fasta aar-

7. Himna; ad þaa hafe Abraham, Moses og adrer Helgir Meñ tilkosed sier hañs Arnadar Ord hiaa Gude, eñ Jesus hafe looted þad Ogiørt; Og er af þessu ad raada, sem sioalfum Mahomed synst hafe, ad Jesus hafe ei hañs vid þurst i greindu Efne.

arlega einn Manud, so þeir niota einskis Matar um Daginn enn snæda þess meira a Nottuñi, ad fraa teknu Svijna-Kiote og þvi sem kiæst er, hvad þeim er bannad; Þeir meiga og ecke drecka Vijn, enn i þess Stad hafa þeir adra afseinga Dricke. Þeir gefa Olmusur, ei Monnum einasta, heldr og, so kolludum, skynlausum Dijrum. Þeir uppretta allvijda Spitala fyrer reisande Foolk. Medal þeirra eru Einsetu Meñ, og enn nockrer, sem vegna Hardlijfes skilia sig fraa Albijdu, og villa synaz oorum helgare. Ad hverium Mañe sie fyrer sett vijst Lijfdaga Takmark, hveriu þaa hann nær, hlioote hann ad deya, enda nær Tyrkiar þvi ætijd, trwa þeir, og hefr slijkt mikid hiaalpad til þeirra Sigurvinninga og Hardfengis. Leist er hverium Mañe ad gipta sig so morgum Konum i senn, sem hann getur forsorgad, og þar ad auke halda Hiaa-Konur. Hvad Booklegum Mentum vidvijkur, þaa logdu Serker sig kostgiæfe-

lega epter þeim i firstu, enn það varaðe ei lenge, sfeðe og ei allstaðar, þvi þeirra Prestar siaa giorla að Trwarbrögð Tyrkia muiðu af siaalfum þeim lijtels metiñ, ef þeim være ei i Blindleika filgt, hvar fyrer allur Fiølde Tyrkia raafar i mesta Þeckingarleyse. Við þaa christnu Faanga, sem þeir naa, höndla velflester af þeim aan minstu Lijnkindar, einkum þaa þeir ei geta lockað nie kwgað þaa fraa Trwnne.

22. J hveriu Asigkomulage voru þeir christnu Søfnuder, i þeim Stødum, hvar Tyrkiar fengu um þessar Munder Yfirraad?

J fyrstunne leifðu Seiker þeim christnu, einkum þeim, er aalytuz Villufarande fraa þeim retta Lærdoome, að halda við sijn firre Trwarbrögð, so lenge þeir ei opinberlega lostuðu Mahomed og hanns Kenningar; Þvi þeir saau giarnann, að þeir christnu, vegna innbirdes Sundurþickis i Lærdoomenum, yrðu meir og meir ablvana, að standa aa mote þeirre yfergaangande Mahomeds Villu, sem, hver-

sit

ſu Oeijmeleg hun annars er i fleſtum Greinum, ikiehelldur þo nockra Lærdooma, ſem chriſtenne Trw ecke eru gagnſtæder. Þeſſe Tyrkianna Adferd kom þvi til Vegar, ad Chriſtnum þookte ei lakara ad bwa under þeſſara Yfirrædum, enn hinna, er vidurkiendu Arii Lærdoom, eda ælitu þad ſanna Guds Þioonuſtu, med Elde, Jarne og margſlags Oſſooknum ad þraungva þeirra Koſtum, er ei voru i ollum Greinum þeim ſam-dooma i Trwarennar Lærdoomum. Engu ad ſijdur leid chriſteleg Kyrkia mikinn Skada vegna Tyrkianna Yfirgangs, þar margerfellu fra Trwñe, enn þeir vid hana helldu, lidu Skada ꝏ Audæfum ſinum, og Jdkun Beoklegra Menta for Odum þverrande; Og þar Serkereblduſt ad Rijkium og Fullſælu, urdu þeir chriſtnum æ þyngre i Skaute, einkum þar þeir ælitu þad ſijna Skylldu, med Hernade ad wtbreida ſijnar Villur. Melchitæ, þad eru þeir, er filgdu Lærdoome Mikiagards Keiſara, voru ætijd midur lidner af Tyrkium, enn þeir, ſem hielldu
vid

vid Nestorii, Arii og annarra, so kalladra, Villumañakienningar; Og þad vegna þess, ad Melkitar droou framar Taum Stool-Kongsins, og þoktu þar fyrir Geigvænlegre. Siidar meir hefur stoor Munr vered á þvi, hversu Tyrkar hafa nu fremur i einum Stad enn ödrum aþiaad christna, epter Tiimanna og Persoonanna olijkum Kriingumstædum.

23. Hver var Uppgangur þess Romverska Biskups uñ þessar Munder?

Miklagards Keisare Phocas (*) epter þad hann hafde dreped Mauritz Keisara og hanns 5. Born, vard mis-sattur vid Miklagards Biskup, og til þess ad hefna siyn

(*) I hveriu Alite Phocas Keisare var, maa raada af þeirri Fraasögn, Holberg, i sinne Kyrku Hist. uñ geti, ad finist hiaa þeim Sagna-Skrifara Cedreno, sem er i stuttu Maale þesse: Ad þaa eiñ heilagur Madur spurde nockrum siñum Gud ad, hvar fyrer hañ hefde laated Phocam verda Keisara? skylde ein Raust af Himne hafa svarad: Þvi eg fann eingañ verre.

síjn a honum, tilbaud hann Bonifacio i Rom, ad hann skyllde kallast Allsheriar Biskup [ Episcopus Oecumenicus ] hveriu Tilbode þesse Paafe took gladlega moote, jafnvel þo Gregorius hinn Mikle lastade firrum slijka Nafnboot. Her af kom þad, ad þeir Romverſku Biskupar vilia ællijtast sem ypparsta Hofud alls Christindoomsins, og under þvi Skyne hafa þeir viliad draga under sig þañ Rett, Keisurum og Konungum tilheyrer. Eñ þetta var ei einasta, sem styrkte Paafans Yfirræd. Þegar Aistulfur, Langbarda Konungur, hafde under sig lagt sudr Partenn af Italia, sem tilheyrde þeim Grisku Keisurum, ritade Stefan, hinn þridie þess Nafns, Romaborgar Biskup, under Nafne Postulans Peturs, Pipin Fracka Konge Bref til, og bad hann vilde frelsa Romaborg og syfira Part Landsins, fra Yfirgange Aistulfs. Pipin bra strax vid, sigradest a Langbarda Konge og gaf þau Herod, er hann under sig lagt ei þessare

Ferd

Ferd, og þar med Stadenn Ravenna, Postulanum Petre, edur, rettara ad segia, þeim Romversta Biskupe. Pipin deyde nockru sijdar, Ared 768. en Son hanns og Erfinge Karl, epter Boon Hadriani Paasa, maatte reisa til Italiam ad frida Landed. Hann giorde Enda a Rijke Laangbardanna, er þeir hofdu haft i Italia hier um 200. aar. Hann stadfeste Giof Fodr sijns til þess Paafalega Stools og giordest hanns Forsvars Herra. Sijdar, nesnelega aared 800. kom Karl til Rom geck þa Paafe Leo þridie moot honum 4. Milur Vegar, og a siaalfan Joola-Dagenn sette Paafenn uppaa hann þa Keisaralegu Koronu, og vard hann þa hinn fyrste Romverskur Keisare af Þijsku Kyne. Hann rijkte yfir Italien, Fracklande og Þijska-Lande, og vegna sinna Afreks Verka og nytsamlegrar Framkvæmdar i Lands-Stioorn og Booklegra Menta Efling, kalladest hann, hinn Mikle, og deyde aared 811. þa hann hafde tvo Vetur hinns

mtt-

ættunda Tygar. Þad jook ei helldur al-lijted Paafans Rijke og Yfirgaang, ad þeir Engelsku Kongar giordu sitt Rijki skattgildt þeim Romversska Stool, so af hveriu Hwse skilde gefast einn Peningur, sem kallast Denarius Petri. Þo hafde enn nu ei saa Romverske Pafe fenged so mikel Yfirraad, eins og skede aa þeirre elleftu Old; Keisararner høfdu eñ þaa hin ædstu Raad yfir þeim Hlutum, sem tilheyrdu al-meñelegri Lands Stioorn, settu eñ Bisk-upa Þing, og høfdu Tilhlutan til alls þess, sem heyrde til Velferdar underliggiande Landa og Lijda.

24. Par Booklegum Mentum for so miøg aptur aa þessum Tijmum, eru þaa nockrer, sem vegna Lærdooms einkanlega eru Nafnkender?

Jaa, Hoo faair, og enn færri er jafnast kunna vid þaa, sem aa firri Oldum lifdu: Þoo vil eg tilnefna þessa:

A SIJOUNDU OLD lifde 1. Georg-ius Pisides, Diaakn i Miklagarde, hver-ium almennelega tilenkast siv Alexandri-

 niska

niſka Chronika, ſem kallaſt Faſti Siculi. 2. Beda Preſtur, Enſkur ad Kyne.

A ATTUNDU OLD ſtirkte Karl Keiſare Booklegar Menter, ſette allvijda Skola, og lagde Fe til, framade Lærda Meñ, og var ſiœlfur lærdur. Af þeim lærdu Mønnum, ſem œ þeſſare Old uppi voru, eru einna merkelegaſter 1. Flaccus Aldinus eda Alcuinus, Lære-ſveinn Beda Preſts. 2. Paull Warne-frid, Cancelleri og Ritari Deſiderii, þeſs ſijdarſta Langbarda Kongs. 3. Iohannes Damaſcenus, Preſtur i Jorſølum.

A NJUNDU OLD 1.) Nicephorus Miklagards Biſkup, 2.) Photius Biſkup einnig i Miklagardi, hvers Nomocanon og Bibliothecarius eru i Afhalde, 4.) Iohannes Erigena, Skotſkur ad Kyni, Skarpvitur Spekingur, hveri Munkar pikkudu til Bana, þar hann fann ad þeirra Lærdoomsleiſe og Odugnade. 5.) Paſchaſius Ratbertus og Walafrid Strabo,

A TJJUNDU OLD Sylveſter II.

Paafe, Oecumenius og Saidus, Grisker, einnig Witikindus Munkur i Corbey, fæddur a Saxlande, og Aymonius, sem ritad hefur þaa Fronsku Historiu.

25. Hveriar voru þær helstu Villur og Misklijder medal christena Mana, a þessum Tijmum, sem mestum Oroa af Stad komu?

Yfer hofud kom mestum Oroa a Stad Metnadur þeirra, er vildu sijnast andleg Hofud Christnennar. Saa Romverske Paafe vilde briota under sig Biskupenn i Miklagarde, og þaa Sofnude hann var yferskipadur, under þvi Skine, hañ være Christneñar Allsheriar Biskup, hvad og sambickt hafde Phocas Keisare; Enn Miklagards Biskupar vildu ei rænast þañig sijnum Rette. Theodorus Biskup i Pharan i Arabia, Sergius Biskup i Miklagarde og fleire adrer, sem vidurkendu Adgreining Natturanna i Christo, utbreiddu þann Lærdoom, herum Ared 630. ad þar være foo ei nema einn Vilie hia honum, og kallast þeir þvi Mono-

thelitæ, og að þessa Meining sellst einnig Pafenn Honorius, sem fordæmd var að því Biskupa Þijnge, er Constatín hinn Sijd-skeggade [Pogonatus] hellt i Mikla-garde Ared 680. So kallader Maronit-ar, er bwa vid Fiallid Libanum, mein-ast i Ondverdu filgt hafa Villu Mono-thelitanna, hversu sem þeirra Askomen-dur, einna hellst nu að siidare Tijmum, vilia yfer það breida. Sier i lage er merki-leg Præta sw, er reis af Tilbeidslu Kross-ens og Lijkneskianna, sem med miklum Skada og Hneixle Safnadanna varade herum i halft annad Hundrad Ar. A þremur undanfarande Oldum var sa Sidur, ad Krossmarkid og Lijkneske heilag-ra Manna og Pijslar Votta voru uppsett i Kirkiunum til Endurminningar hinna framlidnu; en nu, þegar Hiatrwen Ox, biriudu Menn ad tilbidia þau. Til ad hnekkia þessum Atrwnade let Leo Isaurus, Philippus Bardanes og nockrer þeirra, er þeim filgdu i Rijkes-Stiorn þess Aust-

læga Keisaradæmes, enn med ofliijtelle Lempni, (*) riifa burt ur Kyrkiunum þesse Liikneske, enn Miklagards Drottning Irene, Hiætrwar-full og grim̃ Kona, in̄leidde aa nij, herum Ared 787. Dyrkun Bilætanna, og feck i Filgte med sier Pææfam og marga Biskupa, i þeirre Romversku Kyrkiu. Til ad hitta þann retta Medal-Veg i þessum Deilum, sette Karl Keisare hinn Mikle eitt Biskupa-Moot i Frankfurt Arid 794. hvar aaliktad var, ad sliik Bilæte kinnu ad sonnu liidast, eñ ættu þo ei tilbidiast. Þetta Þiing, hvar saman̄ voru komner 300. Biskupar, giorde þo ei Enda aa þessari Þrætu, heldur urdu þau Maala-Lok, þegar Drottning Theo-

 dora-

(*) Constantin Copronymus Miklagards Keisars var so hardraadur vid Þegna siina, einkum Klaustra Foolk, ad þad maatte an̄adhvert afleggia Tilbeidslu Bilætan̄a og gipta sig, eda wr þeim skildu stingast Augun og rekast sidan̄ i Utlegd til Eyun̄ar Cypur og sæta þar Agaange Serkia. Kusu þaa flester helldur ad giptast eñ sæta sliika Tor-Ræke.

dora, medan Son henar Michael Keisare var Barn ad Aldre, hafde til sijn dregid Stioorn Rijkesens, ad þad Ar 842. at einu Biskupa Þijnge i Miklagarde var Tilbeidsla Lijkneskianna sam-þickt, og er þesse Villa sijdann vidtekinn i þeirre Grisku og Romversku Kyrkiu. Sw Griska og Romverska Kyrkia þrættudu einnig um þad, hvert H. Ande framgeingi af Synenum. Hoof þessa Þrætu Photius Miklagards Biskup moot Nicolao Pafa, og so langt er fraa þvi, ad hun kinne wtkliad verda un þeirra Daga, ad hun varir en vid til þessa Dags. A þeirre Nijundu Old kende Paschasius Radbert, ad Braud og Vijn i Altaresens Sacramento umbreitest i Christi Lijkama og Blood; hvern Lærdoom nockrer ræku til baka i fyrstu; En þar han var nijr, einig Sagnfrædur rettre Skinseme og Ordum Heil. Ritningar, en var hid hentugasta Medal ad efla Hiatrw, þa feck hann Medhalld af þessara Tijma Frædre, og er nu

sem

sem vissasta Hofudgrein Trwarinnar vidtekinn i þeirre Romverſku Kyrkiu.

26. Hverium Offooknum mættu christnir a þessum Oldum?

A Sioundu Old striidde Chosroes Persa Kongur uppa Syrland, Cappadociam, Armeniam og onnur Rijke þess austlæga Keisaradæmis, og hlutu christner þa og lijka Gydingar sæta Afarkostum. Hvern Skada Saraceni (Serker) giordu christnenne, er adur a vikid, hverier, epter þad þeir eblduſt, urdu æ verri Vidureignar, sem synde sig a þeirre Attundu Old, þa þeir heriudu i Thracia, Sardinien og Spania, hvar til sialfer christner synast þo Stundum hafa gefed nockra Ordsok. A hinne Niundu Old heriudu Lodbrookar Syner a England, Valland, og um Lombardi; Slijkt hid sama giordu Gunnhilldar Syner, Gaungu-Hrolfur hinn Mærske og fleire Her-Kongar og Vijkingar, sem komu fra Norveige, Danmorku og nordustu Herodum Þijdska-

 lands

lands, er drapu Fiolda Folks, og eyddu þeim Stodum, sem lau vid Siafar-Sijduna.

27. Hveriar Þiooder snerust til christelegrar Trwar a þessum 400. arum?

Þeir ed filgdu Lærdoome Nestorii Biskups logdu alla Stund a, ad utbreida christnena i austur Alfunne, og settu yfer sijna Sofnude Biskupa, sem undergefnir voru þeirra Patriarcha i Chaldea. A Sioundu Old christnudu þeir mikenn fiolda Heidinga er biuggu nordarlega i Asia, hia og i China Rijke; A þeirre Attundu Old christnudu þeir Hyrcaniam, sem la under Persa Konung og mikinn Part af Tartarienu; og a þeirre Tijundu Old þad Londplatz Karit (*) hvar Christn-enn

(*) Þeir sem biuggu i þessu Lands-Platse voru miog bæde i Nordur- og Austur-Alfune fræger 7 vegna sijns Hardfengis, Rijkedæmis og godra Sida. Sin Kong Malek Jrhanc, edur John Kong, kolludu þeir Presbyter. Þegar Portugisisker a þeirre 15. Old villdu finna þenna rijka John Prest, hugdust þeir

enn stood nockurn veiginn i Blooma fram at hina Fiortandu Old, til þess innbirdis Strijd og Baraatt gengu sem hærst mille Chinesiskra og Tartara, under þeim Sigur-sæla Tamerlan, sem ad mestu helt vid Mahomedskærdoom og braut mikenn Part austur Alfunnar under sig. A þeirre SIOUNDU OLD snerest allur Fiolde Manna a Bretlande til christelegrar Trwar, og Columbanus hinn Irske med Lagsmonnum sijnum Kilian og Willibrod bodudu christna Trw Frankis Monnum og ymsum Herodum Pijskalands. Bonifacius hinn Enske, sem nemdest adur Winifrid (*) og kallast almennelega Pijsk-



hafa funded hann i Morlande, og hafa marger trwad þessare þeirra Sogu-Sogn. Enn þeir ed heldur vilia trwa Orækum Skiolum og Vitnisburdum, enn Ovissum Fra-sognum Sioosarande Manna, þeir munu ei hika vid ad astiita þenna John Prest verid hafa Tartara Konung, i Grend vid China, enn þoo christenar Trwar. Mosh. K. H. P. 1. pag. 597. 598.

(*) Pad var brukanlegt a fyrre og sidari

ra Postule, snere at þeirre ATTUNDU OLD Friisum, Hessum, Thyringum og ødrum Sveitum Þijdskalands til þeirra Romversku Trwarbragda. Mætte honum margt Vos og Vandræde, enda Fulltijngde hñs Fyrertektum Paafenn og Carl Martellus Kongz Frænkes Maña; hann hafde og fyrer nockru ad gaangast, þvi hañ feck loksens Erkebiskups Stoolana i Meginzu Borg, at Kølne og i Utrekt, og var þar ad auk Paafans Umbodsmadur i Frankarijke og Þijskalande. Loksens var hann drepeñ af Friisum Ared 755. A þessare Attundu Old braut Carl Keisari hiñ Mikle under sig Saxland, og epter margar Orustur let hañ skijra Witikindum 785. sem var hiñ hellste Oddvite heidiña Maña i Saxlande. Strax let hann boda christna Trw

Tiimum, ad þeir sem vygder voru til Paafa, Biskupa, eda jafnvel þeir, er iñgeingn Munka-Stiett, tooku sier ønnur Nøfn, so sem þeir villdu skiljnast aller adrer Meñ, þeir adur voru. Hier a Lande man eg þoo ei slijkt hafe vidgeingist.

Trw Innbyggendum Saxlands, Hwnum, Friisum, sette Biskups Stoola, Munk-Lijfe og Skoola allvijda, og, epter Sid þessara Tijma, sparade eckert til þess med blijdu og strijdu, ad framfilgia Christne-bodenu. A þeirre NIUNDU OLD sende Son hanns Hlodver Keisare, kalladur hiñ Gudrækne, Ansgarium Abota fra Corbey og Ebba fra Rimum til Danmerkur og Svijarijkes Ared 816. ad snwa heidingium fra fornum Blootskap til betre Sida: Her um̃ Ared 850. sende Theodora Milkagards Drottning tvo Griska Munka Methodium og Cyrillum til þeirra i Mysia og Bulgaria, siidann til þeirra i Boheim og Moravia, med Christneboded, sem feck a þessum Stodum sæmelegann Framgang, einkum þar nockrir adur, fyrer Tilstille Carls Keisara, hofdu kastad Heidne. Siidann hafa þeir i Mysia og Bulgaria leigid under Erki-Stoolinn i Milkagarde, hvad þeirra Trwarbrøgd og Kyrkiu-Stioorn aahrær.

er, þar þeirra fyrstu Keñendr voru Grikker. At þeirre Tijundu Old let Gaungu-Hrolfur, Son Rognvalds Mæra Jarls fra Norvege, leida sig til christelegrar Trwar fyrir Framfilge og Bænastad Carls Frackа Kongs, er kalladist hiñ Einfallde, hver ed gifte honum Gijslu, (adrer kalla hana Ægidiu) Dottur sijna, og gaf honum til Forrædes þad Rijke, sem nu kallast Normannia, enn ædur het Neustria. Epter Skijrnena let Hroolfur kalla sig Rodbert, og eru af honum komner Englands Kongar og Rwdu Jarlar. At lijkann Hætt sneruſt til christelegrar Trwar Miecislaus Polina Furste, þar hann gifteſt Doottur Furstans af Boheim; Valdemar (Wolodimirus) Kongur i Garda-Rike took einnig christna Trw, þar hañ gifteſt Onnu, er Syster var Basilii yngra Miklagards Keisara. (*) Geisa, Kon-

(*) Ad þetta ſe ſami Valdemar, hvers geted er i Sogu Olafs Kongs Triggva Sonar. P. 1. Cap. 50. og 90. [illegible] Kringumſtæd-

Konungur i Hungaria, var skijrdur 960. af Adalbiarte Biskupe i Prag, og snerust þaa marger af Þegnum hanns til betre Atrwnadar, eñ þo miklu fleyre under Syne hanns Stefni (Stephano), sem sijdar vard Kongur, og kallast hinn Helge.

28. Seig mier i faam Ordum hverju þau christelegu Trwarbrøgd voru iñfærd i Danmørk Sviarijke, Noreg og underliggiande Eyar!

# I. Uñ Danmørk.

Epter øllum Lijkindum syneſt ad Carl Keisare hinn Mikle hafe villad christna



urnar ei gete vel stadest. Drottning Valdemars, þess er geted er i Olafs Søgu, kallast Arlogia, og ad Paall nockur fraa Gricklande hafe veitt þeim Skijrn: Eñ þañ Valdemar, hvers fyr er geted, heim færer Mosheim til þeirrar 10. Aldar. Gardarijke hafdeuñ þessar Munder fleire Konga i sier, lijka sijnist, ad christen Trw hafe i ymsum Stødum þessa stoora Rijkis og aa ymsum Tijdum, bydud vered.

Danmørk ; Enn Hlodvi Syne hanns Keisara, enum Gudrækna, hlotnadiz ad Fulltijngia Christne-bodenu medal Dana; Þvi um̃ Sumared 822. wtvalde hann Ebba, Erke-Biskup i Rimum aa Fracklande, ad takaz þetta Starf aa Hendur: Foor þaa Ebbe strax aa Þaafa Gard, og feck Leife af Paschali Paafa, ad predika retta Trw i Danmørku: Kom Ebbe þanngad tvisvar sinnum og sneruſt ei fæer vid hanns Predikanir. Hiñ fyrste Jootlands Konga, er took vid Christne, nefnest Haralldur, (*) og var skijrdur med Skulda Lide sijnu i Meginzu Borg (Maynntz) aa Ared 876. Um̃ sama Bil var Ansgarius Biskup sendur til Danmerkur og dvalde þar 2. aar, eda nockud lengur, og foor sijdann aa Fund Hlodvers Keisara;

Sijd-

(*) Danskar Fræde Bækur seigia her fie meint ur Klack-Haralldur, Fader Pyrt Danmerkur-Bolar, Moodur Haralldar Blaatañar, eñ ad sliikt næe ei heim siñir Portmodur Torfa Son, i sijnu Konga-Tale 3. Bok. 15. Cap.

Sijdar, nefnelega 850. eda þar um Bil; foor Ansgarius til Jootlands aa nij, og leifde þaa Eirekur Kongur, kalladur hinn Unge, ad Kyrkia være sett i Heidabæ, og Prestar til fengner. Sneruz þaa marger fraa Heidinglegre Villu, einkum i synnre Luta Jootlands; Þo var meste Lute Danmerkur enn Heidenn: Og þaa Gormur Kongur hinn Gamle, Son Horda-Knwts hafde under sig lagt Jootland, allt sudur til Sletz, og burt reked Jarla þaa og Fylkes Kónga aa Jootlande hefdu rijkt, sijdan Ragnar Lodbrok skipte Rijkium mille Sona sinna, giordest hann hardur Christnum Monnum og eblde Heidne (*) Har-

(*) Gamlar Sagna Bækur geta þess, ad Uni (Huni, Huno,) Erke-Biskup i Brimum hafe komed i Danmork til þeirra Fedga, Gorms og Harralldar, reindest Gormur mootfallenn hanns Erendum, enn Haralldur, sem þaa rijkte med Fødur sijnum, gaf honum Leife ad frammfilgia Christnebodenu, i vissum Stødum, hvad hann og giørde. Haralldur var þo enn heidenn, og synde i þessu miked Miukläte

Haralldur Kongur Blaatonn took Rijke epter Fødur sinn, lijklega til ad geta her um 939. A hanns Døgum heriade a Danmørk Otto Keisare hinn Mikle, og sigrade hann, og let skijra Harald Kong og Svein Son hanns, og veitte honum sialfur Gudsifiar, og kallade hann Svein-Otto. Þennann Svein kollum vier Tiuguskegg! þa var lided fra Burd vors HErra JEsu Christi 950. Ara: Þad synist sem Haralldur hafe ei ad undanförnu vered mootfallinn Christnebodenu, þvi tveim Arum ædur enn hann var skijrdur vijgde Adaldagur Brima Biskup (*) þria

Þegnum sijnum, saa heyrdu um þessar Mundir, ad þeir mætte taka þaa Trw, er þeim syndest betre.

(*) Erke-Biskups Sæted, under hvert laau Danir, Svijar og Nordmenn, var fyrst sett i Hamborg (Hamarsborg); Enn þa sa Stadur var eydelagdur af Nordmønnum, var Erke-Biskups Stoollenn þadann fluttur til Brima a Saxlande Ared 845. Ansgarius var hinn fyrste Biskup i Hamborg, sijdann,

rica danska Biskupa, Haralld til Slesvijkur, Liifdag til Ripa, og Rimbert til Aroosś. Sveinn Tiuguskegg took Rijke epter Fodur sinn, og nijddest a Trw sine, hindrade og Christnebodeð i sijnu Rijke, enn po segia danskar Chronikur hann hafe nockru fyrir sin Dauda (sem skede 1014.) snwist til rettrar Trwar og henne framfilgt. [conf. S. T. Langeb. Sc R. D. M. Æ. 2. Tom. N. LXII & LXIII.]

## II. Um Sviarijke.

Ei einasta af þeim Skiftum Sviar hofdu vid þaa Fedga Karl Keisara hin Mikla og Hlodver Son hanns, helldur og fyrir Framkvæmd Willerici Brima Biskups og Herberts nockurs (sem skyllde af Carle Keisara vera sendur til Gautlands ad boda þar Christne *) er lijklegt ad nockr-

Brimum og deyde 3. Febr. 865. og strax var Rembertus tekin i hanns Stad.

(*) Her um maa lesa J. C. Beers Leben, Regerung und Absterben aller Koenige in Schweden.

er af Svijum hafe yfergefed fornañ Átrunad, og þvi hafe Svia Kongur (eg meina Biörn af Hauge) sendt til Hlodvers Keisara ared 829. med þeim Erendum, ad hann sende Kennemenn þangad, ad boda christna Tru, þar marger vildu vid henne taka; Keisarinn vard næsta gladur vid þessa Ordsending Svijanna, og sende til þeirra Ansgarium, sem þa foor fra Danmørk og kom loks til gomlu Sigtuna; Took Kongur honum og hañs Filgiurum blijdlega og leifde þeim ad framfilgia Christneboðenu. Rꝏdgiafe Biarnar Kongs Hergeyr var einn hinn fyrste, er let skyrast og bygde þa fyrstu Kyrkiu i þvi Rijke. Ared 831. foor Ansgarius þadann, enn Gautbertur, Frænde Ebba Erke-Biskups, var til Biskups vijgdur og þangad sendur, hver epter Vijgsluna took sier annad Nafn, og kalladest, epter Petre Postula, Simon, (*) og syneft sem honum hafe tregt veitt ad framfilgia Christne-

(*) Fleyra her um man lesa i Æfe-Sogu Ansgarii, sem Rembert hefur samanskrifad.

stnebodenu, hvar fyrir Ansgarus (lijklega pad ær 853.) reiste til Svijþioodar, og var þar eins ærs Tijma. Fañ hann Olaf Kong (Biarnar Son) og took Kongs ælitlega Mæle hanns, og æ 2. Þijngum rædde vid Alþiidu um Erende Ansgarii, leisde einnig Þegnum sijnum Sida-Skyptin; stoodu Svijar fast æ moote, og kostudu marger Trwnni sijdann. Sigurdur Biskup Ryke, Hirdprestur Olafs Kongs Triggvasonar, og fleyre adrer, reyndu til ad christna Landed, hvad þeim tookst miog lijtt, uns Steinkell (sem af sumum kallast Annar med þvi Nafne) settest ad Rijkenu, er med miklum Skorungskap braut Hof og Horga, feck Presta fra Hamborg ad telia Trw fyrir Svijum, og var þæ allur Fiolde hanns Þegna skijrdur i Sigtunum. Sijdann hefur Christne þar vidhalldest, og var til Uppsala Erkebiskups Stoll settur æred 1154. (*)

3.

(*) Holb. K. H. P. 2. p. 74. Eñ Annælar, utgiefner af Hr. Langeb. T. 1. R. 27. seq.

# III. Um̃ Norveg.

Haakon, Son Haralldar Haarfagra, Olst upp aa Englande hiaa Adalsteine Konge og took þar vid Christni, hveria, þaa hañ var Kongur ordenn ad Norvege og Eirykur Blodøx haalf-Bröder hanns hafde stocked wr Lande (938. eda 939.) hann vilde innfæra i Rijked, og feck þvi Kennemenn fraa Englande til Kyrkna þeirra, er hann hafde biggt aa Mære og i Raums-Dal, og letu sig marger skijra; Enn Þorre Alþijdu, einkum Þrændur, stoodu so rijkt moote þessum Nijungum ad þesse goode Kongur neyddest ad laata af uppteknum Hætte; Enn Bloot hoofust þegar, og mögnudustæfa i Tijd Haralldar Jalls Sigurdar Sonar. Olafur Tryggvason, sem fraa Barndoome hafde wtlendur vered, numed christna Trw og skijrdur i Syllingum af Aboota nockrum vestur

þar

ja ad Stefnir hafe heited fyrstur Erke-Biskup i Uppsolum sem þaangad vijgdest 1163. enn deyde 1181.

þar, kom til Orkneya og kallade þar til Rijkes, sem hann var tilborenn. Sigurdur Jarl Hlodvers Son hinn Digre hellt þa Eyarnar og Katanes og fundust þeir a Petlands Fyrde i Asmundar Voge, og þreyngde Olafur so Kostum Jalls, ad hann let skijrast og Foolk þad i Eyunum var. Epter þetta siglde hann til Norvegs um Sumared 995. og geck Lands Foolked honum til Handa, epter Draap Hakonar Hlada-Jalls. Þa hann var ordenn Einvalds Kongur i Norvege, bodade hann strax christna Trw, og med blijdu og strijdu wtbreidde hana, a þeim 5. Arum hann rijkte, nær um allt Rijked. Þa Ol. T. S. hafde 2. Vetur vered i Norvege sende hann epter Sigmunde Brestis Syne, hvern, þa hann hafde teked vid Christne, hann fraa sier giorde med þeim Erendum, ad hañ telde Trw fyrir Færeyingum. Leif hinn Heppna Eirykssón sende Olafur Kongur fraa sier til Grænlands, ad christna þar Landed

ed, hvad Leiſe tookſt Gyptuſamlega.

## Um̃ Island ſier i Lœge.

Þegar Island var funded af Nordmoñum, urdu þeir varir vid Viſter chriſteña Manna, ſem hingad hoͤfdu komed veſtañ um̃ Haf, lijkiega fraa Irlande. Hiet Aurligur ſaa, er fyrſtur reiſte Kyrkiu her aa Lande, ad Eſiuberge, annar Þorvaldur Spak-Bodvarsſon ad Aſe i Hegra-Neſe Ared 984. Geted er fleyre chriſteña Maña, er i Landnaama Tijd bigdu Landed; Eñ ad ſidnum nær Hundrad Vetrum, fraa þvi Ey þeſſe fyrſt bigdeſt, ſyor Þorvalldur Kodransſon af Lande burt, var ſkijrdur aa Saxlande, og hafde wt hingad med ſier þann Biſkup, er Fridrekur het; Saatu þeir fyrſt ad Giljaa i Vatnsdal fioora Vetur, og vard þeim lijted aagengt med Chriſtneboded, hvers vegna þeir fooru hedann af Lande epter fim̃ Ara Dvol. Saa Mikle Atgiorfes og Fram̃kvæmdar Madur Olafur Kongur Tryggvaſon ſendi um̃ Vored 996. Stefne Þorgilsſon wt-

hing

hingad ad christna Landed. Stood Alþijda fast fyrir Sida-Skiptunum, enn einna hellst Frændur Stefnis, og skipudust Menn lijtt vid hanns Kenningar, so Sumared 997. var þad i Log leidt a Alþijnge, ad Frændur hinna christnu Maña, skylldu sækia þaa um Gudlastan, þeir nanari voru þridia Brædra og fyrnare enn nærstu Brædra. Stefner, siaande hve litlu hann munde til Leidar koma vid heidenn og hardsinwenn Almwga, siglde til Norvegs sam-sumars. Hird-Prestur Olafs Kongs Þangbrandur vann þad til Fridar sier, vid Kong, vegna Ospekta þeirra, hann hafde giort, ad fara wt til Islands, og boda þar Trw. Hañ kom wt hingad sama Sumar, og Stefnir foor utann. Took hann Land i Alpta-Fyrde austur og skijrde Sijdu-Hall Þorsteins Son og Skyldu Lid hanns, þar sem nu heiter Þvottaa. Þar epter skijrde hann af Hofdingium Gissur Hvijta og Maag hanns Hialta Skeggiason, og enn sidar

Gest

Geſt Oddleifsſon og marga af Alþijdu. Epter-þad Þangbrandur hafde dvaled her 2. Vetur ſiglde hann til Norvegs aared 999. og rædde miog um Svadilfarer ſijnar fyrir Konge, og hvern Fiandſkap Menn hofdu her vid hann lijſt, og kallade einga Von, ad Chriſtne munde hier vidgangaſt. Marger Islendſker ſigldu til Norvegs, ſama Sumar (aa medal hverra var Giſſur og Hialte), og var vid ſiaalft bwed, Kongur munde laata koma nidur aa þeim Reide ſijna vid Frændur þeirra og Forelldra; Enn fyrir Umtolur Giſſurar Hvijta (er bæde var Frænde Kongs, og fulltijngt hafde Þaangbrande um Hrijd medann hann var hier) gaf Kongur Rwm Reide, og ſende þaa Maaga Giſſur og Hialta wt hingad, ad ſlitia Erende ſijn, vidvijkiande Chriſtnebodenu. Um Vored (1000) komu þeir wt og tooku Land i Veſtmanna-Eyum. Þar reiſtu þeir Kyrkiu, fyrir nordann Vogenn, og ridu med miklum Flocke til Alþijnges. Enn

þaa

Þaa þeir baaru upp Erende sijn ad Løgberge, vard Sveitar-Draattur mikell, og søgdust hverier wr Løgum vid adra, ener christnu Menn og Heidingiar. Þaa geng-ed var fraa Løgberge, baadu christner Menn Hall aa Sijdu segia Løg upp, er christner hafa skyllddu. Enn med þvi Hallur saa, ad heidner Menn mundu ei sæta Løgum þeim, er hann kvæde upp, enda hafde hann ei Walld þad, ad setia Løg allri Alþijdu, þaa feck hann til heidinn Mann Þorgeyr Liooss-vetninga Goda, er þaa hafde Løgsøgu, ad hann segde Løg upp hvertvegge christnum og heidnum, og til þess hann gengest under þetta Venda Maal, gaf Gissur honum halft Hundrad Silfurs (edur 2. Hundr. og 10. Al. aa Lands Wijsu). Medann Þorgeyr hugsade þetta Maal, hofdu heidnir Menn Stefnu Fiolmenna, og tooku þad Raad, ad bloota 2. Menn wr hverium Fioordunge, og hetu aa heidinn God til þess, ad þau lete eige christne gaanga yfer Landed, og voru til Blootann

ætlader vestu Meñ. Þeir Hialte og Gissur
ættu adra Stefnu vid christna Menn, og
kvæduſt vilia velia ad Mannkostum hina
bestu Menn, og kalla þad Sigurgiof vid
DRottenn JEsum Christum, og skyldu
þeir, ed gæfu sig til slijkrar Sigurgiafar,
lifa þvi betur og synd-varlegar enn ædur;
Næsta Dag epter talade Þorgeyr langt
Erende og sniallt fyrer öllum Þijng-Heim,
synde i hvad Oefne komed var, ef Menn
skildu ei ein Log hafa a Lande her; og þar
hann hafde loked Tolu sinne, jattu hver-
tvegge ad halda þau Laug er hann ræde upp
ad segia, og var þad Uppsaga Þorgeyrs,
ad allir Menn skildu verda skijrder a Js-
lande og trwa a einn Gud; eñ um Bar-
na Utburd (sem ætijd hookte Fulmenska,
nema Naudsyn kræfe) og Rossa-Kiots
ät skildu halldast en fornu Log: Menn
skildu bloota a laun ef vildu, enn varda
Fiorbaugs Garde ef Vottum kæme vid:
Hof oll og Skurdgod skyldu oheilog vera.
Slitu þeir med þvi Þijngenu, ad Christni

var

var Logtekin um̃ allt Island. Voru þar allir Menn primsignder, sem a Þijngi nu voru, og margir skijrder, er ꜳdur voru heidner, enn er Þijng-Menn komu heim i Herod, þar var Alþijda skijrd a þvi Sumre, sem fyrst vard vid komid; mælte þar einginn moote Christnum Doomi, og hefur sijdañ Christnen eblst og aukist a Islande, alldrei eydz, enn leinge ustirk.

29. Hvad getum vier teked oss til Ihugunar af ꜳdur sogdu?

1. Þad er advijsu satt, ad flester sem snerust til christelegrar Trwar a þessum Oldum (hvad optar skede fyrer utvortis Kugan eda saker Veralldlegs Avinnings, framar enn vegna þess þeir væru noglega sannfærder um̃ Ypparlegleika og sannarlegt Asigkomulag og Edle rettrar Guds Dijrkunar) ad flester, sege eg, voru ei einasta sem Ung og nij plontud Tre i Akre Guds, helldur og næsta tryllder af Utvortes Mañasetningum; Þoo hafa an Efa marger, epter þad þeir hofdu smackad hid gooda

Guds Ord og Kraft epter komande Ald-
ar (Ebr. 6.) orded sanner Limer hinnar
Osijnilegu Guds Kyrkiu; Og hvsum vier,
ei sijdur enn adrer þeirra Nidiar, þess ad
noted, ad Londenn christnudust, hvad ei
saum Gude noglega full þackad.

2. Þar vier ad giætum þad stora Nid-
urdrep, Christeleg Kyrkia vard fyrer veg-
na Tyrkianna Yfergangs, siæum vier
under eins Guds addæanlega Radstof-
un, sem hefur utbreitt Takmork sinnar
Kyrkiu vijds Vegar um nordur Alfuna,
og þad til hinna ytstu Takmarka; Hvad
oss, sem bwum a þessum Hala Verald-
arennar, ætte uppvekia til riettskickadrar
Alvorugefne, i þvi ad elska hann og hlijda
hanns Orde, so ei sætum slijku Straffe,
sem yfer kom þar Sofnude, hvar Guds
Þecking stood i Ondverdu i Blooma, en
eru nu sumer ad mestu, sumer ad ollu
leite afmæder; Og ei hitte oss sw Oham-
ingia, ad þursum hlaupa fra einu Siaf-
ar Hafe til annars, fra Nordrenu til

Austurs, og leita epter Orde DRottens, og finna þad þo ecke. (Amos. 8. v. 12.)



# Fioorde Capitule,

## Inneheldur þad helsta vid hefur borid i christelegre Kyrkiu, fraa Birtun hinnar Elleftu Alldar til þeirrar Septandu.

### I. Um̃ þad Griska edur austlæga Keisaradæme, og þaa christnu Søfnude þar laau under.

**30. J hveriu Asigkomulage var þad Griska Keisaradæme, og þeir christnu Safnader, sem til þess laau?**

Þvi austlæga, edur Griska, Keisaradæme for ætijd hnignande, þar Serkia Kongar hrifu under sig fraa þvi eitt Rijke og Herad epter annad, enn in̄birdes Sundurþicki var mille sialfra Safnadanna, er reis af þeim Miskiijdum, er tvinnudust af olijkum Meiningum, er þeir hofdu,

Trwarennar Lærdoome og Kyrkiu-Sidum vidvijkande. Franſker iñtooku Miklagard Ared 1204. og hofdu þar utlender Keiſarar ſitt Adſetur til 1261. þaa Michael VIII. kalladur Palæologus, inntook Stadenn, enn rak burt Baldvin Keiſara, ſem aſamt Patriarkanum Juſtiniano, komſt naudugleg a undañ. Um þeſſar Munder wtvoldu Griſker ſier añañ Keiſara, þar þeir gatu ei lided utlenda Hofdingia, og ſetteſt hann ad i Nicea, hvar ſaa fyrſte Keiſare var Theodorus Laſcares. Þeſſe Adgreiningur hinnar yppurſtu Stioornar olli ad viiſu miklu innbirdes Sundurþicke, enn ei ſijdur þad, ad nockrer Griſker Keiſarar og Patriarkar gaafu ſig um Stund under þann Romverſka Stool, i þeirre Von ad Paafenn munde ſtirkia þaa moot Yfergange þeirra Tyrkneſku Keiſara. Til ſlikrar Sameiningar, millum þeirrar Romverſku og Griſku Kyrkiu var nockrum ſinnum reynt, enn ſier i lage aa Arunum 1232. og 1234. þo forgefens. Nu ſo

Paaf-

Paafarner eige ad sijdur gætu fengid adra Griska Sofnude under sijn Yfirrad, þaa baud Innocentius IV. Nestorianis og Iacobitis (*) (þo þeir ælijtest sem Villu Meñ) ad gefa sig under þaa Romversku Kyrkiu, og sama Tilbod giørde 1278. Paafe Nicolaus IV. Nestorianis, sem biuggu nordarlega i austur Asfunne, og sijnduft Biskuparnir, sem yfer þessa Sofnude voru skipader, ecki mootfallnir þessare Sameining, ur hverre þo eckert vard. Mille þeirrar Grisku og Romversku Kyrkiu friede loksens ad Orde kvedinn fullkominn Sameining 1274. þannig, ad saa Romverske Paafe skyllde hafa ædstu Vold yfer Christnenne. Miklagards Biskup Joseph vilde ei lækka Seglin, fyrer Metnade þess Romverska Paafa, enn var þess vegna afsettur. Iohannes Veccus var



(*) Jacobitarner hafa sitt Nafn af Jacob Zanzalo sem var Eutychis Lærisvein: Þesser hafa sin eigin Patriarka, og finnast vijda i Egyptalande og Morlande.

i hinꝰ Stad utvalin, er filgde Drætte þess Romverska Pafa, enn kom a gang þar med þeim stærstu Ospektum i þeirre Grisku Kyrkiu, sem vid helduſt medann Michael Keisare lifde, enn þaa hanns Sonur Andronicus kom 1282. til Stioornarennar mætte Veccus vijkia, enn Joseph var aꝛ nij innsettur i Patriarka Sæted, og su Sætt giord var vid þaa Romversku Kyrkiu, Onittist. Sijdar, neſelega 1438. mætte Miklagards Keisare a þvi Biskupa Þiinge, Evgenius Pafe hafde sett i Ferrara; og, epter þad leinge hafde vered þrattad um Hreinsunar Eldenn, osyrt Braud i Altarisins Sacramente og Framgang Heilags Anda af Synenum, vard þeirre Sætt a komed millum Paafans og Keisarans, ad siv Griska Kyrkia skulde leggiast til þeirrar Romversku. Enn ad Keisarinn var so audveldur i slijku sijnest framar sked vera þess vegna, ad han hefde af þessare Forlijkan Veraldlegann Avinning, enn ad þeir Papisku Prelatar hafe

getad

getad med Rokum affakad suma þaa ranga Lærdooma, er þeir Grisku, skuldudu þaa fyrer; Þvi Keisarenn vildeei underskrifa þessa Sattargiord, fyrr enn hañ fenge Fullvissu um Foolk og Peninga til Stirktar Ryke sijnu: Enn þaa Keisarenn kom heim, urdu Þegnar hanns uppvæger honum i gegn, og odrum, er stoodu ad þessu Verke. Sijdann hafa ei Paafarner getad aa-komed þessare Sameining; einasta hefur Gregorius XIII. stiptad einn Skola, og lagt ærna Fe til, þeim til Keñslu og Uppheldes af Griskum, sem leggia sig epter Booklegum Mentum i Rom, i þeirre Von, ad þeir sem Papiskir gioraſt, utbreide Papisk Trwarbrogd medal Landa siña; og hellst þesse Stiptan eñ vid.

31. Hvijlijkt var Asigkomulag Safnadanna, er lagu under þa Grisku Kyrkiu, i Tillite til Lærdoomsins og Trwarbragdaña?

Þegar Hiatrw og Missklijder i Lærdoomenum fengu Yfirhond, þaa droeg eitt Sky epter annad fyrir þaa Birtu, sem

Griskum Sofnudum i Ondverdu hafde stadeð af Lioose Guds H. Orda. Utvortes Vidhofn i Guds Pionustu, Oandlegar Prættaner og Stijfsinne i þvi ad forsvara sijnar Meiningar um þaa Hlute, sem annat hvert yfirgaanga mannlegann Skilning, eda lijted rijdur aa, Innbyrdes Offsookner og Flockadrætter, og, yfir Hofud, þvilijkt Lijferne, sem christnum ecke sooimer; Þetta og þvilijkt hiaalpade til Christendoomsins Nidurdreps, og þess heila Keisara-Dæmes Eydeleggingar. Saa eine Keisare rak opt þann annann fraa Rijkium, og saa eine Patriarke banfærde hinn annann. Af þvi Bogomili vildu ei tilbidia Krossenn, þaa voru þeir, med sijnum Foringia Basilio, aa þvi stoora Torge, sem Nordmenn kalla Padreim, enn Grickar Hippodromum, brender af Keisaranum Alexio aa þeirre Tolftu Old. Þar Munkarner aa Fiallenu Athos sogdust siaa Gud lijkamlegum Augum vegna sijna sijfelldra Gudrækms Iskana (*) var þvi

(*) Þegar þeir beiddust fyrir, eda voru i sijnu

þvi strax trwad, og þeirra Hiegiliur samþicktar aa einu Biskupa Þijnge sem hallded var i Miklagarde 1350. Grikker aalykta ad heilagur Ande framgaange FYRIR [per] Sonenn, enn ecke AF [ab] Synenum, hafa þo ecke synt, hvert nockur eda hver Mismunur aa þessu sie: Og fleyra lijtur her ad, er syner stoora Faakunaattu medal þeirra. Alijkt var aastatt fyrir Booklegum Mentum um þetta Skeid. Prætur um þaa Hlute, er meintust tilheyra Trwarbrogdunum, gaafu ei andlegrar Stiettar Monnum Toom ad ydka þær vandlega. Keisararner og þeir veralldlegu hofdu æred nwog ad veriast Yfirgaunge Tyrkianna, og stilla innbyrdes Upphlaup.



Gudrækner Æfingu blijndu þeir Augunum til þess Stadar, hvar Nafle þeirra var, og þvi kolluduſt þeir Omphalopsychi, eins og þeir skyldu meina, ad Saalin være i þeim Parte Lijkamans: Þeir synast annars i morgu hafa vered lijker so kolludum Qvietistis.

32. Upptel mier þo nockra, semødrum framar hafa, vegna Lærdooms og epterlætenna Rita, giørt sig Nafnkuñuga!

A hinne ELLEFTU OLD 1. Svidas; hann skrifade eitt Lexicon Historicum, 2. Theophylactus, er skrifad hefur Utleggingar yfir Bækur hins Nija Testamentis. 3. Georgius Cedrenus, er samann hefur teked Annæla. A TOLFTU OLD, 1. Iohannes Zonaras, sem samann hefur teked Annæla frá Heims Upphafe til 1118. 2.) Anna Comnena, hefur ritad i 15. Bookum þad til hafde bored medann Fader hennar Keisarenn Alexius Comnenus rikte. A ÞRETTANDU OLD Georgius Pachymeres, hefur 113. Bookum ritad Historiu þess Griska Keisara-Dæmes. A FJORTANDU OLD 1. Iohannes Cantacuzenus, Keisare og siidañ Munkur, hefur samann teked Historiam Byzantinam 2. Manuel Chrysoloras, kom þvi til Vegar, ad nockrir i þeirre Romversku Kyrkiu logdu sig framar epter þvi

þvi Griska Tungumaale, enn sked hafde i nærstu 700. Ar. A FJMTandu Old Bessario, er gaf sig fra þeirre Grisku Kyrkiu til þeirrar Romversku og vard Cardinal.

33. Hver urdu Endalok þess Griska Keisara Dæmes?

Epter þad sa Tyrkneske Kongur Amurath hafde broted under sig þau Rijke, sem tilheyrdu þvi austlæga Keisara-Dæme, (so þeir Grisku Keisarar riedu ei stoort yfir ødru, enn sijnum Adseturs Stad Miklagarde); Kom aared 1451. til Rijkes epter Fodur sinn Mahomed II. Hver ed einsette sier ad giora Ender a þvi Griska Keisara-Velde, og settest þvi um Miklagard med þrim Hundrud Þusunder Manna, og þar ad auk stoorum Skipa Flota. Keisarinn Constantinus Palæologus synde ægiæta Vorn, so leinge var þvi synt, hver ier sigrast mundu: Loksins feck Mahomed Yfirhond, enn Keisarinn, er ei vilde takast til Fanga, Od med naked Sverd

midt fram i Fylking sinna Ovina, og var til Dauda Footum trodenn af þeim. Epter þad Keisarenn var fallenn, vard eingeñ Vorn fyrir, enn i heila 3. Daga æsdu Tyrkiar slijkann Nydingskap og Grymd a sigrudu Foolke, ad varla munu finnast Dæme til annars eins. Fioretyger Þusunder Manna voru myrdtar, og Sextige Þusunder til Fanga teknar. Þo þyrmde Mahomet sialfre Borgenne, þvi hann wtvalde hana til sijns Adseturs: Þar christnu, sem undann komust, kallade hañ til baka, og giørde sig blijdann vid þa: Og þar Patriarka Sæted var nu lidugt, skipade hann þeim christnu, ad þeir skylldu wtvelia sier nijann Biskup eda Patriarka, og vard fyrir þvi Georgius Scolarius, sem almennelega kallast Gennadius, og sette sialfur Mahomed hann inn med venjulegre Vidhøfn og Cerimonium. Þegar Mahomed hafde nu þannig nààd til sijn þvi austlæga Keisara Dæme, aared 1453. lagde hann eirnig aared 1461. þad Tra-

pezundiſka Keiſara Dæme under ſig, ſem upp rett var 1215. og het ſa fyrſte Keiſare þar Alexius Comnenus, enn hinn ſijdarſte David. Þannig fell þad megtuga Keiſara Dæme hinna Griſku, Tyrkium i Hendur, og hafa chriſtner maatt ſæta þvongum Alogum af þeim, ſo þad eige ad heita, ad þeir hafe ſijdann haft ſinn Patriarka i Miklagarde, ſem opt mą danſa epter þvi, ſem Tyrkiarner ſpila edur kveda fyrir.

## 2. Um þa Veſtlægu edur Romverſku Kyrkiu.

34. Hvad toku þeir Romverſku Paafar ſier fyrir Hendur, i Tillite til Guds Kyrkiu vidvorteſ Stioornunar?

Vier ſiaaum af þvi ſem aadur er aavikid i næſt fyrirfarande Capitula, hverſu þeir Romverſku Paafar hofdu komeſt til ædſtu Metorda, ſo þeir nu tignuduſt ſem allsheriar Biſkupar, og vildu aaliitaſt ſem Chriſti ædſtu Umbods Menn, jafnvel þo þeim i þeſſu være nockur Mootſtada giord

af

af Miklagards Biskupum, enkum Photio: Þeir voru lyka ordner ad nockru leite verallldleger Furstar, sijdann þeir ad Giof Pipins Kongs og hanns Nidia hofdu eignast mikinn Part af Italia, og England var under þaa Skatt gylldt: Þo vantade þaa enn nu mikid til þess, ad naa under sig þeim Rette, Keisarar Kongar og Furstar hofdu til rettrar Landstioonar, þvi Keisararner Carl hinn Mikle, Otto hinn Rijke, (1. þess Nafns,) og fleyre, letu ei draga sier wr Hondum þann Rett, þeir af Gude hofdu þeged yfir Þegnum siinum. Enn fram epter þeirre Elleftu Old synest, sem Keisarar og Kongar hafe keppst hver vid annan, ad leggia fraa sier þaa Umhyggiu, þeir bera aattu fyrir Velferd Landa og Lyda, sem þeir voru yfirskipader; Enn þar aa moot aalited, sem beinasta Veg til Himens, ad gaanga i Klaustur eda i Blindne ad filgia og trwa þvi, er Þeckingarleyse og Hiaatrw af þeim krafdest til Eblingar þvi Romversta Sæte.

Henrik Keisare, sem kom næstur epter Otto hinn Unga, asette sier ad leggia nidur Rijkes-Stioornina, og ganga i Klaustur, hefde hann ei verid fraa þvi talinn. Kasimir Polina Kongur gaf sig einnig i Klaustur, og sa Grijke Keisare Michael Paphlago: Slijkt hid sama giorde ared 1355. Miklagards Keisare Iohannes Cantacuzenus. Adrer Kongar letu ei helldur sitt til vanta, hvar med þeir kynnu avinna sier Hylle Paafans og þeirrar andlegu Stiettar, hvers vegna nockrer eru færder i helgra Manna Tolu. Enn medann þesser velltust þannig vr Tign sinne, sinaum vier Paafana hafa haft Peturs Sverd oa Lofte. Benedict IIX. er i Brisoste Filkingar moot Serkium, took til Fanga þeirra Drottning og let Hals hoggva. Leo Paafe, IX. þess Nafns, færde Strijd a Hendur Nordmonnum, er hofdu ad rada yfir Pul (Apulia) Calabrien og Sicilien, og var tekenn af þeim til Fanga ared 1053.

Lokſins ſetteſt Hildebrandur, er ſig let kalla Gregorium VII. i þad Paafalega Sæte: Hann ſkorte hverke Harðſeingé, Stadfeſte né Underhyggiu til ad koma þvi i Verk, ſem vantade uppa Paaſanna Yfirdrottnann, og giörde eina Statutu er kallaſt Dictatus, um Paaſans Velde og æðſtu Yferraad 1076. er vera ſkyllde ſem allsheriar Lög i Chriſtnenne. Til hanns Yfirgangs hiaalpade ei all-lijted Oſamheldé þeirra veralldlegu Furſta, þeirra og annara Leik-Manna Hi[illegible], Fegyrnd og adrer Leſter, hvad Hildebrandur viſſe ad færa ſier ſo i Nyt, ad hann, ſem ypparſta Chriſtnenar Höfud, under þvi Skyne hann ætte ſetia maklegar Skrifter Stoorbrota Monnum, og hegna yfirgangande Oſida, t'leinkade ſier þañ Rett, ad hann kynne leyſa þad Fridar og Hollúſtu Band, er ſamteinger Yfer- og Under-Menn til innbyrdes Velferdar, ſo Þegnarner þyrftu ei framar vera Lijd-ſkyllder ſijnum Kongum, enn Paaſenn aleit ſañ-

giarn-

giarnlegt vera; Enda mætte þad ei sanngiarnlegt heita, ef þad i nockurn Mata strijdde moot þeim Yfir-Rꝛdum Paafens eignade sier: Þai het þad enn framar, ad eingenn være Reglulega til andlegs Embættes kominn, er Paafenn ei tilsette; Og ad andlegrar Stiettar Menn væru ei framar under Logsogn veralldlegra, helldur alleinasta þess Romverska Sætes, og vid eingann þann mættu christner Samneyte hafa, sem være i Kyrkiunnar Forbodum. Þesser og þesskyns Lærdoomar, hverium eingver þordu moote mæla, er ei villdu falla i Paafans Bann, voru sem Styttur þess andlega Einvallds Dæmes. Nu trwdu Menn i Paafans Valde være ad afsetia Konga og Keisara, gefa Konga Rijke og taka þau aptur. Henrik IV. Keisare var nockrum sinnum bannfærdur, og þa hann sa, ad sijner Þegnar mundu sig þess vegna yfirgefa, mætte hann fara a Paafans Fund, standa i 6. Dægur samfelld i mesta Froste berhofdadur og berfættur fyrer

Paaf-

Paafans Hallar Dyrum, falla honum til Foota og standa Skrifter: Og þegar Keisarinn var af sumum Þegnum siinum knwdur til ad hefna sliikrar Svijvirdingar, let Paafenn wtvelia annañ Keisara, Rudolf, i Stad Henriks; ættu þeir siidann Bardaga, og fiell Rudolfur æred 1080. Samt var ei Henrike Keisara boded til Kirsetu, þvi Son hanns Henrik sookte epter Riikenu undann Fodur siinum, i þvi Skyne, ad nidur setia þær Ospekter, sem voru millum Fodur hanns og Paafans. Feck Henrik IV. Osigur og deyde 1106. Enn þesse Son hanns Henrik, epter þad hann vard Keisare, reyndest ei so hagselldur þvi Romverska Sæte, sem i fyrstu ætlad var, helldur geck hann i Footspor Fodur siins, kwgade þaa Romverska Paafa nockrum sinnum, uns Paafe Calixtus II. æste so hanns Þegna moot honum, ad hann hlaut æred 1122. vinna þad til Sætta, ad standa af siinum Rette, til ad veita andleg Embætte. Fridrek Keisare, kalladur

hinn Rauð-skeggaðe, [Barbarossa] sette sig einnin moot Paafans Yfirgaange, enn hlaut þo loksins beidast Fridar 1177. og segia nockrer, að Paafenn hafe stijgeð aa Haals Keisaranum, þar hann laa flatur fyrir honum, og sagt: Leon og Hoggorma skalltu under Footum troda; Hver Osstope syneft þo varla trwannlegur. Fridrik II. var einnig dæmdur af Paafanum fraa Keisaralegre Tign. Keisare Hlodver af Bayern, þar hann komst til slijkrar Tignar aan Paafans Samþyckes, var bannfærdur og affettur af Paafanum Clemens VI. Ared 1346.

Ei einasta giordu nu Paafarner þannig hardleikid Keisurunum, helldur maattu Kongar og Furstar læcka Seglenn fyrer þeim og innlendum Biskupum, hveria Paafarner tooku i Forsvar og brwkudu til Eblingar sijns Einvaldsdæmis. So siaaum vier, ad þegar Kasimir feck sig lausann wr þvi Klaustri, hann hafde inngengeð, lagde Paafenn Skatt uppaa þaa Poolsku

Herra

Herramenn, er so gott sem neiddu Kasimir til Rikesstioornarenar. Henrik Kongur mætte taka England i Lien af Pæfanum 1173. hver þo leinge hafde forsvarad sinn Rett moote Pæfanum og Thomase Erke-Biskupe i Kantara Borg (*). Innocentius III. bannfærer England, og dæmde Johann (sem kallast Sine Terra) fraa Rijke, enn so hann hefde nockud vid ad stidlast, feck Pæfenn hönum i Hendur, sett.

(*) Þesse Biskup, sem orsakade mestu Ospekter i Englande, og kom þvi til leidar, ad þad heila Rijke var sett i Bañ, var epter siñ Dauda settur i Helgra Maña Tolu af Pæfanum herum 1170. Eñ i hvada ælite hañs Helge hafe vered i Englande, maa raada þar af, ad i þeirre stooru Kyrkiu, sem er i Cantaraborg, hvar Christo var iñvigt eitt Altare, añad Jomfrw Mariu og H. Thomase hid þridia; Þaa var Offrad æ einu Are til Christi Altaris 41. Pd. St. Jomfrwr Mariu 822. Pd. eñ til H. Thomasar 10828. Pd. eñ þo var Offred oiafnara Are sidar, þvi Christur feck eckert, Maria 53. Pd. eñ Thomas 12400. Pd. Holb. K. H. P. 2. p. 91.

sem Umbods Manne, England og Irland Arid 1213. Og er ofiangt upp ad telia slijkann Pafanna Yfer-gang; Eñ eg legg þetta Dæme til Foota hinna: Jacob Erlendsson Erke-Biskup i Lundi kom til Vegar þeirre Aliktan a einum Samfunde er haldenn var a Jotlande 1256. i Tijd Christofors I. Dana Kongs, ad Veraldlegt Yfervald mætte ei straffa nockra Osidu, jafnvel þo Landrada-Sok være, sem Biskuparner ad hofdust; So ef Kongar i slijku Tilfelle vildu framfilgia Lands-Logum og Riette, fiellu þeir i Bann af siaalfu Verkenu, og þeirra Undersaatar aalitnir leyster, ad Pafans-Logum, fra sinne Þegnskylldu. Þad vestlæga Keisaradæme og þau nordlægu Rijke i Nordur Alfunne voru nu ordenn ofþraung Pafanna Metnade, so nu var einasta epter ad faa komed under Pafans Ok þvi Grijska Keisaradæme. Þess vegna reyndu Pafarner med ollu Moote til, ad þeir Sofnuder, sem lagu under Patriarchann i Mik-

lagarde samsyntu þeim Lærdoomum, er vid tekner voru i þeirre Romverſku Kyrkiu, ad þeir þar epter medtæku ſig, ſem þeirra andlegann Fodur og ædſta Hirder: Og ſkede þad, ad þeir Griſku Keiſarar, til ad niota Paaſans Filgis moote ſijnum Fiandmønnum, letu ſig um Tijma leida til ad ſamþyckia ſlikt .; Enn þad ſyneſt opt-aſt vered hafa ad Yfirbragde. Eingu ad ſijdur var Paaſenn ælitinn i þeirre Romverſku Kyrkiu ſem Gud aa Jordunne, er ecke einaſta eignade ſier Valld yfer Keiſ-urum, Kongum og Rijkium, helldur og ſem ſaa, er hefde Lykla Himnarijkis og Helvijtis; hvad ſyna hanns Bannfæringar og Inntøkur i Himinjnn [Canonizationes]. Til ad ſtødva Paaſans Yfergang, og minka nockud þad Alit, hann var kominn i, þienade einkanlega þrent: (1. ad Cardinalarnir urdu optlega ei aa eitt ſaatter hver Paaſe ſkyllde vera, og voru þaa ſtundum 2. i ſenn tvtvallder; Skede þad og þraavallt, epter þad Paaſ-

arner

arner Clemens V. og hanns Epterkomar-
ar, hofdu teked sier Adsetur i Avignon i
Franka-Rijke, sem varade her um̃ 70. Ar,
ad þeir i Italien utvoldu Italiskañ Paafa
enn Fransker Franskann, og varade þesse
tvijhofdada Stiorn fraa 1378. i 50. Ar:
Urdu þesser Paafar ad leita sier Fulltijng-
es hiaa Keisurum og Kongum, og þessveg-
na i sumu lægia sinn Metnad; Bañfærde
saa eine Paafe þann annañ, og Onijtte
hver þess annars Giorder, og lyktade slik
Deming ei fyrr eñ annar hver var af Bake
ridenn: Saa þaa so wt, ad eingin End-
er munde verda aa slikum Ospektum, i
þeirre Romversku Kyrkiu, ef ei hefde ver-
ed funded nijtt Raad, sem er þad Annad,
er reiste Skordur Paafanna Ofolande
Yfergaange, og var þad ad halda Bisk-
upa Þijng, aa hverium wtkliaast skyldu
uppkomnar Mis-Klijder. Voru tvær
slijkar Samkomur einna merkelegastar
um̃ þessar Munder: Sw fyrre var hald-
enn i Pisa 1409. hvar tveir Paafar i señ

voru affetter, nefnelega, Gregorius XII. og Benedict XIII. enn valinn aptur til Paafa Alexander V. sem deyde 1410. og kom i hanns Stad Johann XXIII. so nu voru 3. Paafar i senn uppe, i mesta Mato Sundurþicker. Hin siþari Samkoma var sett 1414. i Stadnum Costnitz, fyrer Tilstille Sigmundar Keisara, og var þessum 3. Paafum þangad stefnt. Johann mætte; Enn þa hann saa, ad flester voru sier mootsnwner, strauk hann af Þinge þessu, og feck þann Doom, ad hann skillde, sem skadlegur Orooa Madur, setiast i Fangelse og missa Embættед. Gregorius lagde goodviluglega fraa sier siin Vold, enn Benedict vardest um Hrijd, var hañ þo loksens afsettur 1418. Þaa þessu Þiinge var slited, og Marteiñ hinn V. þess Nafns, var wtvalenn Paafe i hinna þrigga Stad. Her af er aud sied, ad þesse Biskupa-Þiing, drogu under sig þann Mindugleika, Paafarner hofdu ádur eignad sier, og giordu þaa sinne Log-

segu

sogn undergefna, hvar fyrer þau ei einasta urdu Páfunum harla geigvænleg, helldur synduſt fleirum Oþolande, þar nu var ecke vid eiñ helldr marga allsheriar Doomendur, og þá marga stundum ráangsnuna, ad eiga; Hvors vegna Páfarner epter Aared 1455. komust til sinar fyrri Tignar, og fooru þvi þá fram er þeim syndest; hvar fyrer og nockrer, einkum Alexander VI. skuldast fyrer Oheyrelega Glæpe, so aller dugandis Menn æsktu Lagfæringar á þeim Hlutum, sem komu vid Lærdoomenum og Sidferdenu. Undanfarner Tijmar hofdu upploked margra Augum, er sáu nu á hverium Grundvelle Páfans ædsta Makt var biggd, og i hvada Olag Christendoomurinn var komenn. Her vid bæteſt þridia Orsokeñ, sem ad nockru leite hindrade Páfanna frekare Yfergang, nefnelega, ad Bookleg-ur Menter tooku merkelegum Framforum á þeirre 14. og 15. Old, hvar til ei alllijted hiálpade, ad þá var funded upp á

ad prenta Bækr (*); so ad nockru leite glidnudu i sundur þau þicku Skij Vanþeckingar og Hiatrwar er ædur æ skygdu, og nockrer rettsiskader Guds Menn, er logdu sig eptec Lestre Heil. Ritningar, leiddu i Lioos, ad skilanlegar Villur og Ogudlegt Athæfe, sem vidgeingest hofdu i þeirre Romversku Kyrkiu, jafnvel þo þeir, sem Pæfans Drætte fijlgdu, uppe helde Guds Orda Sannleika i Ræanglætinu (Rom. 1. 18.)

35. Hvijlijkt var Asigkomulag Guds Dyrkunar i þeim Papisku Sofnudum um þessa Tijma?

J.

(*) Par eru ymsar Meiningar um, hvenær og af hverium sw Iþroott, ad prenta Bækr, hafe fyrst vered uppfunden. Sumer nefna hertil Johañ Guttenberg i Mayntz 1439. Adrer Johañ Faust, sem let þrickia Bibliuna 1462. Po synist þeirra Meining hvad lijklegust, er seigia þesse I-þroott sie i fyrstu uppkomen i Stras-Borg 1436. eñ sijdañ af adur tiedum Prentverka Forstioorum og eñ fleirum smam-samaã endurbætt. Vorn Bookstafe ner fyrst utskorner i Tre og Ai ked þrickt einasta Odrumeigen so hver tvo Blod urdu samañlijmast.

J ſaam Ordum ſad ſeigia : Þar var þad hid aumaſta. Lioos Guds Heil. Orda var nær þvi wtſlockt, ſo allur Fiølde ræfade i Myrkrum Þeckingarleiſeſens aa þvi eina Naudſynlega. J þeſs Stad, ad Kennendurner ættu ad biggia yfer þann Grundvøll, lagdur var i Ondverdu af Chriſto og hanns Læreſveinum, var nu Trwarennar og Sidanna Lærdoomur bigdur aa Þarſanna Setningum, Munka Diktum og Vitrunum. Þeir ſem ødrum Lærdare þooktuſt, giørdu wr Guds Orde og Frædum þeſs heidna Spekings Ariſtotelis nockurskonar Sam-ſteipu, hvar af flooknar Spurningar ſpunnuſt og Oandlegar Þraattaner; Og þar rettre Þeckingu aa þeim Hlutum, ſem tilheyra ſanuri Guds Þioonkan, ſoor þannig hnignande, þaa ſoor þar epter Liſnadurenn, einkum þeirra, er Vøkumenn ſkildu heita aa Zions Mwrveggium. (*) Og þar Hiaatrwen,

 ſw

(*) Herum ritar viſs Madur aa þeirre 13. Øld þañig : "Satan ætte ſier 2. Dætur,

ſiv Dreypſott rettſkickadrar Guds Dyrkunar hvad epter añad, ſo fiolgudu einar og adrar Nijungar i chriſtelegre Kyrkiu. P:tur, Franſkur Eremite iñfœrde œ þeirre Elleftu Old i Nordur-Alfuna þann Sid, er œdur fyrre var brwkadur af Serkium og Indverſkum, ad nefna viſs Nofn Guds eda helgra Manna vid nokrar Tolur, er feſtar voru œ Band, er ſijdann kalladeſt Rooſa-Krants. A þrettandu Old ſamañ tok Dominicus(*) Rooſagard

Fegyrnd og Ofneyſlu; Hina gipte hañ Sydingum, eñ þeſsa Heidingium; eñ Klerkar rœndu þœ þeim, og vildu ei adrer nytu þeirra." Hvar med hañ bender til þeirra Hofud-Synda, ſem œ hañs Tijmum hofdu feingid ofmikla Yferhond.

(*) Dominicus de Guzmañ var Spanſkur Edalmadur, fœddur 1170. er predikade moot Albigenſibus, og ſtiptade þœ megtugu Munka-Stiett, ſem kallaſt Dominicani, lijka Predikara-Munkar. Hañ deyde 1221. og var af Pœfa Gregorio 9. ſettur i helgra Mañа Tolu Ared 1235.

gard [Rosarium] Mariu, sem eru vissar Bæner til hennar, sem lesast skulu mille þess ad Menn 150. sinnum hafa avarpad hana med Engelsens Kvediu: Ave Maria! Þad Ar 1214. var a einu Biskupa Þijnge samþikt, ad Menn skyldu hid minnsta einusinne a Are skriftast fyrir sijnum retta Sooknar-Preste, og voru Menn vaner ad giora þad, annadhvert a Paska-Dagenn eda Lannga Friadag. Innocentius hinn V. tilsette a hinne Fiortandu Old eina Hatijd til Endurminningar þess Spioots, med hveriu Christi Sijda var opnud, og þeirra Nalga, hann var festur med vid Krossenn; Hvad ad nockru leite vorkennast maa þessara Tijma Einfeldne: Enn hitt verdr sijdr affsakad, ad Benedict XII. uppabaud eina Hatijd Sara-Ora Christi, er hinn H. Franciscus skylde hafa haft a sijnum Lijkama, hvar fyrer Papistar sumir hafa kallad hann Christum Typicum. (*) A þessare Old var stadfest af



(*) Þesse Franciscus, er fæddur i Italien,

Clemens V. Paafa Christi Liikama Hatijd, sem vier kollum hinn Dijra-Dag, og Urbanus VI. tilsette Vitiunar Hatijd Mariu, og onnur sijdar meir var i Miñing hennar syndlausa Getnadar stadfest af Paafa Marteine V. Loksens vil eg geta nockra þeirra raangra Lærdooma, sem uppkomu edur ebldust aa þessum Tijmum i þeirre Romverſku Kyrkiu. Hioonabanded var rotþrickelega bannad andlegrar Stiettar Monnum ondverdlega aa þeirre Elleftu Old, so þeirra Eignir ei lenda skildu hiaa Leikmonnum, þo siaa Menn ad Rijkur Ovane hafde ei Framgaang i Danmork, fyrr enn her um 1120. Saa Lærdoomur um þau 7. Sacrament var aa þeirri

gaf sig fraa veraldlegum Umsvifum 1206. og plaagade so siñ Liikama, ad yfergeck Mañlega Haattseme. Hañ stiptade þaa adra stooru Munka Ordu, sem kallast Snijkiu-edur Hwssgaansstiett, þar þeir hana iñgeingu aattu lijfa af Olmusum. Þeir kallast einig hinir berfættu Munkar. Franciscus deyde 1226. og var Canonizeradur tveim Arum sijdar.

Þeirre Tolftu Öld vidtekenn, og a Þvi Biskupa Þijnge, halded var i Rom 1215. var stadfestur sa Lærdoomur, ad Braud og Vijn i Altaresens Sacramente umbreitteft i Christi Lijkama og Blood, hvar af kom, ad sw Vijgda Oblaata var alitin sem Christi sannur Lijkame, og henne skilde Þvi sama Dyrkun veitast, sem sialfum Christo: Og hefur eingin Villa framar steipt Mönnum i Afgudadyrkun og Hiatrw, enn Þesse. A Þvi Biskupa Þijnge, sem halded var i Costnitz 1415. var aliktad, ad Brauded i Sacramento Altaresens, skylde einasta wtdeilast Leikmonnum, enn Braud og Vijn, Prestunum. So kollud Aflaat (sem i fyrstu sijnast vered hafa Uppgiøf Sekta og Þintinga; sem Stoorbrota Menn epter Þaafsans Logum fellu i) sneruft a Þessum Öldum i Ogudlega Vanbrwkun, Þar ed Þaafarnir, fyrer vissa Þooknan, uppgaafu drygdar og Odrygdar Synder ei einum einasta medan hann lifde, Þelldur og stundum i morg

Hundrud Ar, epter það hann var dauður. Erke-Biskupar og Biskupar gæfu einnig Aflaat uppa nockur Ar eda Daga, og voru sumer af þeim æ þessu nærsta riiser.

36. Hverier voru þeir, sem eina helst settu sig moote raungum Lærdoomum og vondu Framferde, sem tiidkadest um þessar Munder i þeim Papisku Søfnudum?

1. Valdenses, einn adgreindur Søfnudr i Franka-Riike, er feck Nafn af þeim Manne er het Petur Valdus, hver ed vtlagde Heilaga Ritning æ sitt Moodur-Maal, og i siinum Predikunum leidde i Lioos Oskæmelegt Framferde andlegrar Stiettar Manna. Hann og þeir hanns Lærdoomum filgdu kalltu Paafan ei framar enn annan Biskup. Hreinsunar Elldinn, Sæalumessur, viigt Vatn, Bylæte, helgra Manna Tilbeidslu og ønnur Hindur Vitne fordæmdu þeir; Sunnudaga helldu þeir helga, enn adrar Hætiider ææ litu þeir sem mannlega Setninga. Marger fellu i Sid med þessum, og sier i Lage so kall-

kallader Albigenses, sem syndu sig ei sjidur mootfallna Pafunum enn hiner. Her af kom, ad Paafenn og þeir hanns Drætte filgdu, lögdu alla Stund a, ad uppræta þessa Sannleikstins Votta, og voru af þeim, her um Siotijge Pusunder, drepner Areð 1208. Hiner, sem undan komust, lifdu a Mörkum og Skoogum, og bar ei, eda næsta lited, a þeim, fyrr enn Wiclefitar og Hussitar kendu opinnberlega vidlijka Lærdoom. 2. Johann Wiclef, fæddur 1324. var Professor og Doctor Theologiæ i Haaskoolanum Oxfurt a Englande. Hann wtlagde H. Ritning a Enska Tungu, skrifade gegn Paafanna Of-miklum Yfirgaange, gegn Munkanna og einna hellst þeirra af Predikara Lifnade, Otierlegum Lijfernes-hættum, og gegn adskilianlegum Villum, sem viðteknar voru i þeim Papisku Sofnudum; Og vid þetta hellt han til sijns Dauda Dags, sem skede 1387. Enn hanns Lærdoomur doo ei wt med sjalfum honum; þo hanns Ritværu

um og kom wt hingad a Peturs-Bollanum 1358. og var her Biskup 33. Petur.

15. Petur Nicolausson, Danskur, setteſt ad Stoolnum 1392. deyde herum 1402

16. Epter þad Petur deyde var Biskups laust a Hoolum (*) til þeſs Jon Tofa Son var þangad vijgdur, og var hann a Stoolnum 4. Ar, til þeſs hann deyde 1423. enn Biskup syneſt hann vered hafa her um̃ niju eda tiiu aar.

17. Jon Jonsſon, kom til Stoolsins fraa Englande 1427. voru Nordlendſker treger fyrir ad taka moote honum og for hann hedann af Lande 1429.

18. Jon Wilhialmsſon kom til Stoolsens 1429. foor hedan af Lande 1436. og var Biskup Gottſveinn Tilſioonar Madur Hoola Stiftes til 1444.

19.

(*) J Stadar backa Kyrkiu Maaldaga, sem finnſt i Audunar Biskups Maaldaga Book, er geted Beinirs Biskups, sem syneſt her vered hafa ſkam̃a Hrijd mille Peturs Biskups og Jons Tofasonar.

19. Gottskalk Gottkalksson, Norskur Edalmadur, vard Biskup 1442. enn kom til Stoolsens 1444. var Tilsioonar Madur Skalholts Stiftes i 8. Ar. deyde 1457.

20. Olafur Rognvaldsson, Frænde Gottskalks; Fyrst Prestur i Odda, siidann at Breidabolstad, siglde epter Biskups Wijgslu 1458. og kom wt 1460. deyde 1495.

21. Gottskalk Nicolausson, kosen til Biskups 1497. var sijdan vijgdur af Gauta Erke-Biskupe og kom til Stoolsins 1499. Hann kallast af sumum: Hinn Grimme; Þo er ei ad sia, hann hafe hardrædare edur ofælnare vered enn sumer hanns Formanna. Hañ deyde 1520.

22. Jon Arason fæddur 1484. var kosen til Biskups af Nordlendingum 1522. var vijgdur i Norvege og kom wt hingad 1525. Hellt fast med þeim Papisku Trwarbrogdum, og var asamt Son-

num

um sijnum Ara Logmanne og Sr. Byrne, Halshoggvenn i Skalhollte um̃ Haufted 1550.

24. Hvad kun̄um vier draga oss til Hugleidingar af þessu?

1. Vier siaum vissann Guds Doom og Straff yfer þeim, sem rangsæra hains Ord og ei breita epter þvi; Einnig hversu Prættanir og innbirdes Hatur steipa Londum og Lijdum i Olucku, sem sijner Epterdæme þeirrar Grisku Kyrkiu og an̄ara Safnada i Austuralfun̄e, sierdeiles þeirra i Gydinga Lande.

2. Þa Menn hafa ei retta Þecking a Gude og hanns Vilia, falla þeir til Hiatrwar og i þa Leste, sem rettbrwkud Skinseme jafnvel ei sampicker, hvad siaa maa af þeirre Romversku Kyrkiu.

3. Vantrw og Ogudlegt Athæfe hefur alldrei fengid so Yferhond i Heimenum, ad ei hafe fundest rettskickader Guds Dijrkendur, er ei hafa tilbeded Dyred, nie tekid vid þess Nafne og Audkenningar

Merke

Merke (Apoc. 13.) hvad sieſt a Wiclefitum, Huſſitum og odrum Sannleikans Jatendum.

4. Þegar Neydenn er hærſt, er Guds Hiaalp næſt: Þa Guds Soſnuder voru komner underh:d þyngſta Anaudar Ok, ſende Gud þm̃ Frelſe, fyrer ſin trwlynda Þienara Lutherum, ſem ſieſt af þvi epterfilger.

# Fim̃ti Capitule.

## Um̃ hid merkelegaſta ſem til hefur bored fraa þvi aare 1500 til 1774.

43. Hvad er eiña hellſt Miñesſtædt a þeſſum Tijmum?

1. Hverſu Endurboot Trwarbragdaña vidgeckſt, og 2. hvijlijkt ſie og vered haſe um̃ þeſſar Munder Aſigkomulag þeirra hellſtu Safnada, er keña ſig vid Chriſti Lærdoom.

* *

44. Hvijlijkt var Aſigkomulag Chriſtelegrar Kyrkiu ondverdlega a þeirre 16. Old, adur en̄ Lutherus took ſier fyrir Endurboot Trwarbragdanna?

Allur

Allur Fiolde um heila Christenndoomenn Lasade i mestu Poku Hiaatrwar og Peckingarleisis. Sw sanna Guds Dyrdkan var aalitenn framar ad vera innefalenn i wtvortes hiegoomlegu og stundum hneixlanlegu Laatæde og Vidhofn, enn þeirre Pisoonkan, er ske aa i Anda og Sannleika. Paafans Yfirdrottnan var Opolande. Lijserne og Lærdoomar hans Sendesveina stefndu til þess med ollu ad briota þad nidur, sem vidhelldur goodre Lands-Stioorn og Betrun Lærdooms og Sidferdes; Enn þar Booklegar Menter voru aa nærst undanfornum Oldum komnar aa ædre Troppu, enn aadur fyrr meir, og Sannleikans Lioos hafde skoted sijnum Geislum i ymsar Atter, þo þeir, sem þad tendrad hosdu, væru af Paafans Makt underþryckter; Þaa voru marger, er af Alvoru gyrntust, ad Boot mætte raadast aa þvi, sem Andhæles tilgeck i Christendoomenum; enn slijke kunne ei ske, nema Paafans Velde og Setningum være mootþægt, sem af Al-

menn-

menninge var halldeð hið sama, sem að færa sialfum DRottne Strijð a Hendur: Mektugustu Keisarar og Kongar hofðu hingað til forgefens haft allann Vilia a að setia visś Takmørk Pafanna Yfirgange, enn so sem það var Guds Verk, að framleiða i Ondverðu Liosed af Myrkrenu, so visse hann einnig a hentugum Tijma, að skioota sijnum Geislum (so sem David til Orðs tekur) til að skielfa sijna Ovine, og Frelsun veita siinu Foolke, af Hende þeirra aūarlegu Barna, hverra Lærdoomur er Onytsamlegur og Verk sviksamleg.

45. Hvert var sierdeilis Tilefne það, hvar fyrir Pafans Yfir-raað fengu so merkelegann Hnecker?

Þegar Leo Pafe X. þess Nafns, hafðe með Ohoofe og Stoorgiøfum nælega tæmt sinar Fiaarhirðslur, took hann það til Bragðs, að læta predika Aflaat vijða um Christendoomenn, og selia þau fyrer Peninga. Hann feck af Albert Erke-Biskupe i Megintzu Borg að takast þetta

Starf

Starf a Hendur siin vegna um̃ Þidska-Land; Enn Erke-Biskupenn feck til Johann Tezel, Broodur af Predikara Lifnade, Oskam̃feilinn Ordsnap, ad selia Pafans Aflaatsbrief um̃ Saxland: Kvad Tezel þad upp fyrer Alþijdu, ad men̄ ei einasta kinnu med þessum Hætte, fyrer wtlagda Peninga, faa Kvittun drygdra og Odrygdra Synda, helldur og kinnu þeir leysa Vine sijna og Vanda Menn wr Pijslum Hreinsunar-Elldsins, so þeirra Saaler flijge einmidt til Himins, under eins og saung i Maalm-Skaalenne, i hveria Peningunum var varpad. Þannig rakade þesse Boose miklu Gialde samann, enn eingen̄ þorde open̄berlega ad mæla her a moote fyrr enn Lutherus, sem þaa var Lære-Fader i Gudvisinne vid Haaskoolann i Wittenberg a Saxlande. Þesse Madr af Gudlegre Vandlætingu upphvättur, samann toek Aared 1517. Niutiger og fim̃ Greiner, dreignar wr helgre Ritningu, um̃ Fyrergefning Syndanna, og forsvar-

ade

ade þær opennberiega i Haſkoolanum; hvar med hann rak til baka Þvætting Tezels og hans Kumpana. Þeſſe Fyrertekt Luthers várd Vonum bradara hlioodbær um Þijdſkaland og nálæg Rijke, ſo marger ſettu ſig a moote þeſſu Aflaata Krame medal hverra einna fyrſtur var Preſtur nockr i Zürch, er ligg i þvi Rijke Schweitz, ſem het Ulrik Zvinglius.

46. Hvad took Paaſen til Bragds, er hañ frette þetta?

Hann fordæmde Lutherum og hanns Greiner þann 9. Nov. 1519. en þeſs Lutherus kiæme Vornum fyrer ſig; Vilde ſa Fridrik Kiør-Furſta i Saxen ad reka Lutherum wr ſijnu Rijke, nema hann apturkallade ſitt Skrif; Hveriu Lutherus þookteſt ei med goodre Samvitſku hlidt geta, nema ſier yrde nockur Villa, med Greinum Heilagrar Ritningar, uppaa ſonnud: Var hann þvi Are ſijdar af Paafanum bannfærdur, og þær Bækur, er hañ hafde ritad, voru brendar i Room.

Þett

Þetta Bann beit ecke a Lutherum, helld-ur, so hann gilde lijku likt, brende Paafans Løgbook i Vidurvist flestra þeirra, er i Wittenberg løgdu sig epter Booklegum Mentum. Fyrer Aeggian Paafans stefnde Luthero Carl V. Keisare til þess Moots, halded var i Worms 1521. hvar Luther mætte og mz stærstu Einørd forsvarade sinn Lærdom; Og þar hann hverke fyrer Fagurgala nie Heitingar hinna Papisku, vilde falla fra þvi sem hann hafde kendt, dæmde Keisarenn hann utlægan wr sijnum Rijkium; Enn Fridrek Kiør-furste, kalladur hinn Spake, skaut honum undann, og falde hann a Warteborgar Slote, hvar hann var halft annad aar, og for sijdann til Haaskoolans i Vittenberg.

47. Hvad hafdest Lutherus nu ad?

Hann ritade margar nytsamlegar Bækur bæde i Latinu og Þijdsku, leidde i Lioos Paafadoomsens Villur og under eins þann hreina Evangelii Lærdoom. Medal annara Nytsemdar Verka samann took hann

sinn litla Catechismum 1529. og snere aa Þijdverskt Maal þeirre Heilogu Ritningu. Og, sem nu upplukust allmargra Augu, so wtbreiddest hreirn Guds Orda Lærdoomur vijdast um Þijdskaland og nalæg Rijke. Fridrik I. Dana Kongur leifde sijnum Þegnum 1527. ad filgia Lutheri Lærdoome, enn Son hanns, sa Odaudlegi Kongur Christian III. innleidde ad fullu og ollu þau Evangelisku Trwarbrøgd i oll sijn Rijke. Gustav Eyriksson Svija Kongur stadfeste þau somu i sijnu Velde 1528. og bader þesser stooru Kongar komu þessu Mikla Verke til Vegar, aan þess ad uthella þar fyrer Bloode Þegna sinna.

48. Nu þar Evangelii Lærdoomur wtbreiddest so vijda, let þaa Paafinn og þeir hanns Drætte silgdu, vid so bwed standa ?

Þad foor fiærre. Paafenn aa samt Carl. Keisara og Broodur hanns Ferdinand, einig Frantz Fracka Kong: logduft nu aller aa eitt Raad, ad under þrickia Lutheri

Lær-

Lærdoom og var Samfundur haldenn þar um̄ 1526. i Speyer (er þa var einn Friistadur þess Þijdska Rijkes): eñ miña vard ur þessum Funde, enn til var ætl-ad, þvi su vard Aliktuneñ, ad Menn skilldu bidia Keisarann ad kalla samann, epter Dæmum hinna fyrre Keisara, riett Als-heriar Biskupa Þijng, til ad skera ur Træ-arbragdanna Þrætum, og a medañ kiñu Menn ei framfilgia þvi sem aliktad var i Worms. Þess vegna tilsette Keisarinn annann Samfund i Speyer 1529. hvar Ferdinand Kongur i Keisarans Nafne giorde þa Aliktan, ad eingum leifdest ad falla fra Gomlum Atrwnade. Imoote þessare Aliktun stoodu og protesterudu Johañ, kalladur hiñ Stoduglynde, Kior-furste i Saxen, Brooder og Erfinge Frid-riks, og adrer Furstar og Stader, er Vidtoku hofdu veitt Evangelii Lærdome: Hvar af kom, ad þeir sem fellu fra þeirre Romverskú Kyrkiu um̄ þessar Munder kolludust almennelega Protestantes, eins

og fleire sijdar, er i þeirra Footspor gengu. Af þessu vard Keisarenn mjøg reidur, og skipade fortakslaust, aller skildu hlijda þvi, sem Aliktad var i Worms og Speyer, bætande þvi ofann a, ad þeir, sem ei vildu kasta þeim Nijmælum i Trwnne, sem Lutherus foor med, skildu sæta af sier maklegum Refsingum.

49. Hvad took Keisaren sier eñ framar fyrer? Þar nu miøg Rostusamt var orded i hañs Vijdlendu Rijkium, og hafde i Raade ad færa Tyrkium Strijd a Hendr, hellt hañ raadlegast ad sefa þær Misklijder upp voru komnar i Rijkiunum, og þar fyrer tilsette hann eina allsheriar Samkomu i Augsborg. (*) Fyrerlidar þeirra, er filgdu Lutheri Lærdoome, feingu af Keisaranum, ad þeir mættu a þessum Funde opinberlega upplesa sijna Trwarjatning, so þar af sæest, hvar fyrer þeir hefdu skilid sig fraa þeirre Roomversku Kyrkiu, og hvert sañ-

ar

*) Augsborg liggur i Þijdskalande, og er Frij-Stadur.

arværu uppa þa þær Villur, er þeir Papistu skulduðu þa fyrer. Þessa siina Jatning afhentu þeir, og var hun opinnberlega upplesenn 25. Jun. 1530. hverrar Inntak Luther i fyrstu samantook, enn sa Hailærde Madur Philippus Melanchthon færde i liðugann og skilianlegañ Styl. Þesse Jatning er adgreind i 28. Cap. af hverium 21. inne hallda þeirra Lærdoom, er viku fraa Paafadoomsins Villu, enn hiner 7. Cap. geta þeirra raangra Lærdooma, sem helst vidgenguſt i þeirre Papisku Kyrkiu. Þesse Trwar-Jatning er ein Hofud-Book i þeim Evangelisku Søfnudum, sem siiner greinelega Grunndvoll og Hofudgreiner þeirrar Trwar, er þeir vidurkenna; Og er þess vegna rettelega kollud Liber Symbolicus hinna Lutheranisku. Þeir Papisku villdu þessa Jatning med einu Skrife til baka reka, enn Philippus svarade þeim skoruglega þar uppa og Onytte þeirra Astædur. Loksens skede sw Uppsøgn Keisarans þañ

19. Nov. ad hvad Aliktad var til Vorms skillde Oriwfanlega halldast; Menn skildu ei falla frá þeim forna Atrwnade, ei taka fyrer sig nockra Umbreiting í Lærdoome ni: Kyrkiusidum, og þeir sem hofdu brotest umdann Pafans Valde skildu innann farra Mánada ganga til Hlijdnis. Þo lofade Keisarenn því ad hann villde sia til, ad eitt rett Biskupa Þijng yrde tilsett, hvar fullur Doomur skillde ganga í þeim Missklidum upp voru komnar.

50. Stodvadest ecke þesse Ofridur lökkens?
Hann stodvadest ad vijsu umm Stundar saker; Þvi þar ed Keisarenn þurfte ad nidur setia þær Ospekter, sem upp voru komnar i hanns Rijkium, og þar þeir Lutherisku Furstar hofdu giort Sambands sijn a millum í Smalkald (*) til ad veria Lijf sitt og sinna ef a þaa være leitad, þa hlaut hann, epter margar Raadslaganir, gefa fullkomid Leise þeim Lutherisku i Þijskalande

lande

(*) Smalkald er vænn Stadur, sem tilheirer Land-Greifanum af Hessen-Cassel.

lande, ad halda vid sinn Lærdoom, þar til Almenñt Biskupa Þijng yrde hallded. Þesse Aliktan skede i Nurnberg 1532. Um̃ þetta Bil deyde Johañ Kiorfurste i Saxen, hverium i Rijkes Stioorninne filgde Sonur hanns Johann Fridrik, uppaliñ i þeirre Evangelisku Trw, hinn oruggaste i øllum Mannraununum, enn ei jafnt sigursæll. Keisariñ, so hañ hellde sijn Heit, herdte ad Pafanum ad hañ skilde til setia eitt Allsheriar Biskupa Þijng, hver ed epter mörg Undanbrøgd og Vijfelengur sette þad fyrst i Mantua, sem er einn stoor Stadur i Italien, hvad þeir Evangelisku Furstar, vissra Orsaka vegna, kunnu ei samþickia, enn letu til vara uppsetia af Luthero 1536. þær so kølludu Smalcaldisku Greiner, sem eru Utskiring yfer nockra Parta Trwar-Jatningarennar, sem fyrr var upplesenn i Augs-Borg, og hveriar þeir ætludu sier fram̃ ad leggia a Løglegre Samkomu, ef vr henne yrde. Paafeim sette aa nij eitt Biskupa Þijng 1542. i Stadnum Tri-

dent, er liggur gagnvart Jtalia, (Greifa Dæmenu Tyrolis, eñ þar þad ſkede einaſta ad Yfer-Varpe i fyrſtu (þvi hann viſſe hvada Mundugleika ſlik Biſkupa Þijng hofdu fyrrum tilæinkad ſier) þaa hlaut haн ad ſetia þad aa nij i Sama Stad 1545. Epter þad Keiſarenn var nockurn veiginn ordinn Ottalaus um ſijn Efne her i Nordur Alfunne, og hafde læteſt vilia aa einne og annare Samkomu koma Sættum aa millum Papiſkra og Evangeliſkra, enn ætijd med þeim Skilmaalum, ſem þeſſum voru Oþolande, þaa ſagde hann þeim (Evangeliſku) Strijd aa Hendur. Saa Mikle Guds Madr Luther deyde um ſomu Munder, nefnelega 18. Febr. 1546. (i Eisleben, er liggur i Greifadæmenu Mansfeld i Thyringen, hvar hann var fæddur), aa 63. Alldus Are.

51. Hverſu geck til i þeſſu Strijde og hver urdu þeſs Endalok?

Eydelegging þeirrar Evangeliſku Kyrkiu var aalyktud mille Paafans og Keiſarans;

Faiin

Fann þesse þad til, ad faer af þeim Lutheranisku mættu a þvi Þinge, er hann hafde sett i Ratisbon 1546. og sette þvi i Rijkesens Bann Kiorfurstañ Joh. Fridrik i Saxen og Philippum Land-Greifa i Hessen, sem hellstu Hialpar Menn voru þeirra Lutheranisku Safnada i Þidska-Lande. Her af hoofst þad so kallada Smalkaldiska Striid, millum Keisarans og þeirra Lutheranisku Fursta. Hofdu ymsir Sigur i firstu; Enn loksens yferfell Keisarans Her Ovorum nefndann Kiorfursta i Saxen, took hann til Fanga og svipte hann Rike og Frelse. Mauritz her einn hinn oruggaste þeirra Sveitar-Hofdingia, er filgdu Keisarans Merkium, hver ed fekk hia hønum fyrer siina dyggva Filgd Uñidæme Fødur-Broodur sijns, þess herteknа Kiorfursta, og fekk Mag sijnn Philippum Land-Greifa til þess, ad fara vilugans a Keisarans Fund og afbidia hanns Reide; Eñ Carl Keisare, nytande sier þetta Tækefære, took hann einnig til

Fanga, og þooktuſt nu Papiſter hafa fogrum Sigre ad hrooſa, þvi nu ſyndiſt med ollu wtgiort um Frelſe og frekare Framgang þeirra Lutheraniſku: Enn Guds var ad gefa rettu Mæle Sigur. Keiſarans Underhyggia i tiedu Efne gramdiſt Mauritz ſo miog, ad hann giorde Samband vid Fracka Kong, ſamnade ſnarlega Lide, yfer fell Keiſarann og kom honum i þær Beiglur, ad hann ei einaſta let lauſa Johann Fridrik og Philippum, helldur loſade i Stadnum Paſſau 1552. Fride og Gridum þeim Lutheraniſku, hver þeim ſkylde ſijdar a almennilegre Samkomu ſtadfeſtaſt; Enn adur þeſſe Fundur vær halldenn, fell Mauritz i Oruſtu, er hann atte vid Albert Kiorfurſta i Brandenborg. Keiſarenn mætte binda Enda a þad han̄ hafde loſad, og a Samkomu i Augsborg 1555. þann 25. Sept. ad vidlægum Broodur ſijnum Ferdinand Konge og odrum Stoor-Herrum, giorde hann þa Aliktan, ad þeir ſem Luthers

Lær-

Lærdoome filgdu, mættu her epter, ad Ofekiu, halda vid sijn Trwarbrogd; Pad skilde under hvers eins friaalsum Kiorum komed i Pijdskalande ad filgia Pafans Lærdoome, eda Augsborgar Trwar-Jatning, og skilldu þeir aller ꝏlitast opennberer Landrꝏda Menn, er ødrum syndu Meingiordervegna Trwarbragdanna. Þa þessu var loked deyde skomu sijdar, nefnelega 1556. Kiorfurstenn Johann Fridrik, og ꝏ sama Are gaf Karl frꝏ sier Rijkes Stioornena; Keisaradæmed fekk hann i Hendur Broodur sijnum Ferdinand Konge, enn Spanien og onnur sijn Erfda Rijke Syne sijnum Philippo; Sialfur gaf hann sig i Klaustur hins Helga lusti i Spanien og deyde tveim Arum sijdar, og bad, hvad merkelegast er, i þeirre sonnu Evangelisku Trw; (*) hverrar Jaatendum hann so þwngur

O 6 fyrre

(*) S. Beschre bung der Exeqvien Caroli 5. sem Brooder hans Ferdinand let þryckia i Augsb. 1559.

fyrre hafde vered. Epter ad Fridurenn var nu bannin̄ samenn i millum beirra Papisku og hinna er Paafans Ok hofdu af sier broted, og þar Guds Kyrkiu er nu ei framar ad ælijta under einum Jardnesk-um Stioornara, heldur i vissa Sofnude so adgreinda, ad sæ eine er i morgum Greinum hinum odrum Olijkur, þaa syneſt ſkilianlegaſt, ad rita ſatt um̄ hvern fyrer ſig, af þeim ſtærſtu Sofnudum.

## I. Um̄ þaa Romverſku edur Papiſku Kyrkiu.

52. Helldt ſu Papiſka Kyrkia vid ſijna fyrre Lærdooma, þegar ſo marger Sofnuder ſellu fraa hen̄e?

Ecke einaſta hellt Paafenn og beir hanns Oræꝛte ſilgdu, vid fornann Atrwnad, hvers her og þar er ad undanfornu nockud géted, helldur voru æ þvi Tridentiſka Þijnge, endurnijadar og ſtadfeſtar marg-ar þær Villur og Hindurvitne, ſem ſumir af betur ſkyniande Papiſtum ſijdar meir hafa vidkannaſt: Þo eru Alyktaner beſſa

ſo

so kallada Biskupa Þijngs i ædsta Gilde hiaa Papistum, so hver sem gefur sig fraa ødrum Sofnudum til þeirrar Romversku Kyrkiu, mai med Eyde þær underskrifa edur vidurkenna.

53. Nu þar þetta Biskupa Þijng et i stooru Aliti, og adur hefur vered aa þad minst, þaa seig mier i saam. Orduin; hversu þad framsoor!

Þegar Carl Keisare og fleyre Furstar høfdu forgiefens reynt til ad koma Einingu aa millum þeirra Papisku og Lutheranisku, æsktu þess flester, ad eitt Allsheriar Biskupa Þijng være halded, sem fraa Aldodle hafde Venia til vered, aa hveriu wtkliaast kinnu þær Miskliider upp voru komnar i Lærdoominum: Enn Paafenn og hanns Klerka Sveit i Room stoodu einasta, þo i fyrstu heimuglega, her aa moote, og var hin hellsta Ordsok þar til su, ad ef Endurboot Trwarbragdanna ske skylde, hlutu andlegrar Stiettar Menn firrast sijnum fyrre Makendum, Bylijfe og Innteektum, enn Paafenn sialfur munde, þegar hans

Setningar fengu Hnecker, sem lai liooſt fyrir, ef Sannleikurinn ſkylde ei under Fóotum trodaſt, mog ſo tapa Agæte ſynu og Yfir-drottnan: Þo hlaut lokſins Paall III. Paafe ſamankalla þetta Þijng 1545. þui hann maatte ottaſt fyrir, ad ſiaalfur Keiſarinn og adrer Furſtar, hönum Oadſpurdum, mundu ꝍ almennelegre Samkomu ſiaalfer giora einhveria Alyktan, Kyrkiu-ſokum vidvijkiande, ef hann brwkade fleyre Vijfeleingiur. J Stadnum Trident var þetta Þijng fyrſt hallded, ſijdann var þad 1547. flutt til Bologna i Italien, þar epter ꝍ ny til Trident 1551. enn þegar Kior-furſtenn Mauritz feck Sigur yfir Carl Keiſara, ſem um þeſſar Munder var i Inſprúch, einum Stad ſem ei liggur laangt fra Trident, var Þijngenu upp ſagt 1552. af Iulio III. Paafa; Enn Pius IV. ſette þad aptur i Trident 1562. og epter XXV. Doomſetur [Seſſiones] endadeſt þad 1564. Um þeſſar Munder hofdu Paafarner, hver epter annann

ann, noog ad hugsa, enda brwkudu þeir allrahanda Vielar til þess, ad eckert yrde samed af þeim a Þijnginu samankomnu Fedrum, er strijdde moot Paafans Aliteog Yfir-raadum. " Dag og Noott (skrifar saa Ungariske Biskup Dudith, er til Stadar var a Þijnginu) var sendt til Paafans ad leita hanns Adkvæda: Daglega komu til Mootsens sölltner og vesæler Klerkar fraa Italien, þaangad sender af Paafanum med Biskupslegu Nafne, er ei skylldu annad uppkreda, enn Paasenn lagde þeim i Munn: Þesser voru Olærder, enn aan Blygdunar, og þaa þeir gengu i Lid med þeim, sem droogu Taum þess Romverska Biskups, þaa hafde Raanglæted Sigre ad hroosa: Efeinn edur annar hafde þaa Einord ad laata a sier heyra, slijk Frekia være ei med öllu sæmande, strax var hann, sem Vantrwadur, Heitingum og Illyrdum þaangad til areittur, ad hann hlaut jaata þvi med Munnenum, er hann i sinne Samvitsku hafde Vidbiood a,,, Af þessum Witnisburde eins Papists Biskups maa

nærre

værregeta, hverſu liited Gagn ſa hreine Erwarinnar og Sidanna Lærdoomur heſur haſt af þeſſum Funde; Þar a moot var Paafans Einvallds-dæme ſtadfeſt, og þeirra andlegu Drottna Vallð og Alit ſtyrkteſt enn framar.

54. Haſa þaa Paafarner ecke med eñ fleyru Mote viliad ſtyrkia og wtbreida Magt ſijna og Velde?

Að viiſu; Þvi þar þeir ælitu ſitt Riiſke ad vera Chriſti Riiſke, og þaa Kyrkiu, ſem meðtekur þeirra Lærdoom, Chriſti og ſijna Brwde; Þaa er ei að undra, þo þeir legge allt Kapp a; ſo ſem Peturs Epterkomarar, að veiða ſem fleſta i ſijnu Nete, og til Framkvæmdar þeſſa ſijns Aforms, brwkudu þeir og haſa brwkað ymſar Veidebrellur, ſem er. (1.) að tilſetia nijar Stietter Reglubunndenna Manna, edur og endurnija þær elldri. (2.) Að ſenda um allar Heimſins Atter þaa, er annaðhvert wtbreide þann Papiſka Lærdoom medal Heidingianna, eda med Fortølum, Fagurgala og Peningum locke þaa til Papiſkar

rar Trwar, sem ødrum Trwarbrøgdum hafa aadur filgt, og þegar þad hefur ecke dugad, þaa (3.) med Underferle og Otteliande Brøgdum ad yta aa Stad þeim Papiſku Furſtum, Keiſurum og Konungum, til ad underþryckia og offæckia jafnvel ſiina eigenn Þegna, er ei geta trwad øllu þvi, Paafenn uppkvedur, hvar til noog Dæme finnaſt i Frankarijke, Polen og þeſs Þijdſka Keiſara Erfdalondum. (4.) Ad laata Bækur aa Prent wtgaanga, er annadhvert ſkule reka til baka þaa Lærdooma, ſem ei eru vidtekner i þeirre Romverſku Kyrkiu, edur giøre ſo lijted wr Agreininge Lærdoomſins, ſem er mille þeirrar Romverſku Kyrkiu og hinna, ſem ei hafa enn lagt ſig i hennar Skaut, ad þeir þeſs helldur faae til ſijn lockad þaa, ſem eru af ødrum Trwarbrøgdum. (5.) Her ad auk hafa Paafarner tiiſett i ymſum Londum einn Rannſooknar Rett, hver ed uppgøtva ſkal þaa, er viikia fraa þeim Papiſku Trwarbrøgdum, og dæma þaa, er i ſliiku

ſeker

seker sinduft, annadhvert ad brennast edur sæta ödrum þungum Ressingum. Til ad stadfesta og i sumu ad endurbæta þennann Rett, tilsette Sixtus V. einn fierdeillis Samfund, er kallast þad Heilaga Officium, samanstandande af 12. Kardinalum og Fiølda annarra Geistlegra, sem skulu tvisvar i Viku koma samann til Raadagiørdar i Minervæ Musteri i Room, þessare Rañsokn til frekara Fulltijnges.

55. Hveriar eru þessar helstu Stietter edr Ordur Reglubundenna Maña, sem styrkia so Pafaña Mindugleika?

Ad upptelia allar þær Stietter Reglubundenna Maña edur Brædra Log [Monachorum Ordines et Fraternitates] sm̃ siñast i þeirre Papisku Kyrkiu, er her ei Rúm upp ad telia, ſæme og til lijtels: Enn get einasta þess Brædralags, stiftad var af nockrum Sponskum Edalmanne, er het Ignatius Lojola, sm̃ i Orustu 1521. feck slijk Meidsl, ad hañ treystest ei framar ad fylgia Kongsins nie Veneris Merkium

og

og feſs vegna gaf ſig i þaa andlegu Stiett. Hann var færdur i Helgra Manna Tolu af Urbano VIII. Paafa her um 1623. Þetta Brædra Lag er hverke, eiginlega ad ſegia, einunges veralldleg, nie andleg nie Klauſtra Stiett, helldur nockurskonar Stiftan og Samband, hvers Tilgangur er ad ſtadfeſta Paafans Makt. Þeir ſm inngaunga þeſſa Stiett kallaſt Ieſuitar, edur, epter þeirra Stijl, Fedur JEſu Samkvæmis [Patres Societatis Ieſu]. Þeſſer Fedur hafa maatt kallaſt hin oruggaſta Stytta þeſs Romverſka Stools, hafa og eckert laated tilvanta ad ſijnu Sijdu ad wtbreida Papiſkann Lærdoom, og epter þvi ſem Tijmanna Aſikomulag hefur wtheimt, hafa þeir Seglunum akad i Lifnade og Lærdoome. Þeir hafa under ſig i reiged Ogrinne Fiaar i foſtu og lauſir, hafa iſmeigt ſier i ædſtu Embætte i þeim Papiſku Rijkium, hafa uppfyllt hærre og lægre Skoola med ſijnum Lærdoomum, og ſett ſig i þad Alit, ad adrar Stietter ( þegar

eg

og fraa tek Predikara-Munkana ) og jafnvel sialfer Paafarner hafa mætt læcka Seglenn fyrir þeim, eda, adminſta Koſte, ei þorad ad giøra a þeirra Hluta. Til ad vidhialpa Jeſuitanna Vidburdum i þvi ad wtbreida i allar Atter þaa Papiſku Trw tilſette Gregorius XV. Ared 1622. eitt Samkvæme (er kallaſt Congregatio de Propaganda Fide) leggande þar til ærnar Inntekter, hveriar ad niju jook Urbanus VIII. Ared 1627. og marger adrer Riikes Menn, ſo ætiid væru þeir til, er ſendaſt kynu til Heidingianna, er þeim ſneru, og gaafu ſig til Framkvæmdar þeſs Verks, auk Jeſuitanna, Dominicani, Franciſcani og Capucini, (*) hverier Flockar voru þo optaſt ſundurlynder. Nu þar ſialfer Papiſker meigá vidurkenna, ad

(*) So kallaſt ein Munka Stiett af þeim Hwfum eda Høfudbwnade þeir høfdu, filgdu þeir i fyrſtu Reglum hiñs H. Franciſci, eñ wtvøldu ſier adrar ſtraangare. Þeirra Foringe og Stiftare var Matthias de Baſſis, er ſtiftade þeſſa Hettu Stiett 1528.

ad Jesuitarner hafe vered Underroot og Frumkvodlar flestrar Oluckn og Ossookpa, upp hafa komed, jafnvel medal sialfra þeirra, er Paafans Setningum ei hafa vered mootsnwner, so fyrir þessara Fedra Tilstille hafa jafnvel sialfer Kongarner i Franka-Riike vered myrdter, eda og þar og añarstadar nær þvi raadner af Dogum, hvar til Dæmin eru lioos a þeirra Dogum, er nu lifa; þaa hlaut Paafenn Clemens XIV. naudugur viliugur Ared 1773. aftaka þessa Stiett; Eñ so bra vid ad same Paafe a nærsta Are epter, deyde af Eitre, sem morgum virdtest; So nu syneft uppfylltur Spaadoomur Georgii Bronvells sem var Erke-Biskup i Dyflini a Irlande 1558. er seger: ad loksins mune Gud wtryma þessum Fedrum fyrir þeirra Tilstyrk, sem þeir hafa mest Fulltijnge veitt, og ad einn Jude mune betur lidenn enn nockur Jesuite.

56. Hver eru þau hellstu Riike, hvar Paafarnir hafa viliad innfæra og wtbreida sinn

Lær.

1. Keisara Dæmed China, hvert Jesuitarnir voru sender 1587. hverier ad vijsu hafa snwed mørgum ad Ordekvednu til christelegrar Trwar, enn þad Verk þeirra hefur genged miøg stopult, bæde þess vegna, ad Chinesisker sau, ad Jesuitarner leitudu ei so ad þeim, sem þeirra Audæfum, og ad Dominicani voru Jesuitunum miøg mootfallner, er løstudu þaa Adferd, þesser brwkudu til ad Christna þaa Chinesisku.

2. Morland [ Æthiopia edur Abyssinia]. Ondverdlega aa þeirre 17. Old kom þangad Jesuitenn Petur Pays, og forsoomade ecke ad koma þeim Morlendsku til þeirrar Papisku Trwar, hvad honum og hanns Filgiurum fell þvi audveldara, sem þeir Morlendsku, vegna Lærdoomsleyses, gaatu honum sijdur Mootstødu veitt, þvi vegna innbyrdes Osambyckes, og sijfelldra Bardaga, er staded høfdu um Hrijd, synduft nær allar Booklegar Menter þadann i Utlegd reknar. Køngurenn Susne-

us vilde fortaksláust Moottöku veita þeim Romversku Trwarbrögdum, af took þvi Þvottdags Helgena og fornar Sidvenmr, þo ei ann stoorrar Bloods Uthellingar, er hann let gánga yfir Þegna sijna, sem hölum Mootstödu veittu, og skipade Are 1626. ad þau Papisku Trwarbrögd skyldu yfer allt i sijnu Rijke innleidast. Alphonsus Medez, Spanskur Jesuite, var giördur ad Patriarcha sudur þar. Eñ þetta varade skāma Stund. Kongsins Sinne snerest Bonum fliootara, so hann leifde sijnum Þegnum, ad lidnum tveim Arum, ad taka upp fornañ Atrwnad, og á áttunda Are Rijkes-Stioornar Sonar hanns Basilidis voru Jesuitarner burtrekn ir, sumer i Hendur fengner Tyrkium 1634. og þeir, sier undann höfdu skoted og sijdar fundust i Rijkenu, voru hengder.

3. Kongs-Rijked Japan: Þángad reyste sa nafnkende Jesuite Frantz Xaverius, sem almennelega kallast India Postule; Hann ásamt sijnum Kumpanum

snere

snere miklum Fiölda Foolks til þeirrar Romverſku Trwar : Eñ þeir chriſtnu mættu lijda i heil 20. Ar þær grimuſtu Offookner og lokſins afmæſt her um 1640. nema hvad fæeiner kunna finnaſt medal Heidingianna, ſem heimuglega vidurkeña chriſtenn Lærdoom.

4. Rijked Siam. Þeſs Innbyggendur voru Heidingiar: Hlodver Fracka Kongur, XIV. þeſs Nafns, vilde faa Leife hiaa þeirra Konge, ad chriſtenn Trwarbrögd mættu þar innfæraſt : Og þo ſa heidne Kongur tæke ſeinlega þeſſarre Efterleitun, ſneruſt ſamt marger af þeim Siamiſku: Enn 1688. fengu fullkomenn Hnecker Fyrirtekter hinna Frönſku, vegna þeirrar Umbreitingar, ſem ſkede i Rijkenu, þegar einn af Landſins Stoor-Herrum, er het Pitrarcha, brautſt til Rijkeſens.

5 Veſt-Indien, edur America. Strax epter þad Spanſker höfdu innteked þau beſtu Lönd þar, voru þeir Indianiſku kwgader med Oheyrelegre Grimd, til þeſs

ad

ad veita Moott⸗ku þeim Papiſku Trwar-brøgdum. Jeſuitarner hafa komed þvi til Vegar ad þar eru nu 5. Erke-Biſkups Dæme og 30. Biſkups Stoolar; enda ha Jeſuitarner ei unned her fyrir Gijg, þvi i þeſſum Parte Heimſins hafa þeir ſamannrakad Ogrñe Fiaar. Auk þeſsa hafa þeir Papiſku ſij og æ reynt til ad koma undir þann Romverſka Stool þeirre Grißku Kyrkiu, hvad þeim hefur ad nockru Leite tekeſt, i Tillite til viſſra Safnada.

57. Eñ hafa þeir Papiſku ei uñed Svig aa þeim ſo kølludu Evangeliſku Søfnudum?

Viſt hafa nockrer añadhvert af Einfeldne og Lauslynde, edur fyrir veraldlegs Avinnings og Metorda Saker falled i Sid med Papiſkum, medal hverra merk legaſter eru: Chriſtian Vilhiaalmur, Markgreife i Brandenborg og Ernſt Land-Greife i Heſſen-Caſſel, Chriſtin Svija Rijkes Drottning, ſem þeſs vegna rijmde ſitt Erfda-rijke 1654. Fridrik Auguſt, Kiorfurſte i Saxen, ſem þeſs vegna vard Kong-

ur i Polen 1697. og hanns Sonur Fridrik August 1717. Po hefur Fraafall þeſſara og añarra ei giørt ſo ſtooraň Skada þeirre Evangeliſku Kyrkiu, yfer hverrar Vidhallde Guds Vernd og Varatekt ſo daaſamlega vaker.

58. Nu þar Paafarner ſiaa ſo grant epter, ad i þeirre Romverſku Kyrkiu ſie einmidt ſilgt vidteknum Lærdoomum; eru þaa engar Miskliider komnar upp i þeim Papiſku Søfnudum, og medal þeirra ſialfra, ſem eru Limer þeirrar Romverſku Kyrkiu, Srwarbrøgdunum vidvijkiande?

Jw, þui þo Paafarner rooe þar ad øllum Arum, ad eckert ſie talad nie ſkrifad i þeim Papiſku Søfnudum, ſem vijke fraa Lærdoomum þeirrar Romverſku Kyrkiu, þaa hafa ſamt upp komed, og ad nockru leite vidhalldaſt, margskonar Prætur þeirra a medal, ſem valded hafa iñbyrdes Flockadrættum og Offooknum. Hafa þeir ad ſönu bored lægra Hlut wr Bijtum, er ei hafa haft Prek til ad hrinda af ſier Ojøfnude þeirra, er hærre hafa haft Vølldenn.

Enn

Enn Agreininga Reisteñ, þo hann um̃ Stund sie falenn, hefur opt orded ad miklu Bale, þar ad h:fur vered blæsid, og er Ovjst hvenær utkulnar. Þær hellstu Prætur i þeirre Romversku Kyrkiu hafa vered 1. mille Jesuitaña og Predikara-Munkanna de auxiliis gratiæ, edur, um̃ Fulltijnge Guds Nadar, hversu hun verkar hia Mennum Truna og Endurgetninguna, og hvert Madur, af Natturuñe til, hafe Frivilia i andlegum Efnum. Voru her um̃ haldnar 78. Samkomur af Cardinalum og ødrum andlegrar Stiettar Mennum i Tijd Clemens VIII. Pæfa fraa 1601. til 1603. enn þess Menn vite hver Alyktan sked hafe, þvi sama Præta hellst vid i hanns Efterkomara Tijd Pauls V. enn valla hafde þessare Deilu slotad, þegar hun vard enn ad niju strijdare, sem ordsakadist af einë Book, er kallast Augustinus, og var skrifud af Cornelio Jansson Biskupe til Ypern i Flandern, sem framførde Meining hinns H. Augustini (og

Þvi let hann siina Book heita epter nefndum Lærefodur) (*) um̃ Guds Naadar Verkan i Uñwendan eins Syndara : Eñ þar Jesuitarner sau̇ siina Lærdooma i tiedu Efne til baka rekna, og naududu so leinge vid Paafann Urbanum VIII. ad hann aalyktade 1642. ad nefndur Jansons Bæklingur innehelde marga Lærdooma, og ætte þvi ei ad lesast; Þaa skrifudu a moote þessu Paafans Atqvæde marger, einkum i Hollande og Frankarijke, og þar Jesuitarner hofdu Paafann aa siina Sijdu, þaa hlaut

Rett-

(*) Þeir sem filgia Jansons Lærdoome og sig kalla Augustinianos, eru ad viisu færre og i miña Afhallde aa þeim Romverska Hofgarde eñ þeirra Mootstandarar, eru þo þeim ei sijdri ad Lærdoom og Sidgiædum, jafnvel þo þeir sieu ofmiog hneigder til Hiaatrwar. Þaa þeir hafa vered underþryckter og offookter i Frankarijke, hafa þeir oruggt Hæle i Hollande. Meste Partur Papistra, sem finst i so kolludum Sponsku Nidurlondum og aller þeir sem finast i þeim sameinudu Nidurlondum, edur Hollande, filgia Jansenista Lærdoome.

Retturenn vijkia fyrir Maktene.

2. Þar Pꜳfunum hefur vered annt um̃ ad varna þess Leikmønnum, þeir fꜳe ad lesa H. Ritning, þꜳ hafa skialldsienar vered hennar Utleggingar ꜳ nu brwkanleg Tungumꜳl i þeim Papisku Rijkium, (*) til þess Arnald, Richard Simon og Quesnell letu ꜳ Prent wtgꜳnga sijnar Utleggingar og Utskijringar yfir þad Nija Testament; Og þar þesser Hꜳlærdu Men̄ viku i Utleggingunne sumstadar, frꜳ þeirre



(*) Þeir Papisku Søfnuder i Þijdskalande og Frankarijke voru þo ødrum Papiskum i þessu Luckulegre. Ant. Arnold wtgaf sitt Nija Testament i Mons, en̄ þad var fordæmt af Clemens 9. Ared 1668. Arnold var Professor vid Hꜳskolan i Paris (Sorbonne) og hlaut vijkia þadan̄ til þeirra Spønsku Niderlanda, hvar hann wtbreidde Jansenistanna Lærdoom. Simons Nija T. var þryckt i Trevoux 1702. Han̄ var Presbyter Congregationis Oratorii. Paschasius Quesnel wtgaf sitt N. T. 1685. mꜳtte rijma Frankarijke, settest ad i þeim Spønsku Niderløndum, og deyde 1719.

Latinsku Utlegging, sem kallast Versio Vulgata, og af Paafanum dæmd er eins good, ef ei betre, enn sialfur Texte Bibliunnar, i þeim Tungumaalum, sem hun er af Gude innblaasin; þaa mattu þeir sæta Offsooknum, og þeirra Verk, sem i morgu er ægiætt, Paafans Forbode.

3. Þar ed Guds Dyrkun i þeirre Romversku Kyrkiu er hvad hellst innifalen i ymislegre ytvortes Vidhofn og Hiaatruarfullu Laatæde, þaa kom sier ei vel þeirra Lærdoomur, er aliijta sem hid vigtugasta i christens Manns Framferde, ad hann i Kirrd og Spekt drage sijna Þanka alldeilis fraa Jardnesku Hlutum og Skilningar Vitanna Med-verkan, enn sameine Saal sijna Gude, fraa hverium hun er komenn, med þvi ad underþryckia Skilningsins og Vilians Hræringar. Nu þo Paafenn og Jesuitarner fordæmdu þennañ Lærdoom, þar honum einnig er miog varlega filgiande, og synest leida til ymisra Afvega i rettre Guds Dyrkan, jafnvel þo yfir

Hofud

Hofud betre synez eñ Jesuitaña Sida Lærdoomur, þaa hefur hann samt haft mikenn Frañigaang i Frankarijke, i siaalfre Italien og vijdar añarstadar. Þessum Lærdoome framfilgde sa nafnfræge Michael Molinos einna fyrstur (*), og kallast þeir Qvietistar og Mystici, er hoñum filgia. Hin 4. Þræta rijs af vissum Greinum þess Sida-Lærdooms Jesuitarner hafa wtbreidt, medal hverra einna skadlegust er su, de Probabilismo, sem lijtur til þess, ad Mañmeige adhafast eitt hvad moot rettre Samvitsku, þegar þeir gete fært sier til Maal-

 boota

(*) Hañ var fæddur i Arragonien 1640. J fyrstu var hañ bæde i Spanien og i Rom i miklu Afhallde vegna sijns Lærdooms og Ostraffanlegs Frañiferdes, eñ Jesuitarner hættu ei fyrr, eñ hañ var færdur fyrir Rañsooknar Retteñ, hvadañ hann var færdur i Faangelse, i hveriu hañ var 10. Ar og deyde 1697. af Eitre, ad Meñ hallda. Marger ypparleger Meñ forsvorudu hañs Lærdoom, medal hverra var Biskup Fenelon, Cardinaleñ Petrucci og Mad. Gvion, er deyde 1707.

bööta einhveriar Lijkur, þo at veikum Footum stande. Moot þessum hæfkasamlega Lærdoome hafa oruggt reist sig Jansenistarnir, einkum þeir hálærdu Menn i Port Royal, nærre Paris, Arnauld, Paschal og Nicole, so Pafe Innocentius XI. neydd-est til 1679. ad fordæma 65. Greiner, sem wtdreignar eru af Jesuitanna Sida-Lærdoome, sem þeir hafa ei afturkallad, helldur med ymsu moote viliad kloora yfir. Hin 5. Agreiningur hefur vered mille Jesuitanna og Predikara Munkanna wt af þvi, hvert hin H. Jomfrw Maria hafe geten vered i Uppruna-Synd, eda ei. Þar nu tvær so mektugar Stietter i þeirre Romversku Kyrkiu voru i þessu og fleyru sundurþickar, og Pafarner vildu ei Ovingast vid þær, þa letust sumir af þeim ei hafa fenged þar um Gudlega Undervijsan, uns Clemens XI. stadfeste Jesuitanna og Francisci Munka Lærdoom, ad Maria være fædd ann Uppruna-Syndar, og i þess Minning samþickte hann Ared 1708. ad halldast skyllde ein

Hæ-

Hœtijd. (*) Carl Albert, Kior-furste i Bayern, stiftade eina Riddara Stiett 1729. er forsvara skyllde þennañ Lærdoom. Hinn 6. Agreiningur rijs af Pæfans Mindugleika, og hvert hann gete viked i sijnum Alyktunum frœ rettri Trw. Jesuitarner og fleyre er ei viliad nie þorad hafa ad stiggia Pæfann eda þad Romverska Hof, segia hann sie upphafenn yfir allar Stietter, og filgia einmidt Urskurde Hildebrands Païfa i þessare Grein, einig ad Pæfenn kunne alldrei feila, allra sijdst i Trwarennar Lærdoomum. Þeir Papisku Kongar og Furstar hafa so klippt



(*) I þessare Prætu millum Predikara Munkaña (Dominicanos) og Snijkiu Munkaña (Franciscanos) sijnist ædur hafa gefed til kiña sijna Meining, Pæfeñ Marteiñ 5. 1476. eda þar um Vil, þœ hañ stadfeste Mariu Getnadar Hœtijd, hvad þeir sijdare Pæfar, sem kvadder voru til ad skera wr þessare Prætu, heldu getad fyrir sig bored; Eñ þeir neiddust til ad sigla mille Skers og Bœru. Dominicani hallda engu ad sijdur vid sijna Meiningu, og þad ad Oseckiu.

Vængena a Pafans Allsheriar Stiorn, ad hann flijgur ei so hatt nu um Stunder sem adur, og marger Lærder Papistar sijna og hafa synt, einkum so kallader Jansenistar og Appellantar,(**) ad Pafarner opt vijke fra Sannleiknum, og sa eine mootsege þeim ødrum, einig ad þeir sieu undergefner Allsheriar Biskupa-Þijngum, sem hafe Rett til, jafnvel ad setia þa fra Embættenu. J þeirre Romversku Kyrkiu hafa enn fleyre Prattaner i Lærdoomenum vidgeingest og Villur uppkomed, so sem I.C. Vanini, Josephs Frantz Burrhi, (*) sem ad sønu var nafnfrægur Chymicus;

(**) Þegar Pafeñ Clemens 11. wt gaf þa nafnkuñugu Statutu, sem byriast: Unigenitus Dei Filius, hvar med hañ fordæmir Qvesnells Nyia Testament og þess Utskijring, og under eins suma þa Lærdooma, sem wtþrickelega finnast i H. Ritningu, voru marger, sem settu sig her a moote, og skutu sijnu Maale til eins Allsheriar Moots, og þvi kallast þeir Appellantar.

(*) Burrhi eda Borrhi var Edalmadur fra

ûûs, eda i Trwarbrogdunum helldur af sinna einn Villu-rꜳsande, og aðara fleyre.

58. Seig mier i fꜳrstu Ordum, hvad su Romverska Kyrkia se, hvilijkt hennar Afskomulag se, og þeirra Romversku Pꜳfa, einkum i Tillite til nærverande Tijma?

Su Romverska Kyrkia er Samfielag margra Safnada Vijdsvegar um Heimin (hvar fyrer hun almennelega kallast Romano-Catholica) sem þann Romverska Bisk. up ꜳlyta sem hinn ædsta Doomara hier a Jordu, i ollum þeim Hlutum er vid koma Stiorn Christendomsins. Pꜳfenn kallar sig einn Allsheriar Biskup, sem i Christi Stad hafe Vald til ad stiorna og setia Log Guds Sofnudum. (*) Hann er nu a Dogum wtvalinn af þeim yppurstu Safnadanna Fedrum, sem, epter fornum Sid,

 kallast

Mailande: Hann flackade hijngad og þangad um Nordur Alfuna, til þess Keisarinn sende hann Pꜳfanum: Var hann sijdan dæmdur til æfenlegs Fangelses 1672. og deyde 1695. Hꜳ-alldradur, i Fangelse.

(*) J þeim Papisku Londum sialfum ver Pꜳf-

kallast Cardinalar, og eiga vera 70. Talsins: Skedur þetta Val af þeim i nockurskonar Fangelse, er kallast Conclave. Þo hafa Hond i þessu Vale sia Þijdske Keisare og adrer Papisker Kongar soleidis, ad lijke þeim ecke sw kosna Persona, hlioota Cardinalarnir ad wtvelia adra i hinnar Stad. Eingenn kemst til þeirrar Paafalega Tignar, nema hann aadur hafe vered Cardinall, Italiskur ad Kyne og ei yngre enn 55. Ara gamall. Paafenn er nu um̃ stunder ei so siaalfraadur sem aadur fyrre, þvi

ans Mindugleike þeim Papisku Furstum ei so miög i Augum, sem aadur fyrrei, jafnvel þo þeir ad Orde kvednu audsijne honum̃ miög stoora Virding, einkum þaa þeir aviña sier eda siinu Rijke eiñ hvern Hagnad þar med: Eñ syne Paasen̄ sig hallden̄ edur Ojafnadarfullañ, forsvara þeir siñ Rett med Stirk Pegna siña, hvar til Dæme eru noog jafnvel aa þessare Old, þaa Sundurþicke hefur uppkomid mille Paafans aa þaa einu Sijdu, og Keisaraña Josephs 1. og Carls 6. It. Kongaña af Frankarijki, Spanien, Sicilien, Sardinien og Portugal etc. aa þaa adra.

þvi hvad Trwarinar og Kyrkiu-Stioorn-arinar Sokum vidvijkr og hellst wriidur, þa biriar honum ad taka i Raad med sier Cardinalana, og filger hann þvi optarst, er flestra Jatvœde stidur. Fyrer þeim minne haattar Kyrkiu Erindum eru settar vissra Lærdra Manna Sveiter, sem kallast Congregationes, fra hverra Urskurde Paafenn ei vijkur, nema i stærstu Nauds-syn. Her af kemur þad, ad margt er wliktad a þeim Papiska Hofgarde, sem Paafenn blijtur stundum samsinna edur eptergefa, þo honum ei gedfelt sie; hvar fyrer Paafunum sialfum maa ei eigna sierhvad illt og Orjettvijst, sem under þeirra Nafne wtgeingur. Hvad ahrœrer þa Veralds-legu Stioornina, þaa er Paafenn i þvi Rijke og Herudum, under hann eigenlega ligga, einn Einvalds Stioornare. Sijdan End-urboot Trwarbragdanne skede, og marg-er Sofnuder hafa broted sig undan Oke þeirrar Romversku Kyrkiu, hafa bæde Paafarnir og adrer andlegrar Stiettar

Menn meatt giæta siinnar Skildu betur enn adur, vered lærder Menn og i utvortes Athæfe sidlaater: Vijda er og betra Skick innfært i Klaustrenn enn adur, og vissar Skordur settar Yfergange þeirrar andlegu Stiettarinnar. Booklegar Menter ydkast nu framar a Haaskoolunum, enn adur, og i ødrum Samkvæmum, eda Collegiis: Enn so sem þetta allt er Hroosvert, so er enn æred margt, sem kunugir og rett sinnader þikiast hafa Orsok til ad kvarta yfer. Utvortes Pragt bæde i Heimahwsum og i opennberre Guds Þioonustugiørd geingur alment yfer, enn einna hellst i Room, hvar openber Hooru Hws njoota Allsherjar Frelses, enn svara vissum Tolle til Paafans Fiarhyrdslu. Sidalærdoomurenn er miog spilltur og wr Lagefærdur af Jesuitunum. Þær gomlu Villur stadfestar a þvi Tridentiska Biskupa Þijnge, samt Paafans ædstu Yfferraad i Christnenne, og saa Lærdoomur, hann gete ei villt fared i Trwarennar Utskijring,

hvad en nij sampiickt er af Clemens XI. i
þeirre Statutu, er af sijnu Upphafs Orde
kallast Unigenitus, hver Statuta upp-
vaked hefur stærstu Misklijder og Offokner
i Frankarijke og vijdar; Og er hun lioos
Vottur þess, hversu spillt sie þad Rom-
verska Hofud og þeir hellstu Limir, sem
under þad þioona. Tilbeidsla Heilagra
almenn, og Okendra Bein, uppteken wr
Catacombis, edur Hvelfingum, sem finn-
ast i Jordunne, epter þad þau eru skijrd
og vijgd, verda framsett Almuganum, sim
anar Helgedoomr, til Aheita og Tilbeidslu,
hvar med skedur stoor Afgudadijrkan:
Auk þessa hafa Papisker Otelianlegar
Sveiter þeirra, hverium Parfarner an-
nafna vijst Sæte en Himnum, og auka
þeir vid slijka Dijrdlinga Oræpt, þvi slijkt
Starf er tyslega borgad. Aflaat og
Saalu Messur fast nvogar fyrer Peninga.
Storer Klæker afplaanast med þessslags
Skriftum, er sæda Vantrw og Hiaa-
trw, enn feita hinar andlegu Stietter og

Stiptaner. Almúganum er yfer Hösud halded i mestu Vanþecking þeirra Hluta, er i Raun og Veru þiena til Sáluhiálpar. Enn, so kalladur, Rosa-kranz, viss Bylæte og helgra Manna Legendur, Canisii Catechismus og Cochenii forgylltt Himnarijkis Lykell maa þiena honum i Stad Bibliunnar; Enn lese Leikmenn H. Ritning eda komist til Sannleikfins Vidurkenningar, þaa er hætt vid, þeim stefnt verde fyrer þann Ognarlega Rannsóknar-Rett, og aalijtest sem Villumenn, hverium bwed er annadhvert æfenlegt Fangelse eda ad kastast i Eld. Siaalfer Kennendurner eru opt Sundurþicker innbirdes og þad i lettvægum Efnum, og Paafarnir siaalfer meiga oft filgia þeim, sem verre Maalstad hafa, sieu þeir megtuger, so þeir hamli stærre Vandrædum. Þeirrar Papisku Kyrkiu Utbreidsla i Austur-Sudur- og Vestur-Alfum Heimsens er ei so stoor, sem þeir Papisku Utsendarar [Missionarii] laata, og Christendoomur þeirra Umvend-

tu

ku er framar innefalenn i utvortis Ceremonium og Sidvenium Kyrkiunnar, held, enn rettskickadre Sinnesins Umbreiting. Hier i Nordur-Alfunne hafa þeir Papisku, sijdan siv Westfalisku Sattargiord var saminn, ei miklum Vidauka sinnar Yferdrottnunar ad hroosa; einasta hafa þeir underþrickt Protestantana i Elsas og Pfals ad nockru leite: Þar a moot setia þeir Lutheranisku og Reformerudu Furstar þeim viss Takmork i sijnum Rijkium, ad þeir fae ei Yferhond, og nu verande Kongur i Preussen hefur dreged sijna Papisku Þegna undan Stioorn þeirrar Romversku Kyrkiu.

## 2. Eñ fleyra um þat Lutheranisku eda Evangelisku (*) Safnade.

(*) Þar þad er Høfud-Jñtak Evangelii, edur þess Christelega Lærdooms, ad ver ødlunst Fyrergefning Syndaña fyrer Trwna; af einskiærri Naad Guds, vegna Christi Forþienustu, og þar Lutherus færde i Lioos þeñañ Lærdoom og stadfeste hañ med Greinum H. Ritningar moot Papiskra følskum Keñingum; Þa kallast þeir, er Lutheri Lærdoome filgia og þeirre Oumbreittu Augsborgar Jatningu, Evangelisker.

59. Vier hǽttum þar vid sijdast, ad þeir Evangelisku Søfnuder hafdu feinged Frid i Pijdskalande, er þeim stadfestur var aþeirre Samkomu halden var i Augsborg 1555. Nutu þaa tieder Søfnuder þessa Fridar sijseldt þar epter?

Medann þeir Reformerudu, um hveria sijdar fatt eitt verdur talad, lidu stærstu Offoknir i Frankarijke og Hollande, var allt i Kirdum i Pijdskalande, medann Ferdinand I. Maximilian II. og Rudolfur Keisarar riktu; eñ þaa Brooder Rudolfs Mattias vard 1612. Keisare, og flutte sitt Adsetur fraa Prag, sem er Hofudborg i Boheim, til Wien i Austur-rike, kom Sundurþicke mille Keisarans og hans Þegna i Boheim, hvar af Ordsakadest 30. aara Strijd wt af Erwarbrogdunum. Ferdinand II. Keisare einsette sier ad uppræta Lutheri Lærdoom i sijnum Rijkium, og var hann optarst sigursæll i þeim Oruftum, er hann hade moot þeim Evangelisku: Medal annars skipade hann aared 1629. ad allt þad Andlegt Godz, sem þeim Lutheranisku hafde tilfalled sijdann

1552. skilde afhendast Papiskum. J þessum Bæagindum uppvakte Gud Gustav Adolf Svija Kong ad koma Lutheranskum til Hiælpar. Sa Svenske Kongur vann Sigur hvad epter annad, og fell i Bardaga vid Lutzen 1632. Sijdann hofdu ymsir Sigur. Ferdinand deyde 1637. og Ferdinand III. Keisare hellt enn nu æfram Strijdenu, til þess 1648. þegar sa Vestfaliske Fridur samdest, hver tveim Arum sijdar stadfestur var i Nurnberg; Urdu þa þau Maala-lok, ad Papistar, Lutherster, og Reformerader skildu niota fullkomens Frelsis i Jdkun sinna Trwarbragda og Flutninge Gudlegrar Þioonustugiordar i Þijdskalande; þad skilde og hver þessara Flocka hafa i ætolulausu Eignar-hallde, sem hann ætte Ared 1624. Engu ad sijdur hefur sw Evangeliska Kyrkia sætt þungum Alogum i Polen, i Ungaria og ymsum Stodum i Þijdskalande, einkum i Pfals; þar æ moote hefur hun vidhaldest og bloomgast i Danmerk,

ur og Norvegs-Rijkium, einnig i Svija-Rijke allt til þessa Dags; nema hvad Johann Svija Kongur og enn framur Son hanns Sigmundur Kongur vildu i þad Rijke innfæra þau Papisku Trwarbrøgd, hvad þeim þo ecke tookst; Hvers vegna Sigmundur maatte rijma Rijked 1600. enn hanns Fødurbroder Karl IX. kom i hanns Stad, og færde i hid fyrra Lag, þad i Trwarbrøgdunum hafde aflaga villad fara i hanns Forveriara Tijd.

60. Hvad getum vier dregid oss til Jhugunar, þaa vier rekuin vorum Augum til þess Framgangs, sw Evangeliska Kyrkia hast hefur og til þeirra Ossookna, hun hefur maatt sæta?

Varla hafde sw Evangeliska Kyrkia broted af sier Paafans Ok, þaa hun maatte sæta stærstu Ossooknum af þeim, er ei gaafu Rwm Evangelii Predikun, og framar mettu eiged Gagn og Virdingar, enn Velferd Saalna sinna. Paafenn og hans Skulda-Lid, Keisarar og Kongar giørdu Samband moot þessare litlu Hiord Christi, og Satan forsomad ecke ad saa Ill-

greseñ

grefenu i Þañ nij hreinsada Guds Akur, fyrer innbirdes Sundurþicke i Lærdoomenum (*) millum þeirra, er ad Guds Verke ættu ad standa. Enn hann, sem er undarlegur i Rꜳde, Qnitti so allañ Offa og Undirhygginn siña Ovina, ad sw Evangeliska Kyrkia wtbreiddest daglega; sialfar Ofsoknernar gꜳfu Tækefære til Utbreidslu hiñs retta Lærdoms, og ad fullkomeñ Fride

samdest

(*) Ad uppteliа her allar þær Miskliider', er til hafa fallid i þeirre Evangelisku Kyrkiu, er oflꜳngt og ei til storrar Nytsemdar þeim, fyrer hveria þesse Bæklingur er samañ tekeñ; Þessar Prætur syna, yfer Høfud, hversu Maülegt Hyggiuvit reyneſt sliooft vera og Ostiirelꜳtt, þꜳ þad ei leidest af þeim saña Vitskuñar og Opiñberunareñar Anda, helldur þeim, sem vændlætir ꜳn Skinsemdar, og helldur ser ei iñañ Takmarka siñar Køllunar: Og bende eg hellst her til þeirra, so kølludu, Pietisku Prꜳttana, sem fram̄ ꜳ þessa Old hafa varad; eiñig til þeirra, so kalladra Mehrisku Brædra, er þykiast vera Epterleifar Hwssitaña, hverier i Skiuole Greifans af Zinzendorff hafa sett sig nidr i Herrenhut i Lausnitz og þadañ wtbreidt sig vijda um̄ Nordrꜳlfuna.

samdest; Agreiningur i ymsum Trwarꝛ eñar Lærdooms Greinum hefur eiñig komꝛ id þvi til Vegar, ad margir Lærdoomar fram̃ setiast nu med stærra Athygle og greinelegar enn ꝛadur: Lijka hafa Bookꝛ legar Menter, einkum þær, sem þiena til Forsvars og Utskijringar þess Sꝛaluhiꝛalpꝛ lega Lærdooms, tekid stærstu Framforum, so allann Fiolda Hꝛalærdra Manna mꝛa fiña medal þeirra, sm̃ filgia Augsborgar Jꝛatingu og ꝛodrum, so kolludum Symꝛ boliskum Bookum þeirrar Evangelisku Kyrkiu.

61. Seig mier med færstu Ordum, hversu Trwꝛ arbragdaña Endurboot stede i Danmork og Norvegie?

Kongurenn Christian Annar sꝛa, hversu torveldt honum veita munde, epter þad Svenska Blod-bad, ad hallda Þegnum siinum i Danmork i Hliidne vid sig, medꝛ ann ei lægdest Magt og Metnadur þeirra Papisku Biskupa; kom honum þvi til Hugar ad innleida i sin Rijke nockra Endꝛ urboot i Trwarbrogdunum, ꝛa lijkañ Hꝛatt

og Frændur hanns Kiorfurstarner i Saxen høfdu med biriad, og hvi feck hañ Evangeliskañ Prest fraa Saxen, Martein Reinhard ad predika Evangelium i Kaupenhafn 1520. Eñ þar Kongiñ skomu siidar hlaut rijma Rijken, vard um sinn ei framar wr hanns Fyreætlan. Þo wtbreiddest Evangelii Lioos smamsaman bæde i Siælande og aa Jootlande, og voru einer hiner fyrstu, er predikudu mote Paafadoomenum Herman Tast i Hwsum aa Sudur-Jootlande og Hans Tausson, fæddur aa Fiooni, bæde i Vebiarga Kaupstad og Kaupmannahøfn; Hann vard loksens Biskup i Ripum aa Jotlande og deyde þar 1561. Þegar Kongurenn Fridrik I. kom til Stioornarennar, let hann i Lioose, ad hann var ei mootfallinn þeim Lutheranisku Trwarbrøgdum, og took þaa, er þeim filgdu, i sina Konglega Vernd, aa þeim Herradeige halldenn var i Odinseyu aa Fione 1527. og var Maalmey hinn fyrste af þeim Donsku Kaupstødum er med øllu wt-

riinnde Pafadoomsins Villum, en Helsingia-Eyre hinn sijdarste. Fra þessum Tijma voru Munkarner her og þar rekner wr Klaustrunum, og þau brwkud til Hospitala og annara naudsynlegra Stiftana. Christian III. epter þad hann hafde samed Frid i Rykiunum, afsette hann þa Papisku Biskupa i Danmörk 1536. og let setia þa alla i Fangelse þann 20. Aug. sama Ars, ad fra teknum Ova Bild i Arose, sem þo nockrum Dogum sijdar var settur i Vardhalld, og Gottskalke Alefelld i Slesvyk, þvi hann a undanfornum Arum hafde einga Hindran giordt Evangelii Utbreidslu i tiedu Furstadæme. Þo voru skomu sijdar þesser Biskupar lauser latner, og nutu Inntekta af vissum Klaustrum sier til Uppheldes medann þeir lifdu. A sama Are skede Endurboot Trwarbragdanna yfir allt i Danmörku, og næsta Ar epter let þesse Gudhrædde Kongur samantaka eina Nija Kyrkiu Ordinantiu (hvar til einkanlega hialpade Johann Bugenhagen

hagen og Petur Plade, eda Palladius, Biskup aa Sioolande) og var hun sijdann aa einu Þinge i Odinsey 1539 opinberlega i Løg leidd, epter þad hun aadur var yferlesenn og samþikt af Luthero. Nu þar su Adferd, sem brwkast i Flutninge opinberrar Þioonustu-giørdar i Kirkunne, hefur optlega valded Oeining i Søfnudunum, þegar hun hefur vered Olijk, þaa, til ad koma i Veg fyrer slijkt, let Kongurinn halldа eitt Biskupa Moot i Kaupmannahøfn, 1540. hvar adskilianlegt var samed, Kyrkiu-Sidum vidvijkiande, og til enn frekare Sameiningar i greindu Efne var hallded annad Þijng i Ripum aa Jootlande 1542. hvar samanteknir voru XXVI. Articular, vidkomande opennberre Guds Þioonustu-giørd. Þaa Heilogu Ritning let þesse aagiæte Kongur wtleggia aa Danska Tungu og þrickia 1550. og reiste med øllu moote Skordur vid, ad framande Trwarbrøgd og þeir þeim filgdu, so sem Calvinistar, Endurskijrarar etc. festu ei Fot i sijnum Rijk-

ium. Þeir epterfilgande Kongar hafa æ lijkann Hætt sijnt sigsem nækvæma Foostur-Fedur Guds Safnada i þeirra Rijkium. Fridrik II. wtgaf 25. Greinir, sem framande hlutu underskrifa, adur eñ þeir mættu setiast ad í Rijkiunum. Christian IV. gaf wt margar ægiætar Skipaner Kyrkiu sokum vidvijkande, og sa Mikle Lagabæter Christian V. gaf wt Kyrkiu Ritualed 1686, sem innført var i Norveg tveimur Arum sijdar, og er ad ælijta sem Vidbæter vid þau ædur i hanns Logabækur inførdu Kyrkiu Log. Fridrik IV. let wtbreida medal Finna þau Evangelisku Trwabrogd og medal Heidingianna i Aust-Indiunum, hvar fyrer hann og einig stiptade 1714. so kallad Missions Collegium i Kaupenhafn, er skal hafa Tilsioon yfer, ad Guds Ord wtbreidest i Aust-Indiunum, i Finnmorkeñe og Grænlande. Um þess hæsæla Kongs Christians VI. Ofþreitt i Umhyggiu fyrer Guds Ojirdar Eblingu og Booklegra Menta Fram-

gænge

gaange vitna nooglega hanns morgu Forordningar og Stiptanir. Hann uppaz baud og samþickte 1736. Barnaña Confirmation edur Stadfesting i þeirra Skijrnar Sattmaala.

Hvad Norvegs Rijke viddvijkur, þar skede þar Trwarbragdanna Endurboot sijdar enn i Danmorku. J Biorgvin var Evangelium fyrst predikad 1528. eñ Erke-Biskupinn Olafur Lunge Engelbertsson lagde allar Arar uñ Bord ad hindra Evangelii Framgang; og þa hañ formerkte ad þesse hanns Fyrertekt munde ei faa gooda Endalikt, flwde hann til Hollands aa 4. Skipum, enn Christian III. sende til Norvegs 14. Strijds Skip, og voru Fyrermenn þessarar Herfarar Trwid Ulstand og Christofor Hvitfeld. Geck allur Lijdur Konge til Handa, og skede Endurboot Trwarbragdanna 1537. og 38. uñ heila Rijked aan Bloods Uthellingar, og geckst fyrer þvi aadur-nemdur Hvitfeld. Þar epter feingu Norsker nija Kyrkiu

Ordinantiu Ared 1607.

# Um Island sier i lœge.

I Islande skede leingri Motstada a Utbreidslu þess Evangeliska Lærdooms, enn i ødrum Kongsens Rijkium. A Biskupsstoolnum i Skalholte synest sem Evangelii Lioos hafe fyrst her i Lande tendrad verid, af þeim Lærdum Monnum þar voru saman komner, hellst Doomkyrkiu-Prestunum Jone Einarssyne og Gisla Jonssyni, er sijdar vard Biskup. Fyllte þessara Flock Oddur, Son Gottskalks Biskups, er sijdar vard Logmadur, og biriade þar ad wtleggia hid Nija Testamented. Angrade Øgmund Biskup þetta miøg, og hindrade hvad hañ kuñe Evangelii Framgang, einnig epter þad hann hafde 1539. lagt fra sier þad biskupslega Embætte. Gissr Biskup Einarsson atte þvi miøg mootdrægt medañ Øgmundur var her i Lande, enn epter þad hann foor hedann, kom Gissur þvi a, i Skalholts Stifte, ad Christians III. Ordinantia var um allt þad

Stipte medtekin af Kennelijdnum. Þad hiælpade og miøg til Evangelii Utbreidslu ä hanns Døgum, ad Oddr Gottskalks Son wtlagde ä Islendsku þad Nija Testament og fleyre nytsamlegar Bækur, sem prentadar gengu medal Prestaña, þeim til Brwkunar. Medan Hr. Gissur lifde framfilgde Biskup Jon Arason þeim Papiska Lærdoome i Hoola Stipte, enn strax þaa Gissur doo 1548. took Jon Biskup Arason ad sier UmsioonSkalhollts Stiptes, framfilgde, med miklum Akafa, þeim Papiska Lærdoome og took til Fanga Marteinn Biskup Einarsson. Epter Dauda Biskups Joons, þegar Marteinn var ä nij setstur äd i Skalhollte, og Olafur Hiallta Son var orden Biskup ä Hoolum wtrijmdest smaamsaman Papisk Villa, enn þo framar og ad ollu leite i Tijd þeirra Epterkomara Gisla Jonssonar og Gudbrands Biskups; Og hafa þeir hasælu Kongar af þeirre Oldenborgisku Ætt, hver epter annann, eblt þann hrein a Evangeliska Lær-

doom og ſieð Skoolum og Preſtum fyrer hið naudſynlegaſta, ſo andlegrar Stiettar Menn framſilgiu kunne Skyldu ſijns Embættes. Sier i lœge meiga i ferſku Minne vera þær agiætu Forordningar, ſem hingað i Landeð voru innſendar af þeim Gudhrædda Konge Chriſtian VI. til Endurbootar Skoolum og ødru i andlegum og veraldlegum Efnum, er ſynduſt Lagfæringar við þurfa.

* * * * * *

## Þeſſir Islendſker Biſkupar hafa her vered ſijdann Endurboot Trwarbragdanna ſkede.

### 1. I Skalholts Stifte.

1. Giſſur Einars Son, koſinn til Biſkups af Biſkupe Øgmunde 1539. var viigdur af Petre Palladio Sialands Biſkupe (hverium ſier i lœge var Hendur falin Umſioon andlegra Efna einkum Lærdomſins her a Lande). Giſſr kom wt 1540. og deyde a 40. Alldre 1548.

2. Marteinn Einars Son, var kosenn a sama Are til Biskups og Gissur deyde: Vigdur af Palladio og kom wt 1549. og þaa hann var a Stadastad, var hann um Vetur-Natta Skeid tekenn til fanga af Sonum Biskups Jons, fluttur til Hoola og þadann ad Modrufelle, hvar hañ var i Vardhaldi hiaa Ara Logmanne; Eñ feck sitt Frelse þegar Biskup Jon og Syner hañs voru fangader af Dada Gudmunds Syne a Saudafelle 1550. Marteirn feck sig lausann fraa þvi Biskupslega Embætte 1556. og deyde i Midhwsum skamt fraa Alptanese 1570.
3. Gisle Jonsson fæddur i Hraungerde i Flooa 1513. vard sijdan Kyrkiu Prestur i Skalholte, og þar epter i Selaardal: Kosiñ til Biskups 1556. kom til Stoolsens 1558. og deyde um Sumared 1587.
4. Oddur Einarsson, fæddur i Modruvallna Sele 1559. var Læresveiñ Ty-

chonis Brahe, sijdar Profastur, eda hanns Fullmegtugur, a þvi Konglega Communitete i Kaupenhafn, sijdan Skoolameistare a Hoolum i 2 Ar; Kosinn ad Raade Gudbrandar Biskups 1588. viigdr til Biskups af Paale Matthias Syne Sialands Biskupe og kom wt a sama Are 1589. var Bisk. 41. Ar og deyde 1630.

5. Gisle, Sonur Biskups Odds, fæddr 1593. var Kyrkiu Prestur i Skalholte 1616. Skoolameistare þar 1621. sijdañ Prestur i Stafhollte, og þar epter i Hollte under Eyafiollum: Var kosenn til Biskups 1631 og kom wt Are sijdar til Stoolsens. Hann deyde a Þijngvollum a Þijngmariu Messu 1638.

6. Bryniulfur Sveins Son, fæddur ad Hollte i Onundarfyrde 14. Dec. 1605. vard Con-Rector vid Skoolann i Roiskeldu; Kom hingad inn a sama Are og Biskup Gisle deyde, var strax kosiñ til Biskups, sijdann vigdur i Kaupen-

hafn

hafn 5. Maii 1639. og kom wt sama Sumar. Hañ afhente Stooleñ sialfur sijnum Epterkomara, og deyde 5. Aug. 1675.

7. Þordur, Son Þorlaks Biskups a Hoolum, fæddur 1637. var Skoolameistare a Hoolum 1660 wtnemdur til Biskups epter Bryniulf af Kongenum Fridrik III. 1669. sigldi i fiorda sinn hedañ af Lande 1671 vijgdur 25. Febr. til Biskups, og dvalde a Hoolum hia Broodur sijnum Hr. Gisla til þess hañ took vid Stoolnum i Skalhollte 1674. flutte Prentverked þangad og biriade med þad 1686. Deyde 1697.

8. Jon Þorkels Son Widalin, fæddur i Gordum a Alftanese 1666. vard Heyrare i Skalhollte 1692. og Are sijdar Doomkyrkiu Prestur þar. Sijdann vard hann Prestur i Gordum a Alptanese, sigldi til Kaupenhafnar epter Biskups Vijgslu, hvoria honum veitte Biskup Henrek Borneman 1698. kom

til Stoolſens ſama Ar og deyde i Sælu-hwſum 30. Aug. 1720. þa hann hafde 22. Ar vered Biſkup, og epter ſig lat-ed agætar Utleggingar yfer Gudſpioll-en og Chriſti Piinungar Hiſtoriu, auk fleyre Meiꝛkee Boꝛka, hann hefꝛ ſamaꝛk-ꝛked og wtlagt.

9. Jon Arna Son fæddur 1665. vard Heyrare a Hoolum 1692. og Skoola-meiſtare 1696. þar epter 1707. Preſtur ad Stad i Steingrimsfyrde og Are ſiid-ar Profaſtur i StrandaSijſlu; Epter Konglegre Skipan ſiglde hañ til Kaup-inhafnar 1721. og kom wt Are ſiidar Biſkup, deyde 8. Febr. 1743. þa hann vantadi 2. Vetur a Attrædt.

10. Olafur Giiſlaſon, Doom-Kyrkiu-Preſtur i Skalhollti og Profaſtur i Ar-neſs-Þijngi, ſiidann Preſtur ad Odda og Profaſtur i Rangar-Þiingi, vigd-iſt til Biſkups i Kaupinhafn 1747. de-ydi 1753. a 63. Alldurs Ari.

11. Finnur Jonsſon, fæddur 16. Jan.

1704. viigdest ad Reikhollte 1732. og vard skemu sijdar Profastur i Borgarfiardar Sijslu og 1743. Officialis i Skalhollts Stipte, og þar epter Biskup 1754. Epter Kongleare Skipan vard hann Doctor Theologiæ 1774.

## 2. J Hoola Stipte.

1. Olafur Hialltason, var Prestur first i Vesturhops-Hoolum, sijdann vid Doomkirkiuna a Hoolum og þar epter i Lausa se, hvadann Jon Biskup Ara Son rak hann, vegna þess hann predikade moot Pafadomsens Villu; foor hann þa til Danmerkur, hvar honum var tildæmt Lausaþ Kall, enn kom vt med Biskups Tign 1552. Synde hann sig miog kostgiæfenn i þvi ad framfilgia Evangelii Lærdoome, enn ætte miog torsookt. Hann innfærde a nij Heitdagenn, (*) og asamt Arna Gislasyne,



(*) Heit Dagurik var laungu adur halldeñ i Nordurlande, og ad vijsu fyrer 1470 hver fyrer þeir eru til, sem meina hañ hafe vered

sem hafde Kongs Umbod i Hunvatns Þijnge, samantook þann Reformerada Christenrett, sem þo hefur ei Logleiddur vered. Olafur Biskup deyde 1569.

2. Gudbrandur Þorlaksson, fæddur a Stadarbacka 1542. var ætskrifadur ur Hoola Skoola 1560. og vard sijdann Heyrare þar um 2. Ar, siglde sijdann til Kaupenhafnar Haaskoola og þaa hann kom ut 1564. vard hañ Skoolameistare i Skalhollte, og ad þrem Arum lidnum vijgdest hann til Breidabolstadar i Vesturhoope; Sijdann var hann einn Vetur Skoolameistare a Hoolum; Enn epter Dauda Olafs Bisk-

sw gamla Einmaanadar Samkoma, sw Logbook vor um talar, þar hañ einig var hallden fyrsta Pridiudag i Einmaanude. Þesse Heitdagur aasamt Joola Nottuñe var af tekeñ i Forordn nauñe um Helgehalld Sabbatsens a Islande, Dat. 29. Maii 1734. einig saa Sidur, ad flitia Embætte i Kyrkiunum þañ fyrsta Sumar og Vetrar Dag. Her ad auk er 10. Helge-Dogum fækkad epter Forordnguñe af 26. Octobr. 1770.

Biskups var var hañ kalladur til Danmerkur, took þar Biskups Vijgslu og settest ad Hoola Stool 1571. Hann upprette Prentverk a Hoolum, og gaf þad Doom Kyrkiunne. Hann samanntook og wtlagde Fiolda andlegra Booka, sem hañ let þrickia, medal hverra var sw heila Biblia, sem wtkom 1584. og þad Nija Testament wt af syrer sig 1609. Hann hellt miøg fram Lærdoomenum um̃ sijna Daga, afrook Epterstødvar Pæfadoomsens, og hefur vered eiñ hiñ meste Nytsemdar Madr Land vort hefur bored. Epter þad hñ hafde Biskup vered 56. Ar deyde hann hælfnijrædur 20. Jul. 1627.

3. Þorlakur Skwlason, fæddur 1597. a Eirikstødum i Svartardal, vard Heyrare vid Hoola Skoola 1615. siglde Are siidar til Kaupenhafnar Hæskola, vard 1619. Skoolameistare a Hoolum, siidañ 1624. Doomkyrkiu Prestur. Epter Moodur Fødur sinn Hr. Gud-

brand, var hann kosenn til Biskups, sigldi sama Sumar, took Biskups Wijgslu i Danmörk og settest ad Stoolnum 1628. Hann wtgaf margar goodar Bækur, og deyde 4. Jan. 1656.

4. Gisle Þorlaksson, var her um hálft annad Ar Skoolameistari a Hoolum, kosenn i Stad Fødur sijns, vijgdest til Biskups 1657. let þryckia margar andlegar Bækur, deyde 1684. a fimtugasta og þridia Aldurs Are.

5. Jon Vigfusson, fæddur 1643. var um Stund Sijslumadur i Borgarfiardar Sijslu, enn miste þad Embætti 1673. sigldi sama Ar, og feck þar epter Konglegt Veitingar Bref, ad meiga verda Biskup epter Hr. Gisla, og vijgdist af Biskupe Bryniulfe, hvad ed skede 10. Sunudag epter Trinitatis 1674. og flutte hann sig ad Hoolum þegar Hr. Gisle var fraafallenn. Deyde snögglega 1690. 30. Junii, þa hann hafde virkelegur Biskup vered 6. Ar.

6. Einar Þorsteinsson, fæddr ad Hvammi i Nordur-ar-dal 1633. 21. Febr. vard 1654. fyrst Heyrare, siidan Skolameistare at Hoolum, þar epter Prestur ad Mwla 1660. enn kom til Stools sins 1692. epter þad hann a sama Are þañ 23. Martii var vijgdur til Biskups aisamt sinum Epterkomara Biskupe Byrne, af Sioolands Biskupe D. Bagger. Hr. Einar deyde 9. Oct 1696.
7. Biørn Þorleifsson, vard Capellañ hia Fodur sinum Sr. Þorleife Jonssyne i Odda 1687. og epter hñs Dauda feck Staden og Profasts Dæmed i Rangarvalla Sijslu 1690. Hann þaag Biskups Vijgslu 1692. sat i Odda til þess Hr. Einar deyde, flutte sig ad Hoolum 1697 keypte Prentverked af Sijslumannenum Bryniulfe Thorlacio og færde þad ad Hoolum 1704. Deyde 1710.
8. Steinn Joensson, fæddur a Hiallta-backa 30. Aug. 1660. var fyrst Capellan

ellan i Hitardal 1688. epter Sr. Olaf Jonsson, sijdan Kyrkiu-Prestur i Skalhollte, þar epter Prestur i Hitarnese, sijdast aa Setberge; siglde epter Biskups Biigslu 1710. hveria hañ odladest aa Trinitatis Hatijd nærsta Are epter. Hann vañ Prentverked til Hola Doomkyrkiu, og brukade þad kostgiæfelega medann hann lifde. Hann deyde 1739. 2. Dec.

9. Halldor Bryniulfsson, fæddur 15. Apr. 1692. var fyrst Prestur til Utskaala og Hvalsness i 20. Ar, til þess hñ 1736. feck Stadastad og Profastsdæmed i Snæfells-Siislu. Hann viigdest til Biskups 1746. og deyde aa Utsigling i Eyrarsunde 22. Oct. 1752. liggur grafenn i Vor-Frwr Kyrkiu i Kaupenhafn.

10. Gisle Magnusson, fæddur aa Grenjadarstodum 12. Sept. 1712. var Skoolameistare i Skalhollte 9. Vetur, viigdest 1746. til Stadar aa Olduhrigg

og

og var Profastur i Snæfells-Sijslu. Feck Konglega Skipan ad sigla til Kaupenhafnar, og var vijgdur 4. Maii til Biskups 1755.

## 3. Um̃ þar Reformerudu edur Calviniſku Sofnudi.

N.B. Til ad þeckia Aſigkomulag þeirrar Reformerudu Kyrkiu, syniſt hendtugaſt ad geta um̃ hennar Uppbyriun og Utbreidſlu i Schveitz, Frankarijke, Englande, Hollande og ⁂ ſumum Stodum i Þijdſkalande.

62. Hver var þeirra Reformerudu edur Calviniſku Trwarbrogda Byriun og Utbreidſla i Schveitz?

Um̃ ſomu Munder eda ſkom̃u epter þad Lutherus took ſier fyrir i Saxen ad hindra Aflaats-brefa Solu Tezels, ſette Ulrich Zvinglius ſig a moote ſlijku Kaupmangi i Stadnum Zurch, hvar fyrir Samkoma var þar halldeinn 1523. og þar aalyktad af þvi veralldlega Yfirvallde ſama Stadar, ad Preſtarner ſkylldu ei an̄nad kenna,

enn þad samkvæmt være Spaamannaña og Postulanna Bookum. Þeir Papisku æstust vid þetta; enn þar þeir gaatu ei med Lærdoomum Heil. Ritningar forsvarad ymislega Hiaatrw, sem vidteken var i þeirre Papisku Kyrkiu, þaa var ad niju halldin Samkoma i Bern 1528. til ad tala wt uñ Trwarbrogden, og vard sw Endalykt, ad þeir i Bern giordu 1532. fyrir sig og underliggiande Fylke eina nija Kyrkiu Ordinantziu; kostudu af sier Paafans Oke, vidurkeñdu H. Ritning vera einasta Grundvoll sinnar Trwar, handterudu Sacramenten epter þeirre fyrstu Iñsetning, og settu Oldunga fyrir Safnadena. Þau Herod, sem helldu vid Paafans Setninga færdu hinum Striid a Hendur, i hveriu Zvinglius feck Bana, og varir þar þesse Agreiningr i Trwarbrogdunum eñ vid. Lærdoomur Zvinglii wtbreiddest til Nærstliggiande Herada, medal hverra var Genf, og var þaangad kalladur Johañ Calvin ad kenna opennberlega Guds Ord.

So

So vel i Schveitz, sem einkanlega i Genf letu Menn sier hvad hellst umhugad, ad burt taka alla forna Kyrkiu-Side, og innfæra þar allra einfølldustu Adferd i þvi ad kenna Guds Ord og handtiera Sacramenten; og sa Genfiske Søfnudur vár allitenn hinn hreinaste og einfalldaste af allmorgum, epter hvers Setningum marger adrer, einkum i Frankarijke og Hollande, breita vildu.

63. Veik þar Calvinus og Zvinglius fra þeim retta Evangeliska Lærdoome?

Ad vijsu, sierdeiles i þeim Lærdoome um Utvalninguna og Nærveru Christi Lijkama og Bloods i Altarisens Sacramente. Þesse Agreiningur hefur komed þvi til Leidar, ad sw Calvinska edur Reformerada Kyrkia er fraskilin þeirri Lutheranisku, enn hefur eingu ad sijdur miøg vijda wtbreidt sig og haft merkilega og hálærda Menn. Þo er þesse Reformerada Kyrkia adare nu i Tillititil sinna Meininga i marga Søfnudi, af hvorium nockrir kunna framvijsa

sijn-

siinar eigin Trwarjaatningar; Enn þar þær mismuna fra þeirri oumbreittu Augsborgar Jaatningu, þa hefur siw Evangeliska Kyrkia ei þokst kunnad taka þaa Calvinisku i fullkomna Sameining, jafnvel þo tijdum hafe vered til þess reynt, og saa Flockur hefde maatt synaz Vaarennelegre, ef inbirdis Einingu hefde fullkomlega ordeð aakomed.

64. Hversu geck til med Endurbovt eda Reformation Trwarbragdaña i Franka-rijke?

J þessu Rijke hafde Hiaatrw og Osæmelegt Lijferne vijdast Yfirhond, eins og i odrum Londum, þar til Luther sette sig af Alvoru moot Papistanna Villum og Oþolande Stioornan. Biskupen i Meaux i Champanien Vilhiaalmur Brissonet var einn hinn fyrste, nefnelega 1523. er hlidmæltur var þeim, er endurbæta vildu Trwarbrogden. Vilhiaalmur Farel predikade aasamt odrum i hanns Stifte Evangelium; enn þaa Biskupenn vard þess var ad slijkt mislijkade Fracka Konge, hafde

hann ei Traust til ad framfilgia þvi uppbyriada Reformations Verke i siñe Siijslu, og hlutu þeir fyrstu Evangelisku Predikarar rijma Riiked, enn þeirra Tilheyrendur sættu stoorum Offooknum. Calvin vox sliikt ei i Augum, helldur kom þangad 1533. og snere morgum fra Pafans Villum, medal hverra var Hertoga-Iñan fra Ferrara, Doottir Hlodvis XII. Fracka Kongs. Pafen og hañs Filgdar-Lid sporudu a sijna Siidu ecke Sverd, Fangelse nie Brennur, ecke Kwgan nie Raan Fiarmuna og Virdinga til þess ad hindra Evangelii Utbreidslu: Enn midt under þessum Offooknum helldu þeir Reformerudu Samkomu i Paris, hvar þeir samantooku sina Trwarjatning, og eina Statutu, um wtvortes Stioornan sinna Safnada; ad hveriu giordu Calvinisk Trwarbrogd wtbreiddust Dag fra Dege um Riiked. Þeir Papisku æstust vid þetta og giordu eitt Samband siin a millum, er þeir kolludu hid Helga [ Liga Sancta ]

til

til ad underþryckia þa Reformerudu, og þea ymisleg Vidleitne hrock þeim ei, tilfell þad so kallada Pariſiſka Blood-Brwdkaup. Enn þvi var ſo vared: Henrik Kongur af Navarra, ſem var Oddvite þeirra Reformerudu, giftest 1572. þeirre Fronſku Princeſſu Margrete Vales, og var til þeirra Brwdkaups boded øllum þeim Reformerudu, ſem voru i Rijkenu, einkum þeim ſem nockurs voru metner, en þad bioo under, þeir ſkylldu aller drepner verda. Þetta Bloodbad byriadeſt a Bartholomæus Meſſu, ſem þa bar uppa Sunnudag, og varade i heila Viku, med ſoddann Grimd og Akafa, ad varla edur ecke finnaſt Dæme til ſlijks. Sialfur Brwdgumenn, Henrik Kongur, hafde nær miſt Lijfed, og var ſettur i Fangelſe: Þad finnſt ſkrifad, ad einaſta i Paris og Forſtodunum hafe drepnar vered 70000. Manneſkiur. Henrik komſt wr Fangelſenu og giørde ei einaſta þad Helga Samband ad engu, helldur fyrir Tilſtyrck þeirra

ra Reformerudu vard Kongur i Frankarijke, enn saa þo sitt Ovænna, ef hann ei snerest til Pa-rrar Romversku Kyrkiu, hvad ed skede 1593. Þo gaf hann wt þaa merkelegu Rettarboot i Nantes Ared 1598. ad Reformerader skylldu niouta æfenlegs Fridar i tiedu Rijke, og til Fullvissu her uñ feck hañ þeim i Hendur nockrar Rijkesens Festingar. Þesse Lempne var ei epter Gede þeirra Papisku, enda var hann med Svikum stungenn i Hel 1610. Sw Reformerada Kyrkia stood under þessum ægiæta Konge i fullum Blooma, hvor þo folna took i Hlodvis XIII. Tijd. Samt stadfeste hañ ædur-greinda Henriks Rettarboot 1627. enn þeir Reformerudu mistu engu ad sijdur sijna Stade og lidu margfolld Rangindi, enn þeirra Eydelegging skede þo ei fyrr enn þaa Hlodver XIV. var komenn til Rijkes, hvered 1685. Onijtte Henricks Verndarbref og undanfarna Fridar-Saattmaala, er hann siælfur i fyrstu, Fader hanns og Afe med Svar-

dögum

bögum hofdu inngenged. Þeir Refor-merudu, (sem kolluduſt Hugonoti) ſettu þaa grimuſtu Offooknum, Kyrkiurnar voru fraa þeim teknar, Preſtarner ſetter i fwl Faangelſe, eda lijflaatner. Foolk Hundrudum ſamann, þaa þad badſt fyrir edur heyrde Predikun, aan allrar Vægd-ar nidurdreped; ſkamarleguſtu Nijdings Verk framin aa Ungum og Gomlum. Æra, Frelſe, Eigner, voru i Hers-Hond-um. Marger flwdu Ættiarder og Odul, enn fleſtum var þeſs varnad af Kongſins Striids-Foolke, er þeſs giætte, ad eingen ſkyllde undan komaſt. Hiaatrw og Van-trw hrooſudu, aa þeſſare Offookna Tijd, alla vega Sigre. Þeir Reformerudu hegdudu ſier i ollu þeſſu Mootlæte þolin-moodlega, voru hlijdner og trwer ſijnum Konunge, og hofdu i ymſum Tilfellum ſynt ſig oruggaſta Rijkenu og ſijnum Lands Monnum til Forſvars; þeirra Sok var einaſta ſu, ad þeir ſtadfaſtlega vildu þioona ſijnum Gude med þeim Hætte, er þeirra Samvitſka og Sannfæring baud þeim,

65. Hver voru Upptøk og Framgaungur þess Reformerada Lærdooms i Englande og þar til heyrande Rijkium?

Henrik VIII. þess Nafns, Englands Kongur, hellt fyrst med Paafanum, og skrifade moot Luthero um þau 7. Sacrament; sijdan fell hann fraa Paafanum, og giørdest Paafe, eda Safnadanna Hofud, i sijnu Rijke, enn hellt þo ad mestu vid þau Papisku Trwarbrøgd, hafnande Lutheri og Zvinglii Lærdoomum. Son hanns Jatvardur, VI. þess Nafns, innfærde i England þau Reformerudu Trwarbrøgd, fyrer Fulltijnge Cranmers Erke-Biskups, Marteins Buceri og Peturs Martyris; enn þaa hann hafde rijkt 6. Ar, var hann drepenn aa Eitre 1553. Haalf-Syster hǔs Maria Henriks Dottir vard sijdan Drottning i Englande og innleidde aa nij þau Papisku Trwarbrøgd, enn ei aan Storra Offsookna, er hennar Reformerudu Þegnar maattu lijda, af hverium mikell Fiølde var brenndur eda haalshøggenn, medal hverra var Erke-Biskupenn Cran-

mar. Epter þad hun giftest Philippo II. Konge i Spanien, kom Syster hennar Elizabet til Stioornarennar, hver ed uppræætte Pafans Lærdoom, enn innfærde nær um allt sitt Rijke þau Reformerudu Trwarbrogd, sliika og þau ædur voru i Tijd Jatvardar Broodur hennar. Hun rak burt Jesuitana wr sijnu Rijke, stadfeste Biskupanna Myndugleika, kallade inn i Rijked þa sem rijmt hofdu þadann, medann Maria Syster hennar stioornade, og let samantaka þa Engelsku Jatning a einu Oldunga Moote, sem hallded var Aared 1571. Elizabet giftest ecke og doo barnlaus, enn kaus epter sig til Rijkesins Jacob I. Skota Kong, er giftest 1590. Danskre Princessu, sem het Anna. J þessa Kongs Tijd, samt Carls I. og Cromvels, adgreinde sig sw Engelska Kyrkia i ymsa Sofnude, vegna innbyrdes Misklijda, er risu ei so af Grundvelle Lærdoomsins, sem wtvortes Kyrkiu Stioorn og Ceremonium, enn þa Jacob II. (Son-

ar

ar Son Jacobs I.) kom til Rijkes Stiornareñar, vilde hann aa nij innfæra þau Papisku Trwarbrogd, enn hanns Þegnar settu sig þar aa moote, og mætte þvi þesse Kongur rijma Rijked 1688. og deyde i Frankarijke 1701. enn Doottur Madur hanns Vilhiaalmur Kongur giorde þaa Alyktan 1689. ad hver Sofnudur mætte brwka sijna Sidu i wtvortes Guds Þionustugiord. Sijdann hafa þau Reformerudu Trwarbrogd vidhalldest i Englande, Skotlande og ad nockru leite i Irlande, Sudureyum og Orkneyum; einnig wtbreidst til þeirra Landa og Herada, hvar Engelsker hafa fest sinn Foot, einkum i Vest-Indiunum.

66. Hvijlijkt er Asigkomulag þeirrar Engelsku Kyrkiu?

Hun er adgreind i marga Flocka, sem hafa Olikar Meiningar um eitt og annad i Lærdoomenum og utvortes Guds Þioonustu. Þesser hellstu Flockar eru annadhvert þeir, sem filgia Ordinantiu Elizabet-

ar Drottningar, og brwka vidlijka Kyrkiu-side, sem Lutheraniſker, og kennaz þesser vid Biſkupana, þar þeir eru under þeirra Tilſioon, og kallaſt Episcopales. Hiner, sem ei filgia greindre Ordinantiu, nie vilia vera under Yfirſyn og Stioorn Biſkupaña, brwka engar Kyrkiu Cerimoniur, eda wtvortes Vidhefn i Guds Þioonuſtu, og kallaſt þvi Puritani. J Þeim Lærdoome, um Guds Utvalning og Chriſti Lijkama og Bloods Nærveru i Altarefens Sacramente, ganga Engelſker nær, þvi sem i Lutheraniſkum Sofnudum er kennt, enn adrer Reformerader.

67. Hverſu hefur tilgeinged med þeirra Reformerudu Trwarbragda Framgang i Hollande, edur þeim Sameinudu Nidurlondum?

Þegar Carl V. Keiſare ofſookte þaa Lutheraniſku i Þijdſkalande, flijdu marger til, ſo kalladra, Nidurlanda, einkum til Brabant og Hollands, hvar Menn hofdu notied ſtærra Frelſes enn annarſtadar i þeim Sveitum; Enn þar þeir gaafu ſig fra þeim

Pap

Papisku Trwarbrøgdum (*), þaa sættu þeir þrøngum Offsooknum fyrir Tilhlutan nefnds Keisara, enn þo miklu þyngre undir Syne hanns Philippo II. Konge i Spania, sem feck ad Erfdum Nidurløndin, og sende þaangad Hertogann fraa Alba, til ad uppræta þau Reformerudu Trwarbrøgd. Mørg Þusund Manna mistu fyrir Elde og Sverde Liifed, og Fiølde Kvennfoolks vär kvikfettur. Loksins søgdu Hollendsker upp Trw og Hollustu Philippo Konge, og epter bloodugt Strijd, er varade i 70. Ar, feck Holland (hvar under skiliast þau 7. Herod, sem Samband hafa giort sijn aa mille til innbyrdes Forsvars) fullkomenn Frid, og braut sig undann þeirre Sponsku

 Yfir-

(*) Pad stood um Hrijd, ad Hollendsker vøru i Efa hvert þeir skylldu filgia Lærdoomi og Kyrkiu-Sidum þeirra Lutheranisku, eda þeirrai Schveitz: Loksens tooku þeir sier Snid epter þeirre Reformerudu Kyrkiu i Schveitz, sem sijner Confessio Belgica, utgefen 1571, edr þar um Bil. Synest her ad hafa stadt Mok þann mis þeir høfdu vid þaa Reformerudu i Frankrijke og Schveitz.

Yfirdrottnan 1648. þaa Philippus IV. var Kongur. Pau Calviniſku Trwarbrogd hafa ſijdann haft Yfirhönd. Sw Holl nd'ſka Kyrkia hefur i andlegum Efnum ſameinad ſig þeim Calviniſku Sofnudum i Schveitz og Þijdskalande, enn wtvortes Stioorn og Kyrkiu-Skick er ſett ad vidliikan Foot og tijdkanlegt er i Genf. Ondverdlega a þeirre XVII. Old upp kom ſtoor Þræta, wr af Guds Utvalning og Utſkwfan, millum tveggia Kennenda vid Haaſkoolann i Leiden i Hollande. Het annar þeirra Hermann, eda Arminius, enn aññar Frantz Gomar. Kom hiñ fyrre nær þeim Lærdoome, Lutheraniſker frameſetia i greindu Efne, enn Gomar filgde einmidt Villu Calvini. Arminius deydi 1609. enn ei wt doo ad helldur, hvad hann hafde kennt, hvar af ox meſta Sundurþicke medal Kennendanna i Nidur-Londunum. Lokſins var halden Samkoma til Dordrect, ſem varadi fraa 13. Nov. 1618. og endadeſt 9. Maii næſt epter; Og þar þeir,

ſem

sem silgdu Gomars Lærdoome ( sem kallast Contra-Remonstrantes ) voru a þessu Þinge sleyre enn þeir Arminisku, sem kallast Remonstrantes, þar voru þessara sijdare Lærdoomur fordæmdur, og maattu þeirra Kennendur rijma fraa Hollande um Stund, enn sengu sijdar, nefnelega 1630. Leife ad byggia sier Kyrkiur og Skoola, og settu þeir þaa hellst Foot i Amsterdam og Rotterdam. Sijdann hafa marger af þessum yfer gefed þann retta Lærdoom, og slæst sig i sumum Villum Socinianiskra. Næst Calvinistum eru Lutheraniskir best lidner i Hollande, enn sijst Papisker; þo lijdast Endurskijrarar, Socinianisker og adrer Villu-Lærendur, ei ad þeir ælijtest sem Limer þeirrar Calvinisku Kyrkiu, helldur sem Þegnar Stioornar-standsins, medan þeir eckert taka sier þad fyrir Hendur, sem þess Vidhalld og Velferd sijnest hindra.

68. Hverier eru þeir hellstu Sofnuder i þvi so kallada Romverska Pijdska Rijke; sem teked hafa vid þeim Reformerndu Truarbrogd-

arbrogdum?

Kior-furstenn i Pfalz Fridrik III. rak burt wr sijnu Umdæme þaa Evangelisku Presta og innleidde 1560. þau Reformeradu Trwarbrogd; epter þvi sem finnst i þeirre af Philippo Melanchthon umbreittu Augsborgar Jaatning, og þeim Catechismo, samantekenn var i Heidelberg. Þar epter fell fraa þeim Evangelisku Lærdoome Bremen, jafnvel þo marger Lutheraniskar finnest nu um Stunder i þessu Hertogadæme. Landgreifenn Mauritz i Hessen fell fraa þeim Lutheranisku Trwarbrogdum til þeirra Calvinisku, og innfærde þau i sitt Rijke 1605. Kiorfurstenn af Brandenborg Johann-Sigmundur fell 1614. til þess Reformerada Lærdooms og hefur saa same Yfirhond þar aa Vindlande, sem nu kallast Mark-Brandenborg, enn i flestum odrum Stodum, sem eru i Puidskalande og heyra til Kongenum af Preussen, so sem Kiorfursta af Brandenborg, vidgangast þau Evangelisku Trwarbrogd.

**69. Eru ei eñ fleyre Sofnuder, eñ þeir sem kēña sig vid Lutheri og Calvini Lærdoom, sem um þessar Mynder hafa skiled sig frá þeirre Romversku Kyrkiu?**

Ad vijsu: Og her til heyra:

1. Sociniani, sem standa á moote þeim retta Lærdoome um þriár adgreindar Persoonur i einne Guddoomlegre Veru, og med þessare sinne Villu vilia nidurbriota Grundvoll christelegrar Trwar. Hiñ hellste Hofundur þessarar Villu er almeñt talenn Lælius Socinus og Frænde hañs Faustus Socinus Utbreidde Faustus sijnar Villu hellst um pad Polska Rijke, en hañs Filgiarar voru sijdan af Kongenum Johñ Kasimir þadañ burt rekner 1661. Naamu þeir þar epter Stadar hiá sijnum Brædrum i Transylvania medann Johann Sigmundur riede þar fyrir, enn fyrir Tilstille Jesuitanna urdu þeir þar underþryckter, enda eru þeir hverge i Christendoominum vel-lidner, nema hvad þeir hafa i þeim sameinudu Nidurlondum funded sier Ohættare Boolfestu enn ann-

arstadar.

2. Endurskiirarar edur Anabaptistæ, sem hafa sitt Nafn þaraf, ad þeir ælijktudu, ad Børn ættu ei ad skijrast, fyrrenn þau væru komin til Vits og Ara, hvar fyrer þeir skijrdu þaa aa nij, sem gæfu sig i þeirra Samfelag. Þesser, under Skine Christelegra Friheita, stiptudu adgreinadann Sofnud strax aa Lutheri Døgum, setti sig moot andlegre og veraldlegre Stiornn og komu aa Stad mestu Ospektum. Thomas Munzer og adrer voru Fyrerlidar þess Upphlaups, sem skede af Bændum vijda i Þijdskalande, so þeir Þijdsku Furstar saau sig neydda til med Herskilde ad eyda og stockva þessum Oaldar Flocke. Loksens feingu þesser Endurskiirarar goodann Lidsmann i einum Papiskum Preste, sem het Simon Menno, er let sig yfertala, ad falla i Sid med þeim, sem einnig vidrette þeirra Efne og færde i ælitlegra Lag margt hvad i þeirra Lærdoomum, hvors vegna

Þeir halda sier fraa Bardogum og Em-
bættum, og eru flester af þm olærder Hand-
verks- og Kaup-menn, og sumer Læknar-
ar. Hvad vissum Lærdoomum og utvortes
Sidferde vidvijkur, þa eru þeir nærsta
olijker sijn i millum, og adgreinder i tvo
Hofud-Sofnude, þan sem er i Flandern
(Flæmingialande) hverium Wijdsker og
Frijsar fylgia, og þann i Waterlandi, sem
lagar sig meir eptir þeim Reformerudu
Sofnudum, hefur og lærda Menn sijn a
milli, og fylgia ei þeim Þorparaskap, er so
miog elskast af þeirra Brædrum, sem vilia
heita Ospilltir Mennonitar. Nu um
Stunder syna þessir Mennonitar sig frid-
sama og gagnlega, og eru þeir ei illa lidnir, i
þeim Stodum, hvar þeir hafa Boolfestu
fengid.

3. Qvakeri, edur þeir Skiælfandi.
Þeirra Foringi var Jorgen Fox, Engelsk-
ur, sem under þeim Nafnkunnuga Crom-
vell, er under sig hafdi dregid þa yppurstu
Stiorn i Englandi, eptir ad Karl Kongur

 Stu-

Stuart var Halshoggvin̄, kvad þad upp fyrir Alþijdu, sem Hoopum samann flyckt-ist ad honum, ad þar være hia Monnum eitt innvortis yfirnatturlegt Lioos, eptir hveriu Menn ættu einungis ganga i Trw-arinnar og Sidanna Lærdoomum ; ad þetta Lioos, enn ei sia Heil. Ritning, være þad, er viisadi Monnum Veg til Himin-sins, og þar aller hefdu þad innvortis i sier, so væru Limir þeirrar sonnu Kyrkiu ei ein-asta þeir christnu, helldr Gydingar, Tyrkiar og Heidingiar; Þess vegna være eginn Þorf a Handteran Sacramentanna, nie a þeim Personum, sem annars almenniles-ga kalladir eru til þess Heil. Prests og Pre-dikunar Embættis, helldur ætti og mætti þad hver einn flytia, yfir hvern felli sa and-legi Hrollur eda Skialfti. Þessi Villu-Flockur helldur siinar Samkomur bædi i Hollandi og Englandi, enn fierdeilis i þvi Land-Platze Vest-Indianna, sem af Eng-lands Kongi Carl II. gefid var 1681. Qva-keranna Foringia Wilhialmi Penn, og

kallast

kallast epter hanns Nafni Pensylvania. —

# 4. Um þa Austlægu edur Grisku Kyrkiu.

70. Hvilijkt hefur verid Tilstand þeirrar Grisku Kyrkiu sijdann Miklagardur var inntekinn af Tyrkium og þad Griska Keisaradæmi fell i þeirra Hendur?

Jafnvel þo sw Griska Kyrkia, sem hier og þar wtbreidd er i þeim Rijkium, hvar Tyrkiar og Heidingiar rada fyrir, sie i aumkunarlegu Asigkomulagi, þa hefur hun enn nu ei gefid sig undir þann Romverska Biskup, þegar undanntakast einstaka Sofnudir. Innvortis hefur hun verid styrk og spillt, vegna margvijslegrar Hiatrwar og þvilijkra Lijfernis-Hatta, er ei sambiooda rettskickadri Guds Þionkan, jafnvel þo i henni, so sem ollum christelegum Sofnudum, finnast kunni margir, sem i Hiartans Einfeldne og Alvorugefne þiona Gude, og eru hvonum þooknanleger. Utvortes hefur hun af Christnenar Ovinum undþrickt vered. Ad sonnu halldast vid þann sinn Patriarka-Sæte, nefnelega, i Mikla-

gårde, Alexandria, Jerusalem og Phila-
delphia; enn þar Tyrkiar hafa hin ædstu
Raad yfer þeim Rijkium, hvar teder Bisk-
ups-Stoolar liggia, þaa fara þeir optlega
ad Kaupum og Sölum, so saa verdur tijd-
az i þaa settur, sem mest bijdur fyrer. Ar-
id 1643. samantooku og underskrifudu þeir
P. Patriarkar, Parthenius i Miklagarde
Johannicius af Alexandria, Macarius,
i Antiochia og Paisius i Jorsölum aasamt
mörgum ødrum Biskupum eina almenne-
lega Trwariatning fyrer þaa GriskuSøfn-
ude, sem sijdar aa Pijnge nockru, halded
var i Jorsölum, i Tijd Dosithei Biskups
var stadfest 1672. og medtekin af þeirre
Grisku Kyrkiu, sem vidur kenner þañ retta
Lærdoom um þaa Heil. Guddoomsens
Þrenning, nema hvad hun vijkur fraa þeim
Lærdoome uñ Framgaang H. Anda, af
Synenum. Sw Griska Kyrkia trwer
ecke Hreinsunar-Ellde Papiskra; Hun aa-
lijtur Christum sem þad saña og eina Kyrk-
iunnar Hofud, og þaa Papisku Kyrkiu

sem

sem adgreindann fierdeilis Sofnud: Braud og Vijn wtdeila Grifer! Altaresens Sacramente; Enn vijkia i einu og ødru fra Lærdoome sinna Forfedra. Helgra Akall er hia þeim almenst, og ælikta med þeirre Papisku Kyrkiu, ad sio sieu Sacramenten. Fiølde Klaustra og Munka finst i þeirra Sofnudum, af hverium flester eru miøg fakunnande, so einstoku Menn er ad finna i þeirre andlegu Stett, sem vegna Lærdooms Nafnkunnuger eru, so sem var sa merkelege Patriark i Miklagarde Cyrillus Lucaris, sem epter margskonar Offookner kiflættenn var af Tyrkium 1638. Þegar Petur I. Keisare i Gardarijke, edur Russlande, var setstur ad Rijkium, vilde hann siner Þegnar i andlegum Efnum hverke væru undergefner Miklagards Biskupe, nie þeim Russiska Patriarka; hvers vegena þesse Mikli Keisare tilsette i sijnum Adseturs Stad Petursborg eitt Samkvæme Lærdra Manna, er kallast Sacra Synodus, hvar yfer Til-

sioon

skvon hefr einhver Rijkesens Erke-Biskup, ad Forsialne og Rettdæme vahnn-kuñur; Enn sialfum sier og sijnum Epterkomendum i Rijkis-Stioornenne tilskilde hann hin ædstu Yfer-Raad og Urlausn i þvi Kyrkiu-Sokum vidkemur. Þesse Synodus hefur vakande Auga yfer þvi, ad ei sie vikeð fraa vidteknum Lærdoomum og Kyrkiu-Skicke, skal og tilkinna, hvad til Lagfæringar horfer. Petur Keisare astook mørg Hindurvitne og Hiaatrw, sem þaangad til hafde vidgeingest, enn endurbætte Skoolana, innleidde booklegar Menter og adrar nytsamlegar Iþrotter, baud til sijn Haalærdum Monnum nær allstadar ad, gaf Leife þeim Sofnudum, sem voru af olijkum Trwarbrogdum, Frelse ad fl tia Guds-ega Þioonustugiord epter hvers eins goodri Samvitsku, þo med þeim Athuga, ad eistar voru naudsynlegar Skordur fyrer Yfergaang hinna Papisku, ad þeir locke i þaa Russisku under Herradæme þess Romverska Þaafa.

Sam

Sem Armeniske Sofnudur i Asia, sem ad fornu filgde ad nockruleite Arii og ad nockruleite Evtychis Villum, naut Fridar medann Abbas Persa Kongur rijkte, enn sijdan hefur hann mætt þwngum Ofsoknum, so i þeirre Alfu Heimsens eru þeir vijdast underþrickter; Enn þeir sem eru i Nordur-Alfuñe og her og þar leggia sig epter Kaupverslan, hafa betre Kiorum ad fagna. Monophysitæ, þad eru þeir, sem filgdu ad nockruleite Evtychis Lærdoome, og aliktudu ad þar være ein Nattura i Christo, og odu uppe hvad mest a hinne VI. Old, fellu a hinne XVII. Old ad nockruleite fraa Lærdoome Forfedra siña til þeirra Romversku Trw-arbragda, enn þeirra Patriarke Ignatius XXV. (*) var rekeñ i Ut-

(*) Fra Birtun þeirrar 15. Aldar hafa Patriarchar Monophysitarum kallad sig Ignatios, lijklegast þessvegna, þeir alijta sig sem Epterkomendur hins H. Ignatii, sem Biskup var i Antiochia a hiñe fyrstu Old. Vidlijk O. sok mun vera til þess, ad Patriarkar Maronitaña kalla sig Peturs Nafne, þvi þeir halda Petur

i Utlegd, og hefur ei sijdan bored mikeð a peirre litlu Hiord er hān h. sde tekeð sier til Umsioonar. Maronitar hafa sitt Adsetur vid Fialleð Libanum, og þeir hafa gefeð sig að nockruleite under þañ Romversk Stool, einn hofðu þo sinn eigeñ Patriarka a næz undañfariñe Old under Christnum Stioornara, sem þeim Tirkneska Keisara var skattgildur, og filgiaþeir sijnum fornum Sidum. Samt telur ei Paafen epter sier, i Von að hanns Velde kiñe a þeim Stoodum i Austur-Aisunne helldur wtbreidast, ærnum Peningum að sooa Maronitunum til Fulltinges, og þeim til Uppheldes og Launa, sem þangað eru sender, edur þaðann koma til Room. Nestorianar finnast enn vijda i Austur-Aisunne, mille hverra kom stoor Agreiningur a nu nærst undañfarenne Old, so þeir eru adgreinder i þriar Flocka; af hverium einn filger þeim Mosulska Biskupe, añar þeim, sem er i Stadnum Ormus, og hinn þridie kenneſt vid

þañ

Postule hafe nærstur Biskup vered sama Stadar fyrer Ignatium.

þann H. Thomas, og er ad finna i Malabar, hver i fyrstu var ꜳþiꜳdur af Jesuitunum, medan Portugisisker hofdu þar Yferꜳd, eñ sijdañ þeir voru þadan rekner, og Hollendsker hofdu nꜳd til sijn Stadnum Cochin, nioota þeir þar fullkomins Frelses.



## Til Lesarans.

Þetta Kver er þeim einkanlega til Uppbyggingar og Froodleiks lꜳted ꜳ Prent wt gꜳnga, sem veria vilia gefnu Toomi til þess, ad fꜳ nockra Avijsan um þad hellsta til hefur bored i Guds Kyrkiu ꜳ Tijmum þess Gamla og Nija Testamentes. Þad Agrip, sem Hr. Horster hefur wt af Historium Bibliunnar samsett, og nu ꜳ nii nærst Ordunum er wtlagt, sijner, hversu Menn med Gaumgiæfne og Eptertþanka eige lesa heilög Fræde. Vidbæterenn, sem af ödrum er samantekenn, og lagadur ad nockru leite epter þeirre Adferd, sem Horster hefur brwkad (so þetta

Kver ydre ei miög sundurleitt ) kann hien
heim til Letters, sem framar vilia yðka si
i Christendooms Sögunum, og ei haf
betre Ahöld. J Widbæternum hefu
filgdt vered Efnenu vidkomande Skrifun
til. Sechendorfs, Holbergs, Mosheims
Rechenbergs og añarra: Eñ vid Uppleslu
þessa Bæklings hafa fundest filgiand

Prent-Villur.

A Siidu 29. Lin. 19. 20. Sydnigar, les
Syndingar. S. 36. L. 15. les Syndaña. S.
52. L. 10. Heit er -- l. Heit, er. S. 113. L. 1
Innbiggendurner l. Innbyggendurnar. S. 144
L. 20. les 120. S. 180. L. 7. ti l. ei. S
164. L. 9. Aldinus l. Albinus S. 205. L. 20
og so ad lesast: Haraldur enn ad her kuñe e
meinast Fader Pyri , , synir Portwoodur etc
S. 210. L. 1. Ansgarus, l. Ansgarius. S
242. L. 21. Bookleger. l. Booklegar. S
245. L. 1. 2. lesest: Dyrkunar, og hvad etc. S
289. L. 19. hañ l. hönum. S. 296. L. 7. l
1269. S 327. L. 16. 17. brwkudu, l. brwka
S. 365. L. 18. l. on Hendur.

Hvad fleyra hefur kunnad yfirsiast, e
goodfws Lesare bedenn ad lesa i Mooled
sem Gude til alls hinns besta er her me
befalenur.

